# Ljóðmæli

## Sigurdar Péturssonar

Sýslumanns í Kjósar sýslu og Hér-
adsdómara í Gullbríngu sýslu
frá 1789 til 1803.

Kostar í kápu 56 sk.

Reykjavík 1844.
Prentud á kostnad Egils Jónssonar,
af Prentara Helga Helgasyni.

# Yfirlit.

# Stellu Rímur.

## Fyrsta Ríma.

1. Í fyrsta sinn eg set á haf
Sudra' ófæran knörinn;
máské hann komist aldrei af
og engin verdi vörin.
2. Margan heyri' eg mumla nú
mann og tródu seyma:
ráð er ad hættir þessu þú
þróttlaus kúrdu heima.
3. En margur bilinn fyrir sér samt
þá fley úr naustum greiddi,
engu ad sídur áfram hann
öldujórinn leiddi.
4. Fjall og jökla skodar skír
og skruggur ferdamadur,
ekki samt hann aptur snýr,
áfram heldur gladur.
5. Fær ei skógar=skrautid bert
skodad um daga alla,

sá er laufid hrædist hvert
hrjái veikan skolla.
6. Þó lídugt gángi ódurinn ei
áfram halda þori;
høldar kalla huglaust grey
er hikar í fyrsta spori.
7. Því skal djarft á dælu=rann
dregid Austra=farid;
hverr sem ekkert voga vann
vinnur ei heldur varid.
8. Søgu þá eg seggjum ber
af sónar bikar renda,
hana frægur hefir mér
Hermann Vesðel kénda.
9. Dønum settur hann var hjá
Hvitbjargs strauma yfir,
þó hann nú sé fallinn frá,
fagurt mannord lifir.
10. Hávelborni heyrdu mér
Herra Asgards búa!
ef mig styrkir eitthvad hér
á þig skal eg trúa.
11. Skáldum fyrr þú skeinktir á
skúmandi kønnur veiga,
svo drengir urdu drukknir þá
drjúga flokudu teiga.
12. Til þín mína bljúgur ber
bæn á orda=vøggum:
Drottinn! géfdu dál'tin mér
dropa úr sónar løggum.

13. Þér eg helga þægast vil
þetta hróðrar=smíði;
Søgunnar þá jeg telti til,
tvinnarósin hlýði.

---

14. Hermanni' einum inni' eg frá
í úngdóms føgrum blóma;
fallegur var og frægur sá
flæða búinn ljóma.

15. Almatírs vóru augun hrein
ástar lofnðu blíðu,
á rauðum klæðum skartið skein,
skøfnúngur hékk við síðu.

16. Høfuð bar rétt; var herða stór,
hár á lendar náði;
kálfa=stæltur kesju=þór
kunni' að dansa' á láði.

17. Hørunds=bjartur hofvik með
sig hermannlega bar hann;
honum var flest til lista léð,
ljóna=prýði var hann.

18. Línspaung eittsinn seggurinn sá
í svanna føgru meingi,
Amor brellinn í honum þá
ei var að kveikja leingi.

19. Einginn kasti á hann stein
ýngismann eda píka;
því í frídleik falda-rein
fann sinn hvørgi líka.

20. En þér sem hafid Blinds vid bord
blódid drukkid skála!
ljáid þid mér nú lidug ord
lilju gulls ad mála.

21. Listum gésin gøfug drós,
gédi búin þýdu
virdtist føgur rétt sem rós
vid røduls morgun-blídu.

22. Atti blómgud audar-gátt
alla prýdi nýta;
ennid fagurt hafdi' og hátt
hvítt sem mjøll ad líta.

23. A landi falda ljósu var
lifandi þéttur skógur,
gimsteinarnir gréru þar
og gyllis bjartur rógur.

24. Fagur-hærdar boga-brýr
breiddust um sjónar-leidi,
augad skjært þar undir býr
einsog sól í heidi.

25. Hugvit bædi og hógværd réd
af hvarma leiptra tinnum

hvítar láu liljur med
ljósum rósa-kinnum.

26. Beinn ávalur ball nær
frá brúna sléttum hlídum,
sætur þadan breiddist blær
af brjósti dreiginn tídum.

27. Værdi varir blídast víf
briddar purpura raudum,
þeirra kossa-kjæti, líf
kunni' ad vekja daudum.

28. Koppa-spés í kinnum ól
káta, svannin fagur;
svo var brosleit bauga-sól
sem besti sumardagur.

29. Vánginn þokka þýdan gaf
hjá þøllu Fofnis-idju;
ljómadi høku ljósri af
med lítid skard í midju.

30. Eikin føgur orma-báls
— úngdóms vafin skarti —
brjóst óflekkad hafdi' og háls
hvítara' en snjórinn bjarti.

31. Sprundid frídt var spannar-mjótt
spangadi vellyst kríngum;
ekki fæ eg ordin sókt
ad ødrum leyndar-þíngum.

32. Bláar ædar blómstur = saum
á bjørtum gjørdu høndum,
eins sem glæran gánga straum
med grænum sjáum løndum,
33. Hvar fram = sigldi silki = ey
sóma bar af øllum,
sem gulli støfud geingi fley
á grædis sléttum vøllum.
34. Eg hér leingur eigi vil
ódar = streinginn teygja;
því svo var føgur falda = bil
ad frá má ekki seigja.
35. Þó fágist illa fyrir mér
fríðust hrínga = nanna;
einhvørr held eg óskadi sér
ad eiga slíkan svanna.
36. Søgunni veik eg sídast frá,
— ef satt eg gjøri muna —
hvar álmabendir audgrund sá
og Amor kveikti funa.
37. Hjartad blídt í branda = þund
brann af kjærleik fúsum;
kjæru tídum fór á fund
í fødur = ljúfum = húsum.
38. Fyrst er sjón og svo er tal,
svo kémur hirlegt auga,

síðan ástar fagurt sal
freyu — hefst við — bauga.

39. Þá odda: bør og audar: rist
ástar semja gaman,
reiknings þarf ei lánga list
ad leggja tølin saman.

40. Fleins — þá — tír og tvinna: rós
teingjast ástarþrædi,
fer, sem kveikt sé ljós við ljós
er løgd eru saman bædi.

41. Hvørt réð ødru unna mest
eydir hrings og þilja;
trú þau saman feingu fest
ad foreldranna vilja.

42. Frá ástar brellum ei fær greint
øllum stefja: letur;
þeir sem hafa þetta reynt
þad vita lángtúm betur.

43. En þeir til sljóda ádur ást
ei hafa rennt af munni,
fyrir þá eg finn þad skást
ad fylgja náttúrunni.

44. Móðir blíðust brjósti í
bið ei vildi lánga;
ætladi fresta ekki því,
er ætti fram að gánga.

45. Í brúdkaups skartid skarlats hlíd
og skjóma herdir linda,
eptir nætur einnar tíd
átti saman ad binda.

46. Brullaupsfólk var bodid frídt
af branda føgrum álfi;
af glaumi ljónid ; ljóra vídt
lék á reidi skjálfi.

47. Kostuleguft veitsla var
virdum fyrirbúin;
ad morgni átti meyarnar
mæt ad kvedja frúin

48. Um kvøldid ádur fagurt fljód
fór til módur sinnar
og hermdi: módir hjartagód!
hlýd til bænar minnar.

49. Má sá edla úngi mann
er ást mér gjørdi fala
lítt hér dvelja? hellst vid hann
hefi' eg margt ad tala.

50. Á morgun fáum valla vid
værdir lángt ad skrafa;
banna mun þad bodsfólkid
og brjótur messutrafa

51. Ansadi módir aptur sín
auds vid lilju káta:

allt hvad viltu elskan mín!
jeg, eptir þér skal láta.
52. Í kvøld þú mátt og kesju-tír
í kyrdum saman vera,
vid hann áttu' ad vera hír;
vín skal eg ykkur bera.
53. Þakkadi módur þýdust ord
þiljan blossa flæda;
sitt vid ástvin setti bord,
saman tóku' ad ræda.
54. Hvad þau bædi þuldu þá
þarf eg ekki' ad seigja,
„á morgun kémur eg þig á
„eg vil hjá þér deya".
55. Hvad þau bædi þuldu þá
þad jeg helst vil dylja;
„mest þér jørdu ann eg á,
„einginn má oss skilja".
56. Hvad þau bædi þuldu þá
þarflaust er ad skrifa;
„sem hjón vid skulum hédan í frá
„hvørt hjá ødru lifa".
57. Hvad þau bædi þuldu þá
þori jeg ekki' ad lýsa;
„sofa ødru hvørt skal hjá
„og hvíldir blídar prísa".

58. Hvad þau bædi þuldu þá
jeg þorna — kved ei — ládum:
„okkar børn þá eignumst smá
„oss skulu líkjast bádum"

59. Hvad þau bædi þuldu þá
jeg þil ei neinum seggi;
„ljúft hvørt ødru lifum hjá
„líkt sem blóm í eggi".

60. Hvad þau bædi þuldu þá
þad er oflángt ad spjalla,
allt þad bædi' og ekkert má
í ordum fáum kalla.

61. Ord voru kossum meingud med
mirdtu fadmløg ama;
vínid heita gladdi géd,
gjørir þad enn hid sama.

62. Hjóna efnum helst vard rótt
hjá sér flest upprisja;
hjalid færdist fram á nótt
fór þó hvørugt syfja.

63. Módir sofa' og fadir ser
fram þá lídur stundin;
háttur gaml'ra ætíd er
allur reglubundinn.

64. En lausa:baldurinn ljósi má
hjá lilju; dveljast; rokka,

ad rós þá meigi' hann sannast sjá
er sjálfur átti' ad plokka.

65. Þau voru bædi ordin ein
allir í svefni láu;
féllu atvik beggja bein,
því bragnar til ei sáu.

66. Lømbin svona leika sér,
med list um græna haga
þegar þau vita' ad ekki er
úlfurinn þeim til baga.

67. Dúfur svo um sumartíd
sitja á blómstur-kvisti:
kurra og vidmót fremja frid
þá fjærri' er haukurinn bisti.

68. Børnin úngu byrja þá
breytni margvíslega,
nær meistarinn þeim feta frá
fer med ásýnd trega.

69. Eins eru þau sem elskast mest
í allri rann og veru;
því þeim fara þykir best
þar sem fæstir eru.

70. Njørfadóttir lánga leid
med ljúfri hægd var geingin
uns brúdurin hir' hjá branda-meid
blídu sló á streinginn.

71. Seint þó bædi svefn þau á
sætur falla kunni;
ordtak sannast: „mangi má
„móti náttúrunni".

72. Fór ad syfja falda : hlad
følna líkams kraptar;
kérin breiskn þreytir þad
er þola stála : raptar.

73. Brúdar sængin búin stód
bjørt í þeirra ranni,
framan á hana hrings : fyri : bjód
sér halladi ljúfur svanni.

74. Strax sé jeg nú stúlkurnar
stúrandi þad grunda;
hvar herrann sá er hjá henni var
hafi gjørt ad blunda.

75. Þó einfaldlega ad sé spurt
andsvør vil ei spara;
var þad aldrei virdt fyrir kunst
ad vilja ei neinu svara.

76. Geingid hefir um gólf í rann
gladan strokid vánga!?
nei! nei! mædu hefdi hann
haft þá nokkud lánga!

77. Hann mun hafa' í kulda' og krøm
kúrt á gólfi snaudur!?

nei! nei! það var skaði' og skömm
fyrir skarlats klæðin rauðu!

80. Máské' hann hafi vínið við
vakað nóttu alla!?
nei! þá hefði höfuðið
hnígið á neðri palla!

81. Fljóði hjá mun fleina: grér
framaná lagt sig hafa?
æ! æ! neyðið ekki' af mér
um alla hluti' að skrafa.

82. Það var orð og það var satt
því er verr og miður;
heyrið þið stúlkur! hann sér vatt
hjá henni þarna niður!

83. Þó mig gantaði þveingja ná
þessu frá að seigja,
einginn, — það er af og frá —
mér uppúr hitt skal teygja.

84. Hvörsu væran biðu blund
bæði rúms á Sessu
snertir ei neina hríngahrund
á heimili öllu þessu.

85. Þó hvört snéríst öðru að
í órum þúngum svefna!
eingan, nema, þeinki' eg, það
þarflaust er að nefna.

86. Jafnvel þó hvørt annars í
ørmum hvíla kunni:
hvørr vill nokkud hafa' á því?
haldi þeir sínum munni!
87. En ef þau hafa ønnur møk
átt, en vera hlýdir:
þad fær ad vera þeirra søk
þad kémst upp um sídir.
88. Þær sem hafa þar til lyst
þølln' ad lasta veiga,
dyrum sínum fyrir fyrst
fallega hreinsa meiga.
89. Sprundin ljót þó spaugi' ad oss,
(af spotti minnst þad seigi)
finnast þau er feingu koss
fyrr en á brúdkaups deigi.
90. Lundur stáls þó léki þar
lilju gulls vid fríða,
marga tíma valla var
vígslunnar ad bída.
91. Þeim eg annad forsvar fann
fljód ei ad því hædi:
mikid syfjud hún og hann
hafa verid bædi.
92. Ovitund vard aldrei sek
eins í dómara høndum;

en hvørr kann ad vita hvad hann lék
í hlýra daudans bøndum.

93. Vidur þrent er þúngt ad fást
þrent kann sønsum brjála:
nóttin þøgul, eldheit ást
og ódæll straumur skála.

94. Þetta leingja þarf ei par
þad mun fæstum gaman;
ad søgunni víkja vil eg þar
hvar vøknudu bædi saman.

95. Dagur ljós á lopti skín
létti myrkra ótta,
þá bródirinn fagri systur sín
svarta rak á flótta.

96. Þessi dagur þad var sá
þau er girntust bædi,
setjast bekkinn, áttu á
og eigast svo med nædi.

97. Ekkert vantadi' annad snart
ad því teingda verki,
en brullaups skrýdast blídt í skart
og blessun taka' af klerki.

98. Þeir sídklæddu' og svørtu menn
saman kroppa laga,
sumir þar af ætla enn
þeir engan hafi baga.

99. Í einum svip þar høgg í høgg
á hurd fyrir útidyrum
þau heyrdu berja branda; skrøgg
er brúdgums efnid spyr um.

100. Adurenn hyskid heima þar
hlaupa' ad dyrum kunni,
aptur barid ótæpt var
elgs á bustar munni.

101. Læt eg skrøgginn fleina fús
fyrir dyrum gista;
aptur læsist orda; hús
endast ríman fyrsta.

---

## Önnur Ríma.

1. Ríman ein þó yrdi sein
á ad heita búin;
mesta þraut var mærdar = staut
mjøg var eg ordin lúinn.

2. En skikkju brú mér skipar nú
skémtun sér ad veita
aptur á ný; jeg þori ei því
þessari bón ad neita.

3. Ef ei fær hin frída mær
fram sinn viljann sanna
hún mér á mun hefnast þá
og hirlegt vidmót banna.

4. Ef litla stund vill lystugt sprund
ljód óføgur heyra,
æru skéda eg mér kved
einskis vænti' eg meira.
5. En sá sem má ei sitja hjá
Sigtírs rícum fundi,
eyru sín ei opni sín
ellegar burtu skundi.
6. Ekki neinum manni mein
min er lyst ad bjóda;
ad skémta mér og ødrum er
efnid stærdra ljóda.
7. Føgur ljód þau fyrra mód
og fæda manna þánka,
um vetrartíd, þá hret og hríd
hart á gluggann bánka.
8. Gétid er þess ad gédug vess
nær góma syngur harpa,
túnglid þá frá tindum blá
tídt sér gjørir varpa.
9. Svo ef er, sem sagt var mér
— (síst því neita géri) —
Máni víst vid mærdarlist
mun þá standa á hleri.
10. En inni sal fyrir ita val
þá arnar súl berst sprya,
sem brádast kann, sig byrgir hann
í blæum svartra skýa.
11. En þú sem létst á loptid flest
lýsigullin þræda:

gef' min ljód ei grimubjód
gjøri' i felur hræda!
12. Þvi mána hér sist meguin vér
missa ljósid bleika;
myrkra fót opt meidir fót
manna, þá er reika.
13. Segja menn ad þjódin þrenn
þurfi seint ad flakka:
bidill rjódur, ritnals=bjódur
og (riddari[1] Hagbards (blakka).
14. Adra veit eg einnig sveit
er opt réd sidla spauga:
reki sýslu, reidir hrislu
og raudeygt kynid drauga.
15. Ljósin gód þarf þessi þjód,
þvi hún er opt á ferdum
myrkrum i; þeim mána því
miskunar bidja verdum.
16. En. Odinn minn! fyrir almátt þinn
ord min gjørdu snida
til æru þér og yndis mér
og øllum þeim er hlýda.

---

17. Sagan beid vid ljódin leid
læst í orda gardi
þar fleina skrøggur høgg í høgg
hardt á dyrnar bardi.

---

[1]) Þjófur. Hagbards blakkur eda hans hestur = gálgi. Gálga riddari = þjófur.

18. Greiddi upp trínid glugga svín
greidt ad hnefa bragdi;
sverdarunn tók sinn í munn
og saman aptur lagdi.

19. Baud ólinur brúdar vin
beitir hjálma skésu,
med skjøld og sax hann skyldi strax
skunda' í oddamessu.

20. Fjandmenn því med fleina gný
fóru á ríkid strída
stirjøld vøktu hølda' hrøktu
hrøkk fólk undan vída.

21. Af því baud ad aptrist naud
adal: hershøfdíngi,
ad ørt sem kann sá úngi mann
álma fari' ad þíngi.

22. Engin bid frá eggja klid
af því veitast mátti
utan dvalar darra: kjalar
dans í Hildar átti.

23. Ungum þegni argari fregn
enginn kunni bera,
en þreitu jag[1] á þenna dag,
þó svo mátti vera.

---

[1]) strid, þveita er ori.

24. Því sá er vandi stríds vid stand
nær stýrir skipar lýda:
ad allir verda álfar sverda
ordalaust ad hlýda.

25. Annars týna æru sín
aud og þarmed fjøri;
Hildar løg svo hørd eru mjøg
vid hvørn sem móti gjørir.

26. Rád vóru dýr fyrir randa=tír
rauna hófst hér messa,
byrja ei má med bauga gná
brúdkaups hátíd þessa.

27. Allur manns er æfidans
einhvørjum blandinn kala
og gledi øll hefir optast gøll
og eitur í sínum hala.

28. En hvad á nú sá hugsar á frú
høfdíngja lýds ad svara?
hrød mun segja hrínga ey:
„hvørgi skal hann fara".

29. Pad er synd kvedur silki lind
og síst ad mínum vilja
ef ekta parid únga þar
á svo búid skilja.

30. Víkja má þad undan á
ekki' er þad svo lengi;

brúdkaups víst svo bergja fyrst
bods med glødu mengi.

31. Fæ eg ørt ei ad því gjørt
þó ekta dvelji fundum;
margt því fer, en ætlad er,
ýdruvís á stundum.

32. Rekkar hér ei reidist mér,
né raudleit seljan prjóna
ad ei þau bid í brúdkaupid
blídt ad koma hjóna.

33. Því randastafur rédi af
rós ad kvedja tvinna,
og unda nadi ørt í stad
í æda vøkum brynna.

34. Mjøg var stór fyrir málma þór
munur á tvennu þessu;
ad fadma blída baudahlíd
og barda harda skéssu [1].

35. En madur sá, sér úngum á
árum hreysti temur,
lukkan hál hans herdir sál
til heipta ørfar fremur.

36. Dád hvar snjøll í hugar høll
og hreysti manndóms gistir,

[1]) Vopn, bardi er hjálmur,

hvad sem sjer helst ørdugt er
yfirvinna listir.

37. Stranma snari móðugur mar
móti spor nam rekja,
ekki lætur øfluga sætur
vid idukastid hrekja.

38. Þá streingjaljón um støkkulsfrón
stormurinn mædir argi,
móti snýr med hót óhir
húsa grimmum vargi.

39. Lomb í fridi lætur og kid
ljónid hreystisnjalla,
þá eikin hørd má uppúr jørd
afli risin falla.

40. Dád sá ber í brjósti sér
brøgd ei lukku metur
einsog klettur áls vid skvettur
aldrei bifast gétur.

41. Meir ei vil eg tína til
því tródum leidist kéra,
og allt eg hata orda prat;
eins munu fleiri géra.

42. Þar regins skeid af réttri leid
frá rædu; midi hrakti,
hvar óþekk fregn um eggja regn
ángur í brjósti vakti.

43. Frægur bjóst í fleina gjóst
fleygir elfu rødla;
sinn tauma sel, er tugdi mél,
taka lét 'og sødla.
44. Fødur og módur málma rjódur
mjúkum ordum kvedur;
en kraga gná fékk kossa þrjá
klappi og blídu medur.
45. Audargátt í aungvit brátt
útaf falla nádi,
heitt því brann í hugar rann
hyllis eldurinn brádi.
46. Freyan klúta frídan út
fadm á gólfid breiddi;
fylltist brjóst af þúngum þjóst'
þrøm á daudans leiddi.
47. Audarbrík þar lá sem lík
ljósin myrkvast brúna;
ørt vard føl vid fengid bøl
fosnis rósin túna.
48. Eptir lidna eyktar bid
aungvit dapurt hætti;
hvarma: fljót á frægri snót
sølar kinnur vætti.
49. Eunis ljós hjá linda rós
lýstu dapurt næsta;

þó ennþá sá sér sitja hjá
sinn hjartvininn kærsta.

50. Mælt svo sékk vid frídan rekk
foldin silkivefa:
„ætlar þú, mín elskan! nú
„yfir = mig ad = géfa?"

51. „Alla bíd eg af því tíd
„ángrid þúsundfalda
„er dvínar þá nær daud eg má
„detta í foldu kalda",

52. „Þetta brjóst, er þú sér ljóst,
„þíngum bærast kvída,
„skipar þér, sem skyldugt er,
„ad skulir þú hjá mér bída".

53. „Ef þú villt mitt ángur stillt
„eydir kaskur hjørsa!
„um daga þrjá mer dveldu hjá
„og dætur sjórar Njørsa".

54. Lagdi frjálsa hønd um háls
hirdi freyu gráta
og mælti senn: „æ! ætlardu' enn
ei eptir mér þad láta?"

55. Almabør þau aptur svør
eyu banda tédi:
„líf mitt hér og æra er
„øll í stærsta vedi".

56. „Ef skjótt ei fer, hvørt skipad er mér
„í skúrir heitar sverda
„mín æra' og fjør á Flosa knør
„feig munu stíga verda".

57. „Línspaung hjá eg látinn ei má
„lengi ástar kénna,
„og ærulaus jeg aldrei kaus
„ydur fadmi spenna".

58. „Vil eg ótraudur vopna naud
„vekja fjendum slæma;
minn skal Eramur málmum tamur
„mønnum ørløg dæma".

59. „Eg þig kved, því embætted
„øllu fremur stunda;
„ydar til jeg aptur vil
„ad endtu strídi skunda".

60. Hríngavør, þá heyrdi svør,
hreppti ángrid døkka;
aungvit beid og útaf leid;
alla setti kløkka.

61. Flúdi blód og fegurd rjód,
føinadi kinna blómi,
hvørgi má sig hrærdan fá
hvarma dapur ljómi.

62. Føst vid góm, sú fyrri róm
flutti mjúkan, túnga

frosin stód, ei heyrdust hljód
né harmakveinid þúnga.
63. Líkams hér ei lækirner
lengur runnid gátu,
purpuri vara veik burt snar
á vaungum raunir sátu.
64. Afllaus þá hvørr limur lá
lagdur køldum svita,
lífsmark þar ei þekkja var
hjá þøllu Ida bita[1].
65. Petta sér nú sverda grér
sárum stúnginn þjósti,
kaldan ná réd kyssa þá
og kløkku þrýsti' ad brjósti.
66. En ei gat lengur dygda drengur
drósar stadist pínu,
úr hennar barmi bundinn harmi
brautst mót vilja sínum.
67. Engann kvaddi úlf sá saddt
ord á vørum deya,
á skeifu héra sínum sér
í sødulinn upp réd fleigja.
68. Tagla skip réd taka svip
taums vid festar leystar

[1]) Gull.

áfram fýkur, foldin rýkur,
flugu undan neistar.

69. Hvørr sem hér vill medur mér
málma fylgja þundi,
best sem kann má hlaupa hann
og hrotta stefna' ad fundi.

70. En fljódin spøk, er fengu' ei tøk
á fóta vøkru sparki,
bídi heima búss ad geyma
bægd frá ferda starki.

81. Virdst hefir mér — þad vídar ei fer —
vera edlid svanna
frá' upphafi spennt á adra ment
en okkar kárlmannanna.

72. Málverk því eg æsku í
eittsinn líta mundi
er øldin kvad — jeg enn man þad —
Amrams gjørt af þundi.

73. Á málverk þetta þá var sett
þrekin mannsmynd næsta
sem nakin lá, en byrgdi brá
brúna ljómann glæsta.

74. Hann hvíldi sætt, hann høfdu' ei mætt
heimsins vélin þúngu
því svaf og hló vid dilli dó
er dýr og fuglar súngu

75. Af vinstri hlið — mér hnikkti við —
hans réð maður spretta
fagur, en smár með furðu hár
og fríðleiks ásýnd netta.
76. Spurði' eg snart, sem úngra' er art,
áðuren lygum mæta,
hvað þetta sé? mér svar í té
sitt lét fóstran mæta.
77. Því kurt var búin kjæran sú,
og konst í vitsku brunni,
fróðleiks ljóð með fögur hljóð
mér flutti' hún títt af munni.
78. Í fræðum, bögum, sálmum sögum,
sett ei varð í þaula;
alla daga eikin fraga,
eitthvað var að raula.
79. Sagði' hún mér: „Það Eva er,
„allra móðir tjáða,
„þá Adam svaf, er Guð honum gaf
„til gamans, styrks og ráða".
80. „Rifið eitt úr vomnum veitt
„vísir fékk hinn æðsti
„—því ekki' af jörð var Eva gjörð —
„aptur holdi læsti".
81. Eyðu klók öll orð eg tók
upp í þaunkum rissa

og kvad vid sljóð: mín fóstra góð,
fer mig nú ad syfja.

82. Nidur í bed eg búast réð,
blund ef mætti' eg fánga,
eins og sá eg Adam lá
med adra hönd vid vánga.

83. Rúmi á eg leingi lá
litils svefns þó kéndi,
því eg var ad þreifa úngum hreifa
undir vinstri hendi.

84. Áhyggjan og ágirnd vann
ætíd værdir hrædast;
jeg ól í sinni einhvør kynni
Eva' af mér ad fædast.

85. Preidi eg stilltur þaunkum fylltur
og þukladi' um sídu slétta,
hugsadi' eg á, ad þá og þá,
þar mundi' eitthvad spretta.

86. Eptir legu lánga jeg
loks fann eitthvad sprikla
vinstramegin — vard eg feiginn —
von nú fékk eg mikla.

87. Sagdi' eg: mín, æ! fóstran sín!
findu mig sem skjótast!
skodadu hér hún Eva er
innanum mig ad brjótast.

88. Hreifdi ord þau hniklaskord
og hægt á mér réd fitla:
„Þad sem ber í brjósti þér
„er blessad hjartad litla".
89. „Heimska er, ef hyggur af þér
„svo hríngþøll muni spretta,
„því eptir forna Adam vorn
„engum veittist þetta".
90. „Lestu á bókum letrin klók
„og lærdu dáltid meira;
„láttu neinn minn ljúfi sveinn
„líkt af munni heyra!"
91. Eg því hét, og engann lét
ord af þessu vita
fyrr en nú eg falda brú
og fleigi stáls þad rita.
92. Søguna þá, eg segi frá
sist vil eg hæda láta;
skømm mér því finst engin í
úngdóms bernsku' ad játa.
93. Veit eg skír ei vopna týr
veitir mér ákjærn;
en prédikad var, ad píkurnar
vid piltana spélnar væru.
94. Ydur eg bid, já! feiginn, um frid
freyur blossa módu!

Þó vil eg eitt fá andsvar greitt
með yðar leyfi góðu!

95. Að árin fá eg átti þá
afsøkun mun verða,
því vísdóms fræði' og úngdóms æði
eru trautt samferða.

96. Er það bót að árin fljót
auka skilníng manni;
því aðra trú hefi' eg alla nú,
en áður í fóstru ranni.

97. Má ei lasta mikið fast
meinsøm bríkin veiga
að eg vildi hríngs mér hildi
hnokki lítill eiga.

98. Náttúran ei kirkjast kann,
í korni minnsta tórir,
og neistinn smái eðlið á
eins og blossinn stóri.

99. Hønd í varman varpi barm
vingjørn kvenna øldin!
og skírið mér hvað skrifað er
á skýlaus þánka spjøldin.

100. Efað svein, fyrir utan mein,
úngan, vaxinn, fríðan,
kyuni fá við, fleri á
að fánga dúr einn blíðan.

101. Mundi' ei feigin menja ey
móti honum taka?
stara', og flissa, klappa' og kyssa,
kreysta', í fadmi baka?
102. En þad var ei þad, jeg ætladi' ad
ydur kunnugt géra;
á edli skjóds og odda rjóds
eg kvad mismun vera.
103. Eg í fáum ordum þá
allan mismun kénni;
vera sem skyttstur stór er list
stæri eg mig af henni.
104. Enginn halur um æfi skal
ad þad finna bøgu
ad hún sé full med bannad bull
og barn jeg gjøri í søgu.
105. Er minn sidur efnid vid
ætíd mér ad halda
því vitsku ment mér litla lént
Lofdúng hefir alda.
106. Sig beitsla hjørtur alinn ørt
undir høfud setur
støkkur hátt, sér úti átt
alla brugdid gétur.
107. En reidings geitin røg, ófeit
er reyndi gjøf ei neina

mædin, horud hendir spor
og hrøklast gøtu beina.

108. Eg á ný var næstum því
núna búinn ad gleyma
mun þeim hjá er hrínga ná
og hirdi nefndi' eg seima.

109. Krapta' og móð gaf mækja rjóð
Milding sólar tjalda
vænleik, spekt og vidmót þekt
veitt er liljum falda.

110. Er af leiri laufa freyr
og ledju jardar saminn;
en upp af manni Efa rann
ædstu kostum framin.

111. Af betra' eg skil, sé búin til
bauga, efni, gérdur,
sem Fenju meldur opt vid eld
ætíd skírri verdur.

112. Af Adams hjarta ætla' eg part
Evu gamla vera,
yndid manns og hjartad hans,
hríngsól nafn mun bera.

113. Neyta brauds skal eydir auds
í andlits súrum døggum
þá fofnis láturs lofnin kát
leikandi ruggar vøggum.

114. Erfidi hørd um auma jørd
Alfadir gaf oss vitur
medan þýdust hringa hlíd
í hlýum rúmum situr.
115. Eymdin hljód í okkar lód
frá upphafi gjørdi falla
en gledi og fridur fylgir ydur
freyur linna valla.
116. En Herrann sá er líkn nam ljá
í leidu manns andstreymi
konu og mann því kjósa vann
ad klifjast saman í heimi.
117. Tenór þann því Fylkir fann
folda mildur tjalda
í heimi' ad bætt sé súrt og sætt
saman um aldir alda.
118. Meiri kénni' eg mismun enn
er man eg ei frambera,
því ad eg á allan veg
ordfár stunda' ad vera.
119. Og á medan minnast réd
á mína úngdóms stundan
herrann þar á hestinum var
hann komst lángt á undan.
120. Einsog þegar um þurran veg
sér þirlar hvirfilvindur

festa má ei auga á
nema øsku, rik og sindur.
121. Viltur, brádur, vidur lád
vart, svo sjáist, kémur,
af einni ædir hæd á hæd,
hvørgi stadar nemur.
122. Svo má kaskan sverda ask
sjá í lopti þeyta
æda fram á gjarda gamm
gotum bräd ad veita.
123. Af fóta róti rauk upp grjót
sem regn úr þrumu skýi
þad sem møkkur því stód døkkur
af þykku sumar mýi.
124. Fjødur straums af fálka toums
flaut á hlidar bádar
þá sødla bátur lóns um látur
leidir geysti brádar.
125. Um fákinn móda froda stód
fimir hófar dundu;
støkk yfir klúngur og steina=lúngur
stedjadi vøtn sem grundu.
126. Létti' ei reid fyrr líta beid
laufa snotur vidur
hvar landid stód af løndúngs glód
logandi' upp og nidur.

127. Búid var lid í branda klid
blóds í strauma þyrsti;
hvørr mót ødrum unda nødrum
íta bendti' og hristi.
128. Hrotta dans vill lýdur lands
ad lúdurgali kanna,
drepa' og slá og hrekja' og hrjá
hersveit óvinanna.
129. Hjálma bláa blikar á
báta rødlar skína
hildar dúkar hylja búk
hrottar klædum tína.
130. Af hvarma eldi hauss und feldi
heiptar blossar glampa
saung vid eggja hestar hneggja
og harda jørdu trampa.
131. Kúlu trøll þar keyrdu snjøll
á kopar raudan gljádi
hrylliligum hvørt um sig
heljar eplum sádi.
132. Reidir þjód upp røgnis glód,
rámir málmar drynja,
mímis frú af mædi nú
mjøg nam undir stynja
133. Skreid úr húsum føgrum fús
feigra snígill eggja

þá hjørs í gaman síga saman
sveitir tóku beggja
134. Líkast því nær þrumu ský
þúngud eldi og skúrum
áttum frá er ýmsum gá
und ógnar dimmum múrum.
135. Draga beint en seint og seint
frá Sudra' og Nordra veldi
himin þekja hrædslu vekja
og hrønnum gjósa eldi.
136. Med ógnum færast nær og nær
nú og endrum rigna;
rødla:heim af þúnga þeim
má þykja nidur svigna.
137. Møgnud ský uns midju í
mætast lopti dimmu'
saman skélla skruggur bella
skotin leiptra grimmu.
138. Elds med løg þar sløg í sløg
slást í reidar ædi,
lopt og jørd og landa gjørd
leika á veikum þrædi.
139. Eins var ad sjá þar øld ósmá
odda mót réd kanna,
og þundar blisin þutu' á mis
med þrumum fallstykkjanna.

140. Margra sett mun lífid létt
á lipra heljar reidslu;
hlakkar ørn og ylgjar børn
til ókominnar veitslu.

141. En virdum rótt ei verdur í nótt
vals í djúpum straumum
og andargéfni ei fær svefn
fyrir apturgaungu draumum.

142. Því skal bída stirjøld stríd,
til stendur lýdur á fætur;
á enda ljódin eru mód;
óska' eg: gódar nætur!

---

## Þridja Ríma.

1. Í þridja sinni Hárs eg hleypi hrafni
dygga [1]
út um minnis arkar glugga [2];
ef aptur kémur, hann mun oss hugga.

2. Árum vængja varpadu' ódt í veginn gamma [3]
fyrst þar skaltu ferdir stemma
hvar fjallhá stendur Suttúngs skémma [4]

3. Réttu' inn háls um ratagaung [5] og reyndu' ad smjúga;
þrjá þar góda taktu teiga
af tunnunni sem best er veiga.

---

1) huganum. 2) brjóstsins. 3) loftid. 4) hús hvar Suttúngs mjedurinn var geymdur. 5) hola sem borud var gegnum skemmubergid innad mjødnum.

4. Med belginn fulla fljúg til mín þér forda hættu;
um tappann ekki leka láttu
lagheldt ílát vera máttu.
5. En ydur bid jeg, elsku fadir Ása, Braga![1]
lát þinn hrafn í fridi fljúga
ferd hans gjørdu happa drjúga,
6. Því annars hendir hann eins og krumma Arkar sama,
í áttum sjø þeir eru heima
í áttundu' þó vestu sveyma..
7. Aldrei hefir ad mér komid eins stór vandi
ógnarlegt er hér fyrir hendi
hjalma óp[2] af benja vendi.
8. Fyrri aldar frægust skáldin frosta lýda
ódaudlegri æru nádu
er orrustur stærstar laungum hádu.
9. Um rímu hvørja rødull tindradi røgnis stofu[3]
í raudum daladi darra høfum[4]
og dró upp aptur í sára kofum.[5]
10. Vil eg ei þeim vøldu skáldum verda minni,
menn og kvinnur mér skulu unna
því mesta styrjøld fæ eg spunna.
11. Af hvørjum fundi hrós bar ljóst ad hølda dómi,
sá er bædi gagn og gaman
gat í einu blandid saman.
12. En jeg megna ekki neins af egin mætti,
Valfadir[6] mér virdstu rétta
volnudum hønd ad takist þetta!
13. Láttu verda' ad liki þjódum ljóma skeidar[7]

---

[1]) Odins heiti. [2]) stríd. [3]) sverd. [4]) blódi. [5]) hvørja rímu byrjadi og endti. [6]) Odinn. [7]) skáldskapur.

svo óguarlegar eggjahrídar
er aldrei spurdust fyrr né sídar.

14. Veittu horskum hetjumaka' er heitir Bendtir
— minnisleysid mig hefir gantad
meina' eg nafn hans fyrr hafi vantad. —

15. Veittu honum twennum tólf en tídast þrennum
í høggi' ad steypa hels ad inni
svo hann ei Ulfari verdi minni.

16. Bjód þú hærstu bergrisum á brøttum kletti
ad vada blódid volgt í mitti
valla sumir botninn hitti.

17. Hausar búkum hrøkkvi af med hjálma sópum [1]
dreyrinn fossi' úr feigum strjúpum
en fljóti kroppar blóds í djúpum.

18. Køstur stór af kaudum feldur í kisi þúngu
yfir skýin efstu gángi
axlir Nordra hvíldir fángi [2].

19. Itar berjist alla daga' og útá nætur,
þá skal enginn álms af brjótum
uppi standa lífs á fótum.

20. Þad legg eg á og þad eg mæli: þraùtir hardni
aptur gángi øld ad morgni,
svo aldrei dreyra flódid þorni.

21. Verda' ad skrímslum virdar skulu' ad vana fornum
ad ljónum, drekum, ormum, ørnum,
úlfum, tíkum, kéttum, bjørnum.

22. Hvørki sjáist sól né lopt í sverda jeli,
brottar vakni' ad hjálma gali
høldum víst í Niflheim' fali.

---

[1]) sverdum. [2]) verdi ad dverg undir himninum.

23. Hingad øllum heims úr áttum hrafnar vargar
til mædra flykkist sárra sorga [1]
og svaladrykks er ei má torga [2].

24. Ordum hérum ekki fleirum eg skal verja;
þvi óskøp mestu allir spyrja
þá orrustan hefst og sagan byrjar.

25. Øld, ef skálda ýkjur sæ eg ekki sparad,
mælir, þegar mitt sér kverid:
„mikid skáld hefir þetta verid!"

26. En aptur er kominn krummi Blinds [3] og krúnkar
á glugga;
flytja mun hann i fidurbagga
fólki skálir sónar dagga.

27. Mun eg þvi láta mansaung þennan mikla nægja;
frá hildarbísnum hradt eg segi,
i hamingju nafni allir þegi!

---

28. Ef rétt minnir ætla' eg slitnadi ønnur ríman
þar fylkíngarnar sigu saman
og sverda byrjast átti gaman.

29. En nú komid allt mun sídan i eina bendu
hærst á jelid hrotta standa
og hér skal byrjast efnid vanda.

30. Allir børdust ýmsir verjast ýmsir sækja;
einsog reidsla lipur leiki
litst mér beggja sigurinn reyki.

31. Lauk um sidir laungum hørku laufa þætti

[1]) mords. [2]) blódsúthellingar. [3]) hugur.

— því Bendtír hardt ad høldum sótti —
í her óvina brestur flótti.

32. Flestir hnign' en flúdu þeir er flýa máttu.
Bendtír vann, svo bardaga hætti,
bestur sigur landsfólk kætti.

33. En þér sem vonnduð vidris eptir vedri hvøssu
og fórud ad hlýda fleina messu
forláts bid eg ydur á þessu.

34. Ad flutta hana fæ eg ei lengur fram ad sinni,
og fátt eg rædd' um mordid manna
því mér Alfadir réd þad banna.

35. Kvad hann: „þig ei kann eg innleida í
kórinn skálda,
„þú bædi ert of úngur ad aldri
„og allan sundlar í hjørfa galdri".

36. „Vestar ýkjur voru upphaf vísu þinnar
„af óviti einu spunnar
„því ei þú gættir náttúrunnar".

37. „Allt þad skrum ei nemur nærri nokkru lagi
„er heimska tóm og annad eigi,
„ordin hlutinn rétt fram segi".

38. „Apturgaungur ekkert gaman er ad heyra
„skrýmsli' í mál er skømm ad færa
„og skilning manna þarmed æra".

39. „En hvørsu tídum hefir þú séda hildar-leika

„brynjur klofnar, menn með marki
„móður blóðs og strjúpa læki?"
40. „Ekki margur ykkar lands þá æru hreppti
„að sjá mína dýrð, því siðaskipti
„úr seggjum hug og manndóm kippti".
41. „Til viðrissókna valinn fyrr og vígður brandur
„er með dómi' í útlegð sendur
„annað dont sér temja hendur".
42. „Ur skálmøld frægri skrafsøld er og skrifsøld orðin
„skøtnum bíta skvaldurs sverðin
„skeinusøm er þeirra ferðin".
43. „Mannlastsskeytin mest nú fljúga' og meingi særa
„þaraf flestøll eitruð eru
„illa þeirra skeinur gréru".
44. „Bardaga heya bragnar nú á bjørtum velli
„prýði' og snild þar prófa alla;
„en pappírs ørk má valinn kalla".
45. „Hvar rauðir áður runnu' um foldu rimmu lækir
„— dausa kveð eg darra speki —
„drýpur svørtum korg af bleki".
46. „Lausinn fagri leikur ei meir í lofða høndum
„með skónálum þeir skéra' útlendum
„skúfa', og brúka hrafns úr endum".
47. „Þó tekst ykkur (það má eg segja er þrekin æra!)

„einstøku líf úr manni ad merja
„úr mjødmum dársta kládann berja".
48. „Einn þó eg mismun aldar fann er ei sæ dulid
„vid æru landa ykkar skiljid
„med ærulausum lifa viljid!
49. „Þjód hefir svo mjøg þokad aptur ad þad er ángur,
„pennafríd og styrjøld gengur
„stundast hreysti forn ei lengur".
50. „Vil eg ei ad virdum daudum vángurs-krapa
„flutt sé dýr á Frosta skipi
„fregn af bæsíngs hørdum svipi".
51. Þessa' ordsendíng þundur gjørdi þegi holla;
dæma bid jeg um hana alla
en álaslausan mig eg kalla.
52. Søgunni vík eg aptur ad hvar ádur hætti,
Bendtir starfi laufa létti
land í fridar-stilli setti.
53. Til herbúdanna høldar nú sem hradast skunda,
hvíld ad taka, benjar binda,
blód af høndum þvo og vinda.
54. Á því tók þó okkar hetja engan vara
lángt hann annad lysti géra
en lauga sig og neglur skéra.
55. Hann settist nidur sér í hendur svo tók penna,

kæru ad skrifa sedil sinni
sem honum aldrei gékk af minni.

56. Sedilinn rita ord fyrir ord nú eg vil reyna,
þad kýs bryggjan baugs eg vona,
bréfid hljódar þá til svona:

57. „Ástkærasta allra besta
elskan mín og dygda = kér!
nú í hasti má eg mesta
módur línu rita þér.

58. Þó tal ei renna' af munni megi
mínum sendt frá velli kifs,
þér samt penni þessi segi
þinn er Bendtír enn lífs.

59. Þó má eg ei um yndi spjalla
elskan kvída jafnan ber,
utan freyu ofnisfjalla
ítri lídi betur en mér.

60. Edla frú! mér brands í beyglum
— blídri kved eg vitrun frá —
sveymadir þú fyrir sjónar speiglum
sanna gledi fann eg þá.

61. En mig svefn mest endurnærir
— ádur vard mér nótt ein teit —
med trafs þá géfni tal eg færi
og tíd ei spari fadmløg heit.

62. Brynju eldi beitti' eg raudum

bardaga snéri féndur á;
dulin eg held þú hafir í naudum
hjálpad mér ad sigra þá.

63. Æg nam rekka vonda vinna
vorar kanna sveitir frid,
en sjálfur ekki frid má finna;
hid forna sannast máltækid:

64. Sá til brúda sinnid bindur
sig til strída jafnódt bjó,
hers og búdir hefir blindur
um heimin vída Cúpídó.

65. Allt mitt gjørir yndi kreinkja
auka mein og sára pín,
gledin er um þig ad þenkja
þú ert eina hugsan mín.

66. Þó Alvaldur þrautir streyma
þúngar láti vin þinn á
þér skal eg aldrei aldrei gleyma
uns mig mátar helid blá.

67. Þó holdi grandi Høggvards lýdur
nær haudur geymir følan mig
minn mun andi ástar blídur
ætíd sveyma kríngum þig

68. Minn er taptur karsi kinna
kvíslir lagá brúnum frá

til þig aptur eg má finna
eptir daga tvo eda þrjá.
69. Senn mun okkar sælu stundin
sólar palla renna á;
vid þína lokka' ad liggja bundinn
ljúft eg kalla frelsi má.
70. Mér eru tímar lengur ei léntir
leturs klóri hætta fer;
af ástarlíma ann þér Bendtír
uns eg tóri' á jørdu hér".
71. Svo er bréfid sem hann skrifadi seima línu;
Bendtírs riti handar hreinu
hefi' eg ei viljad breyta' í neinu.
72. Læsti bréfi lét þó utanum ljósa kápu
og skrifadi fødur freyu staupa,
forsjált gjørt þad allir raupa.
73. Sendimanni sídan fékk og sagdi' „hann skyldi
þrumu fljótar fara eldi
og færa svar ad næsta kveldi".
74. Póstur lætur ótæpt øsla økla duggur;
þess er getid ad leid hans liggur
hvar lilju gulls bjó frændi dyggur.
75. Innti honum eyrindi sínu allt af létta,
kvadst fyrir Bendtír bera ætti
bréf og hvergi standa mætti.
76. Ansadi blídur brúdarfrændi brodda þundi:

„Þér skal eg greida bestum benda
„med bréfid mann á hesti senda".

77\. Sendimadur þádi þad og þakka nádi,
bréfid af hendi ljúfur lédi;
líkadi hinum; nú! hvad skédi?

78\. Sá hinn nýi sendimadur, ad sagan kénnir,
kærustu Bendtírs fødur finnur
fær honum bréfid; kvedju vinnur.

79\. Sá gamli bréfid breiddi upp fyrir brúna sunnu
gladur rakti gøtur penna
og gjørdi lesa sermón þenna:

80\. „Mig grunar þú munir géds í sal
geyma seima línan mjó!
ad Bendtír menta horskan hal
úr húsi ófúsan þínu dró.

81\. Rekkur gékk í røgnishríd
randir brandi hvøssum skar,
steypti heiptar leidum lýd
er landi granda búinn var.

82\. Sem ljón um frónid lømbin vid
leikur veik af grimdar móð
bist þá misti kærast kid
er kúgadi drjúgast spena flód.

83\. J brædi ædir áfram mest
ekki þekkja kvida vann,

þrýfur rífur fellir flest
fleygir, eigi stødvast kann.
84. Undan skundar allt er má,
ótti flótta vængi lér,
képpist sleppa fári frá
í felur stelur undan sér.
85. Þannig fanna fræníngs ver
fór um kórinn rauda vals
fram, og gammi besta ber
bráð, að ráði glumrufals.
86. Aptur raptur auðs og fram
um allan snjallur herinn rann
málm og hjálma meiða nam
móðum blóðs þar steypa vann.
87. Hausar lausir herðum frá
hrundu' á grundu væli með;
féndur rendu flótta á
en frækinn sækja eptir réð.
88. Sem geitur beitir geirs þá rak
gætti' ei hættu sinnar par,
að okkar flokkur, álms við skak
hið arga, hvargi nærri var.
89. Snéru þverir aptur ørt
þá einan fleina litu þund,
hríng í kríngum hann fá gjørt,
herða sverða nýan fund.

90. Bardist, vardist, beitti rønd
brjótur klóta kænn vid Þrá
einginn lengi á hønum hønd
íta nýtur festa má.

91. En mørgum tjørgu=meidir ei kann
móti spjóta standa' í klid
af Mædi fædir varga vann
í val ósvalan falla nid.

92. Ørt á hjørtinn fallin flýgur
fræga, sægur hunda megn,
bítur, slítur blód hans sýgur
brjóstid ljóstar tønnum gégn.

93. Eins til meins var øldin fljót
Þá eygdi beygdan foldar til
Bendtír senda skeytin skjót,
skjædum æda hleyptu Nil.

94. Eg ótregur Tírs í hret
til í bili sama kom
og vægdar rægdan laufa lét
leggja' á seggi-fjør=ráns dóm.

95. Raudinn dauda hræddur hver
vid høgg mín snøgg tók fót í mund
flúdi lúdur fordadi sér,
fleygdi deygdum hjør á grund.

96. Um sídir frídan hreysti hal
hitti' eg mitt í vigra bed,

flatur sat, svo flutti tal
sølur kvølum stærstu med.
97. „Ydur bid eg." Bendtír kvad:
„bænar, rænu skeid er stytt,
„snaudur daudinn snýr mér ad
„snart mun hjartad bresta mitt".
98. „Blídri hlída bráins líu
„er best og mest í heimi' eg ann,
„færid kæra kvedju mín
„og kénnid henni bodskap þann:
99. „Ad prúdrar brúdar eldheit ást
„ørvadi hjørva mig í rót
„med æru bæra odd eg sást,
„med æru hlær eg dauda' á mót.
100. „Víf med lífi audnast aptur
„aldrei baldri hrínga sjá".
Líkams ríki rénadi kraptur
rólegur dó svo Bendtír þá.
101. Baga saga' er búin hér
berid herra þolgott sinn!
kved eg, medur óskum er
ydar fridar þjón og vin.
102. Harma fregnin húsid fyllti hryggd úr máta,
því eg sleppi; med sér meta
má þad hvørr og nærri géta.
103. Þar á móti skíra skal frá skrifi nýu

er gjørdi frændi brúdar búa
og Bendtírs átti gledi ad snúa.
104. Sendimanni Bendtírs baud þad bera skyldi
og færa kátum fjølni skjalda,
frá frúnni kvadst hann bréf þad halda.
105. Bréfid kæti blídri fyllti Bendtírs lundu,
æ! þú veitst ei ullur branda
innihaldid er þar mun standa.
106. Rósin svo vid røduls hlýast rís á morgna
ugglaus breidir út sinn hjarna
ekki veit nær biljir hardna.
107. Ellegar stálid ódast dengda ad henni rídur
í sama bragdi sundur sneidir
sóma, prakt og lífi eydir.
108. Kipti' af gledi krákustíginn krumma fjadra
las svo brádur býtir sjóda
bréf er þannveg gjørdi hljóda:
109. „Gøfugi herra! er gjørid bláan geir
ad spenna!
ydur bera fréttir fáar setin penna.
110. Sídan skildum sorga hér hefir sinni kvalid
helst vér vildum hefdud þér enn hjá oss
dvalid.
111. Þá hefdi' eigi hrygdin þúnga hús mitt
sleigid
og tára Freyu foldin únga føl nú legid.

112. Ekki reykur eldi heitum eins er náinn,
sem hraustur og veikur, hryggur teit-
ur, heill og dáinn.
113. Einka dóttur upprennandi' í æsku vori
daudinn sókti dró ad landi døpru spori.
114. Ydar bráda burtfør olli bøli kalda.
því orma láda unni þolli eikin spjalda.
115. Gløggt hún kvad: „þú grimmi Bend-
tír geirs í ædi
„lékst mér þad ad lifid endt er laust
á þrædi".
116. þín mig ástin ør réd fánga yndi rænti
„en þú brást mér eydir spánga, ei
þess vænti".
117. „Meiri ordum mun eg ei spilla málma
yggur!
„hríngaskordin, harms af kvilla' i haud-
ri liggur.
118. Sorg mun eg strínga í sinni bera er
síst má ýta
mér er ángur aptur herra! ydar ad líta.
119. Nú eg endi; óst þá hradur eg skal kvaka
ydur sendi annarstadar audnan maka!
120. Lifid hress med lukku bjarta laufa hlinur
óskar þess af øllu hjarta ydar vinur".
121. Angur Bendtírs út ad mála ei mig lystir

sá ei tinnu ber í brjósti
best þeim nærri gétur þjósti.

122. Ei vil eg heldur endurminnast audar línu
sinna verdur hún minnug meina
og máské lækníng hreppi seina.

123. Þeir eru hlutir hér í þessu hródrar safni
er sjálfkrafa ei eg nefni
utan menn fyrir rétt mér stefni.

124. Greylega hafda'g gáfum varid golnis staupa,
af sorg ef særi allir ad æpa,
svo undir bustar tæki kæpa.

125. Angurs sálda illgresi í yndisranna
varast skal, því lítst mér linni
ljód ógløð í þetta sinni.

126. Vakurs[1] krumma verpa lengur veikum leidist
endan vid þad ordtak þrædist:
„úr eggi hrafns ei dúfa fædist".

127. Unda kélda Kvásis hrelda kaun ei blæda,
eikur skjalda ægis glóda
allar haldi nú til góda.

---

[1]) Vakur = Odinn.

# Fjórda Ríma.

1. Vaknid þid sveinar! vaknid þid fljód!
varpid þid þúngum røkkur mód!
skémtun bjóda skollvalds kér[1]
er skúmandi standa' á bordi hér.
2. Þjódin hír sem hefir lyst
horna sái varir kyst;
høfudveikum óhætt er
þó ótæpt taki dropan sér.
3. Því Odins varid øli mun
sem ødru í þessari frihøndlun,
ad opt er vatni ausid til
og ødru sem eg ei nefna vil.
4. Þeir herma' ad slíkt sé heilsu bót
og hérmed gylla brøgdin ljót
þad ad dæma' er meinad mér
mønnunum ádur stefnast ber.
5. Annad mál eg virda vil
og virdum þar á gjøra skil;
grundi bid eg þjódin því
þad er hugvekja spandur ný.
6. Um mín þenkid þessi ord:
þér erud settir nú vid bord
med Odni' og Þór í Asaheim'
og eigid ad súpa vín med þeim.
7. Æran sú er ekki ring
med Odni' ad drekka tvimenning,

[1]) Odins heiti.

í kvøld ad hafa skála skøll
í skínandi Ása konúngs høll.
8. Gledi' er þar og glaumur hár
gylltur á bordi stendur sár;
føgur kér af sofnisbýng
fara' í hringbrot þar um kríng.
9. Kátleg brúka høfrúngs hlaup
hoppa' 'og lædast þessi staup,
øll' því vilja' í einu ná
ofaní þenna góda sá.
10. Því þau vita — þau eru skír —
ad þar er sopinn geymdur hír
sem Baldurs þerrar af brúnum grát [1]
um bjarnarheima skitu mát [2]
11. Þegar sig hafa feingid fyllt
fara þau einsog brúda stillt
aptur og hitta hæversk þann
hampa þeim sem ádur vann.
12. Hjá budlúng Ása ber þad til
— búskap hans eg ei lasta vil —
en brotinn pottur einhvørr er
í øllum løndum segjum vér. —
13. Svo ber til ad sagdi jeg
ad Sigtírs veiga faung eru treg
og tunna hans fær hásan róm
— hérna' ad segja — verdur tóm.
14. Strax þá brugga Freya fer
flýta' í ofbodi má hún sér

---

[1]) Keldu slagningur. [2]) um vetrar tíman þá Byrnir einsog mátast inni.

því „géf mér ad drekka" grenjar Þór
„gisti ég hel; eda hvar er bjór?"

15. Þá er flýtir ferdum á
Freya þorir ei drolla þá
og skvettir vatni skjótast í
ad skuli drýgjast vín med því.

16. Nú hefir farid allteins ad
Odins frú — og svo er þad;
samt skulum hægir vera vér
því vandi nokkurr í málum er.

17. Nádugur veittu njótur oss[1]
í návist sinni kjera foss,
síst þad kalla eg sóma kann
sig ad gretta framaní hann.

18. Fá sá makleg mundi laun
er mæla þirdi víns ad raun
„kæri Odinn! ølid þitt,
„er ónýtt, skemmt, já, svei því! skitt"!

19. Festi þad hvørr í huga sér
— hafi þeir vilja eptir mér —
háski' er koma med hriggin sinn
und' høfdingjanna kambaskinn.

20: Fyrir Ása drottni erum vér
einsog mýs og þadanaf ver
skraut allt kvedja skepnur þær
er skella' í reidar Høgna klær[2].

21. Þó vínid ydur þyki þunnt
og þundar vera' á skálum grunnt

---

[1]) Odinn. [2]) Odins heiti og Kattar.

í hamingju nafni þylsid þó
þad sé hid besta' og meir en nóg.
22. En enginn felli á mig sök
þó Odins saungin sén løk;
helli' eg því á kjalars kér
sem konúngur Asa skipadi mér.
23. Hvørt sem þad er súrt eda sætt
eg set þad á bord og fæ ei bætt.
En hætta litst mér meir en mál
ad mæla fyrir Valgauts skál.

---

24. Kvasis æda kéldan þar
kirkt í næsta sinni var
er Bendtír ljóta bréfid fékk
og brádu nær frá vitinu gékk.
25. Heitmey Bentírs hlaut ad fá
hardar fréttir líka þá,
er audþøll gløddu ekki frekt
sem ei var heldur væntanlegt.
26. En þad bréf er Bendtír réd
brúdi egin hendi med
af innstu rita ástarrót
ekki spurdist minnsta hót.
27. Ad því mun spyrja þorna: lín
því ad svara' er skylda mín
af hvørjum þau íllsku brøgd
fyrir elsku beggja voru løgd.

28. Sannleik mun eg þá segja frekt
þó sumum þyki skrítilegt
ad saudþrá eru ørløg vor
svo enginn sær þeim nuddad spor.
29. Adra stund þau eru þó
óstillandi og hlaupa nóg
akkéri þeim ekkért má
og engar festar halda þá.
30. Stundum vængjum arnar á
upp til skýja hefja þá
er þau vilja verøld í;
vitnast dæmin forn og ný.
31. Aptur mylnu eins og steinn
eru þúng, ad kann ei neinn,
þeim ad hrinda høfdi af
hrygda søkka nidur í kaf.
32. Engan manna akta taum
ætíd gánga móti straum
hamla, stødva, stinga á
þó streytast vilji knør ad gá.
33. Eins og þverslá eru megn
ætlun manna' og lyst ígégn
virda ø r l ø g verøld í
vil eg ó l ø g heiti því. —
34. Ø r l ø g voru þá orsøk fyrst
og ó l ø g þverrar lukku bist,

od Bendtír ei med bauga sól
bundinn vard á teingda stól.

35. Enginn gétur, ætli þó,
annars dregid fisk úr sjó
og brotnar á þridju báru sá
bátur, er ekki lenda á

36. Adra þvínæst orsök tel
— eins og keypti', hana eg sel —
ad brúdir frænda átti einn
sem ei var klaki járn né steinn.

37. Segguriun hafdi hold og blód
sem hvørt eitt Adams gamla jód
gjarnt var lipurt hjarta hans
ad hoppa í léttan ástar dans.

38. Bendtírs unni festar frú;
— fyrst hún skírist Stella nú —
á manninum þó ei minnsta bar
medan Bendtír heima var.

39. Þannig spakur úlfurinn er
ekki briddir neitt á sér
medan traustan veit hann vørd
veikri dvelja medur hjørd.

40. En nær frekur fær þad spurt
ad fædir sauds sé genginn á burt
gapandi med gini þá
grípur og drepur allt hvad má.

41. Lodfætt tóa líkan sid,
laungum hefir búid vid,
hún leitar ekki lamba hér
uns lipran smala fyrir sér.
42. Púfna lædist milli mjúk
medur jørdu fellir búk,
gýtur upp høfdi þá og þá,
þjófsleg nokkud undir brá.
43. Þegar sá, er stydst vid staf,
strax er kominn sjónum af
upp sig hafdi holtaþór,
hoppa, dansa' og leika fór.
44. Brellulæti brúkar flest
byrgir, ef gétur, skottid vest;
halanum af því helst hún veit
hjørd muni þekkja grenja sveit.
45. Anslegt hefir kolla kíngs
med kroppnum ýmist tekur víngs
stekkur frá og stundum til,
stara lømb á kátlegt spil.
46. Øll þar standa ótta frjáls
eins þar til á midjan háls
stekkur refur og kreppir klær,
en kjapturinn þvers um barkann rær.
47. Skaplíkur var skeytagrér
sképnum þeim er nefnda'g hér,

hann þó ræma vil eg ei vest,
verkin lýsa hvørjum best.

48. Þá Bendtír gékk í branda saung
brádt hann hitti faldaspaung,
sinni innti elsku frá
ei var túngan málstøm þá.

49. Allrahanda ordin góð
upp hann týndi úr hyggju sjóð
audmjúkt bad, og kraup á kné;
sér kæran léti ást í té.

50. Aptur svaradi baugabil:
„blídu þína' ei agta' eg vil
„sem skjótast frá mér skunda þú
„skeinkt hefi' eg Bendtír mína trú".

51. Þó afsvar fengi furdu bist
fitjadi' hann uppá adra list;
heststkónaglinn, hugsa réd
høggi einn' ei ladast med.

52. Eg veit — kvad hann — enn- þá ráð
sem á skal vinna hringaláð,
sú er konstin kýngja full
krøptug nærsta' og heitir gull.

53. Gulli heimur hefir nú
helgad þjónkun sanna' og trú
þess almætti ljóst og leynt
laungum er í verøld reynt.

54. Sagt er yrdi,' og satt skal þad
sonur baulu [1] gudi ad,
af því var af gulli gjør
Gydínga þjód hann dýrkadi' ør.
55. Af brendu gulli búin er
blídust sól og stjørnu her;
enginn þar fyrir undrast má
ad henni Persar lotníng tjá [2].
56. Kunn er mønnum fregnin fróm
ad fákur einn þar sydra' í Róm
borgmeistari voldugur var;
því væn af gulli týin bar;
57. Hundur Dana døglíngs frjáls
digurt gullhlad bar um háls,
fékk hann því af niflúngs nád
nafnbót Konferenceerád.
58. Konúng þrændur kusu sér
køllud Saurr hans hátign er
þad var hundur, hafdi sá,
helsi' af gulli,' og vit vid þrjá [3].
59. Vitsku og lukku og heidur og hrós
høldum veitir rínar ; ljós

---

[1]) Kálfur. [2]) Persar tilbádu sólina. [3]) Eysteinn Koníngur lét seida 3ja manna vit i hans Konúnglega majestet, hundinn Saurr, ádur hann settist i Kónglega hásætid i Prándheimi i Norvegi.

í ástarveiki er þad rétt
einka medal fyrir sett.

60. Odni Kóngi ekki var
álas veitt fyrir kvenna far;
en þegar Freya gulli grét
glæddist ást um hyggju flet.

61. Vid branda storm var hjartad hardt
hann ei fékst um kvennfólk margt;
Friggjar gullhár fagra þó
í fjøtur Odinn sterka dróg.

62. Odni jafn var Juppiter [9]
og jafnvel meiri ad sagan ber;
gullhlads brikur bekktist vid
best því þekkti á fljóda sid.

63. Engin stódst hans elsku vél,
ei var gott ad varast sel,
opt gullbeltin urdu þraung
ádureu menja vissi spaung.

64. Liljan ein um lánga tíd
ljóma báru vardist fríd
í kopar settist kastala einn
komst ei madur þángad neinn.

65. Fyrir kopardyrum kastala á
keyrd var sterk af járni slá

---

9) Gud Rómverja ødru nafni Zevs.

Júppíter var ráda rír
teynt hann hafdi ei þetta fyrr.
66. Vánga strýkur, nagar neglur,
nú var Zevs minn kominn í beglu;
hann grundadi daga hann grundadi þrjá
gulls ef kynni þilju fá.
67. Ur skák svo bætti bragda megn
sér breytti gulls í steypiregn
streymdi innum gættir og gøt[10]
glugga, rifur og sperru-þøk[11].
68. Lidkudust mellur, losnadi slá
laukst upp koparhurdin þá,
og allt þad sem var ádur læst
opid rétt ad vilja fæst.
69. Nú var setstur sødulinn í
Zevs og lék vid stýrid því;
framdi þad sem fæ eg ei
hjá festar-úngri Vendtírs-mey[12].
70. Leirøld hafa lærdir sett
ad lifi nú; en þad er ei rétt;
þad er gull-øld; — gullid því,
er gøfgad øllum heimi í.
71. „Því skal eg (mælti geira grér)
„gjøra eins og Júppiter

10) Skráargøt. 11) Þak og súdir. 12) Þetta var Danae, dóttir Akrisii Kóngs, hana køllum vér: Dáney.

„Fróða=korni falds um láð
„fæ eg lausa niður sáð“.

72. Með hríngafjøld og frænings eng
fyllti sjóð að lá við spreng
vídis=ljós í vøsum brann,
vappaði' á stað og brúði fann.

73. Kurteyslega kveðju nú
korða vandaði beitir frú;
þvert tók honum þorna lín;
en þá greip hann í lummu sín.

74. Allrahanda upptók þar
armbønd, hrínga, gérsemar
eðalsteina' og ormabeð;
enginn fegra hafði sjeð.

75. „Þenna“, mælti' hann, „þúnga sjóð,
„þér vil eg géfa, mengrund rjóð,
„ef mér veitir, er það kvitt
„aptur litla hjartað þitt“.

76. Málhrøð anfaði moturs=nipt:
„minn fæ eg ei hjarta skipt
„þitt mátt eiga þjassa mál,
„þvíta sjálfur, brøgð og tál“.

77. „Hugsaðu ei að heiðri mín,
„hnupli túngu flærðin þín;
„ærulausum ekki furt
„eg mig sel, — og snáfaðu burt“!

78. Nú var ordin afarreid
audarbrík vid hrínga meid;
sá hann ei á betra bid,
brádt hljóp heim og stód ei vid.

79. Pad var ekki þar med endt,
þó sig tvisvar hefdi brendt;
skip þó fái skvettur tvær,
þad skýtst í höfn og lendíng nær.

80. Medan þetta þeinkja vann
þar kom Bendtírs sendimann,
um hvörn gétid ádur hef,
er ástar flutti hid rétta bréf.

81. Frændi meyar fann þad rád,
ad falsa bréf af hetjn skrád,
og ödru í þess ad stínga stad,
stála þoll er fallinn kvad.

82. En svo gæti bragda best
botn í slegid, ad kæmi vest,
frá Stellu födur stíladi rit,
er sturla skyldi Bendtírs vit.

83. Sagdi hann dauda sorgum af
seima hlíd, og orsök gaf,
sjálfum Bendtír — bréfin tvenn
búnir eru ad lesa menn.

84. Menja bjódur þenkti þad:
þegar brúdir heyrir; ad,

Bendtír fallinn fleins í þrá
feti kaldan helveg á,

85. Mundi hlána' úr minnis sveit-
megnust ást og trygdin heit;
því ekki margar eikur bauga
elska skrýmsli, vofur og drauga.

86. En Bendtír mundi bréfs við sjón
bráðast ræna hreppa tjón
og í æði sorga sér
sjálfur steypa í feigðar hver.

87. „Þetta ráð" svo ræða vann
reynir auðs „ei bregðast kann
„Bendtír deyr; en brúðar frí
„bý eg ljósum faðmi í".

88. Mín vil eg brøgð og launheit list
um lánga veröld prédikist;
sálm inngaungu sjálfur eg
samið hefi' á þenna veg:

89. „Mín skal harpa hlustum garpa hvell
fyrir gélla,
undir sýngi allar kindur
um Auðmunds [1] veldi lopt og haudur.

90. Fræning eingja fimir streingjum fíng-
ur hríngi!

---

[1] sjékonúngs heiti.

fíla beinid fágad gali,
vid flog ókyrr af snørpum boga.
91. Fidlur klíngi Symphon sýngi og Cít-
har hvítur!
pípur hljóda leiki liprar!
lángspil stemmt og trumbur gángi.
92. Gydju vísa vil eg prísa vefsi þessu
máttkust allra heims á hvetti
af háum dýrkast jafnt og smáum.
93. Heitir Lýgi ljóma dýa ljósust rósin
lundar stáls og liljur bauda
lotníng veiti þessari drottníng!
94. Hnés med falli høldar allir heidur greidi
einka heimsins konúngs kæna
krónprinsessu' og myrkra tróna!
95. Háa ranna høfdíngjanna hyggin byggir
kærust þeirra ertu eyrum
er eptir nýum klæar fréttum.
96. Lítilát ert mest í máta mætust sæta!
fátækan ei fyrirlítur
fús í moldar þreiir. húsum
97. Opt í fyrstu ert med list hjá ítum lítil
ad stundar gnæfir korni krýndri
krúnu hærri ýmis brúnum [1].
98. Yfir heima alla streyma' í einu reynir

[1]) skýunum.

ad augabragdi fljót þér fleygir
um fjøllin, jafnt og kembíngs vøllu.
99. Mála spjótin þúsund þjóta[1] um þrætu
stræti,
beittum skotid í allar áttir
ørum fær af strídum vørum
100. Fædst hefir ei á Fjølnis mey sá fleina
reynir
ad hann ei ristin hrínga kynni
heidri, and og lífi ad sneyda.
101. Brynjan þrenna best þó spenni bríngu
hrínga,
móti stendst ei skørpum skeitum
er skunda' úr kænni Lýgi mundu.
102. Skjøldur, hjálmur og hardur málm-
ur og herjans verja
øgn ei gétur minnstu megnad
vid myrkra konúngs dóttur styrka.
103. Kónga veldi flest þín feldi frægdin slægda;
siólar ordnir þínir þrælar
í þúngum hlekkjum lofstír súngu.
104. Þín er høllin þjassa gjøllu þakin kvaki[2],
rúnar føgru þér er þjóna
þýdir gulli' og perli skrýdast.
105. Fléiri' á mála stafir stála strandar sandi

---

[1]) þúsund túngur. [2]) þakin gulli.

þinn hafa gengið, þér og unnið
þýðan eið um lífsins tíðir.
106. Lofuð vertu! eilíf ertu, því ei munt deya
eflaust er frá heims upphafi
— og held eg máské fyrr — þitt veldi.
107. Myrkra hildíngs máttka gildust mær-
in skæra!
unn þú mér bland þekkra þinna
þræla víst í ríki sælu!
108. Lotníng ljósa, hátign hrós og heið-
ur greiða
mig fýsir rósu fés marg þúsund-
faldan valdí' um aldir alda"!
109. Þenna lossaung þundur stáls
þrátt réð leika á pípu háls;
Credói líku hafði hann
hnýtt inní sinn Grallarann.
110. „Í þriðja sinni" svo réð tjá
seggurinn: „sprund eg finna má,
„og reyna, brádt hvørt brúðurin svinn.
„bítur nú ekki' á krókinn minn.
111. „En ef fæ eg andsvør stirð,
„fyrir ástarkveini hlust er birgð,
„kannské eg sýni kéllu' eg er
„karlmaður og huga ber".

112. „Ræna vil eg fagri frú
„úr føðurhúsum — sver eg nú!
„hjá nauðugri skal eg nøðru gulls
„njóta vilja míns til fulls".

113. „Vil eg því strax á volka skip,
„varpa mér og burt í svip,
„busann tek eg — hann er hér, —
„hvað sem kann áliggja mér".

114. Flaug svo burt á fálka taums
frakkur í stormi svarra raums [1]
óskaplega eyðir fleins
af stað fór, ei gáði neins.

115. Reið á skeið yfir refa hyl
rann svo hraðt við glumru bil [2]
að sigldi um koll á mera mar;
maðurinn féll, er knífinn bar.

116. Knífurinn blindi brjóstið skar,
bestar skeiðar fékk hann þar;
en heldur skékktist heila kór,
hálsinn þá úr grópinu fór.

117. Í purpurarandu flóði fjør,
flæddi burt úr hyggju vør;
eilíft húm yfir augu dró,
úlfar kættust, refur hló.

---

[1]) Frakkur í huganum, Svarri Raums er trøllkona.
[2]) Við æði hugarins; Glumra er trøllkona.

118. Hans í nýrri heljar vist,
hverfi, gét eg, amors lyst;
en ad raula sálminn sinn
sé honum leyst; — en enda' eg minn.

119. Sigtírs kér er sopid þurt,
sig hafi veitslu fólk á burt!
Kapteinn drauma kalla fer
því knørinn svæfla búinn er.

120. Kýs eg stilla orda ás
Ása fella ad tunnu lás;
lasid þøllin rædu ris
risa : spjalls ei vyrdi á mis.

---

## Fimta Ríma.

1. Njørfadóttir næsta ótt fram brunar,[1]
hrími stokkinn Faxi fer[2]
á fimu brokki ad leika sér.

2. Ægishallar undir í gjallri þekju[3]
glymur hátt, þá hófinn ber,
hamra sláttinn vekja fer.

3. Dýnkir rída og dunur lída breidar,[4]
undan fýkur fótakjøl,[5]
flugum lík, hin hvíta møl.[6]

[1]) Nóttin. [2]) hestur náttar. [3]) ís. [4]) Frostadýnkir
[5]) skaflajárn. [6]) fjúk.

4. Þó andlitsbrún sé Onars rúnan gilda[1]
und' døkkum hárum dulin er,
dygdin klár, þad sannast hér.

5. Hefd og prýdi hennar lýdir sanna,
undran boda øllum má,
alla ad skoda hátign þá.

6. Loptid bædi, lád og grædi sveipar,
og allt sem líf og anda hlaut,
und' sitt rísa kápuskaut.

7. Hennar faldur hefir um aldur verid
ofinn hreinum ormabed[2]
edalsteinum settur med.

8. Um sig midja máttkust Gydja bindur
gylltan linda, er megnum má
myrkrum hrinda jørdu frá.

9. Á hennar baki hárid flakir bjarta;[3]
geisla lánga leggur af
um loptid, váng og dymmu haf.

10. Fljódi skartar fidiels svarta kápan,
med innumblandad oturs gjald,
øll glimrandi nidur í fald.

11. Hempuskjøld ef hennar øldin skodar
sólu stærri sýnist hann
Svafnis skærri søgrum rann.[4]

12. Svuntuhnappa hennar kappar líta
gulli flosud u n d i r er —
enginn brosi nú ad mér!

13. Kann eg valla vegsemd alla nefna;

---

1) nótt. 2) gull. 3) nordurljós. 4) gull.

túnga ei nokkur telja má,
túnglaflokka lopti á.
14. Og allan skara er Naglfara drottníng[1]
gulls af heimum hlaut í mund[2]
er hópum sveyma bláss um grund.[3]
15. Hún er fagur fyrr en dagur borin
allt þá brjálast heims vid hrun
hann og sálast fyrri mun.
16. Konúnganna konúngur svannan teita
síns embættis bar á trón
og blída kættist vid þá sjón,
17. Bad hann dýra drottníng stýra ládum,
geyma og bægja sári frá,
þá frekast lægi hvørjum á.
18. „Myrkra sorti" — milding orti sóla —
„vil eg ei skadi sképnu lid
„um skéljúngs hlad, né sila mid."[4]
19. „Best er trúi burdugri frú til þessa
„føgrust ljós, er finn eg til
„falda rós! þér géfa vil."
20. Þessu bodi baugastod nam hlýda,
og um ólèttan alda fjøld[5]
oss sinn rètti verndarskjøld.
21. Fótahradur ferdamadur kynni
réttan veg ei ratad fá ,
røkkrid þegar hann dettur á.

---

[1]) nóttin. [2]) túngl, stjørnur álita lærdir menn fyrir heima edur veraldir, einsog vorn jardarhnøtt. [3]) loptid, [4]) sjó né landi. [5]) þúngan, stóran edur þann, sem adrar aldir af sér gétur ellegar hefur eitthvad illt edur gott í sér fólgid.

22. Ef nóttin mild ei mána-skildi sínum [1]
brigdi á lopt og gæfi glans
gaunguhropti um eydur lands.
23. Þá villtir skrída, vafdir kvída' og myrkrum
og ædi storma hvals um hraun
hlunna ormar segls vid raun. [2]
24. Gríma þá, sem glæstast má sig skrýdir
af ást sær bárur Ægir fellt,
andanum kári nídri hélt.
25. Ránsmenn klædast, kænt á lædast fætur;
til ad myrda fólk og fé;
því flest í kyrrdum huga' ad sé.
26. Auds þá módir elur í hljódi sorgir [3]
leiptu sjúka lætur um ský,
loddarar strjúka felur í.
27. En hvad vil nætur nefna mætar dygdir?
tína mengi og telja þær
er talid engi madur fær.
28. Bónda sveittum af þúnga þreyttum starfi
í fadmi þínum náduga nótt!
af naudum sínum verdur rótt.
29. Sárir, bleikir, svarta-veikir-galli [4]
dýrd þér fundu hér í heim;
því huggarann Blund þú sendir þeim.
30. Meyan þekk, á brúdarbekk er situr,
brosir hljódt med sjálfri sér,
þá sér hún nóttin komin er.
31. Undir bøggum ellt af høggum stinja

---

1) túnglinu. 2) skip á sjónum. 3) nóttin. 4) mel-ankolískir, sinnisveikir.

meiga dýrin medan er
Mammons hlýri ad hverfa sér.[1]
32. En nóttin smæt þeim næsta grætur yfir,
hvíld af mædu hæga bjó,
holla fædu drykk og ró.
33. En ádur en þetta efni detta náir,
einn nátt! hér ordi til
um ydar mátt eg bæta víl.
34. Sképnur allar skapadar falla nidur
flatar þína fótskør á;
fleirum sýna' ei lotníng þá.
35. En eins og góð er audar módir fræga
á líkan máta gétur grimm
gánga látid hretin dimm.
56. Er það þegar øldin, treg á sættir,
er ad jagast innbyrdis,
eda nagast senn á mis.
37. Og fladri valla slettir um alla heima,
lýgi spinnur og last um þá,
er lofsverdt finnur margur hjá.
38. Optast lengi á ordastrengi leikur
vakurt øld ad vanda hress
um vetrarkvøld sín syrpu vess.
39. Er það níd um adra lýdi fróma
gis og hád er hæfir síst,
haturs sád þar undir brýtst.
40. Sá ei líkar saungur ríkri grimu;
hlenna=mønnum hegnir vís,
hledur sønnum, leggur ís.

[1]) Mammon kallast gud, bródir auds.

41. Því er betra þjóð á vetrar kvøldum
meinlaust gaman gjøra sér
og gagn með sama, — vel þá fer.
42. Skal því aptur orðaraptur hafinn;
því kútur Einars kaupstað frá
kom með víni dál'tlu á.

43. Skollvald gé'stabod þar bresta nádi
hvar darrahvessir drjúg med vél
datt af essi, gisti hel.
44. Um hann frædid ekki rædir meira;
þó enn fleira þylja eg vil
því þad heyrir søgunni til.
45. Hans var lík á hesdar ríkan máta,
lagt í kistu, er ljómadi' øll
og lagt í kristinna skrúdahøll [1].
46. Klukkur hríngja, en klerkar sýngja nádu,
pípur léku og lángspil merk
lúdrar, frek og orgelverk [2].
47. Andad hold var ausid moldu sídan
líkprédikun laung var slutt:
lífid er rík og spannar stutt.
48. Dygdir valdar voru taldar allar,

[1]) skrúdahøll er kirkja. [2]) er hljódfæri brúkad í stórkirkjum, og samsett af mørgum hljódpípum, á hverjar blásid er med stórum belgjum.

er hópum tédan huldu rekk,
hann á medan lifad fékk.

49. Fæstir ádur ad þeim gádu tegund;
hefdi dáid dygdalaus
drengur sá án klerka rausʃ.

50. Sagan tínir sínum rímar-álfi;
Bendtír taptan Frosta-fer
ferjan aptur ad sækja hér.

51. Þúngan mód í þánka sjódi geymdi;
fældist sinni fridur og ró,
farfi kinna' og purpuri dó.

52. Næraʃt eigi dag frá degi gádi,
þúngur flúdi blundur brár,
brjóstid lúdi hrygdin sár.

53. Um ekkert hirdti ei sig girdti brandi,
vildi fánga í rekkju ró,
en rekkjan ángur hærst upp bjó

54. Trádum hesti hleypa best þó rédi;
aldrei støkka undan gat,
ángrid døkka á baki sat.

55. Hvar um grundu hjørs nam þundur rása,
í hæla ætíd hrygdin gékk,
honum kæti varnad fékk.

56. Þó skógar prýdi skémtan lýdum bjódi,
þókti hristast branda brjót
med brædi kvistur hvørr sér mót.

57. Félag manna fordadist hann og vinna,
sverda runnur, sviptur frid,
sig ei kunni heldur vid.

58. Þarf eg eigi þjód ad segja meira,
því allir grunda høldar hér,
ad hvørgi undi madurinn sér.

59. Hann á víxl sér var ad brixla tídum,
ad hefdi gérdi hríngs óvirdt
hrygda sverdi Stellu myrdt.

60. Af því feginn efni deya vildi
ad lifa hann ei lysti þar,
því lífs ei svanninn elskti var.

61. Þyrdi' eg mína meiníng sýna lýdum,
ad missa fjør, er madur ei ann,
missir gjøri eg fátækan.

62. Líkams allir linnust snjallir kraptar,
og — þó leysi ydar med! —
einnin deyfast sálin réd.

63. Ástin menn og ángrid grenna náir
einsog vax vid blossa brátt
brádnar strax og tapar mátt!

64. Eda rós í aldin-ljósum-gardi,
blød sín fellir, følnar, dó,
vid frostid, hvellan storm og snjó.

65. Þessum rekkur rauna gékk í þaunkum,

er án tafar hefdu hann
heimt í grafar feigan rann.

66. Hefdi eigi hryggur fleygir skeyta
ødrum løndum fengid frá
frétt um gøndlar strída þrá,

67. Núna skal eg" — njótur taladi spánga —
„álms í drífu egna lid,
„óþekkt líf svo kvittast vid".

68. „Mun eg þá linna-láturs finna gérdi
„um eilífd dvelja henni hjá,
„harm minn selja jørdu á".

69. Allur gladdist, andar saddist kæti,
lífid bjarta lék á ný
léttist hjartad brjósti í.

70. Eins og þegar aumur og trega sølur,
af einslags heppni fúllri frá
fánginn sleppur myrkra krá.

71. Og úr banvænum anda kænum gusti [1].
kémst og fjøtur kvittast vid
kulda nøtur fordæmt lid.

72. Frelsid tapta fundid aptur kysir,
himin frían sær ad sjá,
føgnud nýan smakkar þá.

73. Af kæti hans þar hjartad dansar fyllta,

[1]) Kjæna edur skip andans er brjóstid; súgur sá edur dampi, sem er í fángelsum, er tídum banvænn.

grefur kvída í gleymsku mold
gledin frída lífgar hold.
74. Sviptur mædu sig ei rædur vidur;
lukku smída sína sér
til seinni tída í huga fer.
75. Svo var Bendtírs brjóst uppspennt af gledi,
þá tekid hvessir heyrdi brands,
til hrotta messu utanlands.
76. Bjóst til ferda beitir sverda kaskur,
komst úr landi kvaddi sorg,
keyrdi á branda rymmu torg.
77. Í þeirra lid slóst laufavidurinn brádi,
í hildar reisi fyrst er fann,
fátt um leysi spurdi hann.
78. Því med sér sjálfum málma álfur þenkti,
hann eins kynni hér sem þar
hurd ad finna valhallar. [1]
79. Fyrst þá leit hann flosadar sveitir brynjum,
af Tyrfíng léttum føtum fals,
fleygir spretti þjassa tals.
80. Hristir staungu heilsadi aungum manni;
því Hridju plátu hann þess bad [2],
hún vard kát og gjørdi þad.

---

[1]) valhøll, þad er: stadur daudra, einkum þeirra er í bardaga féllu. [2]) sverds kénning. Hridja er Trøll-konu heiti.

81. En hardmynnt þótti hraustri drótt ad kyssa
hjálma grídi; munn því med
megnum snída kossi réd.

82. Tennur úr munnum tjørgu runnum hrundu,
dundi brádur dreyra foss,
drjúgan þádu brúdar koss.

83. Pad er ad segja — þjód svo megi skilja —
þá Bendtír hjó med hvassri egg,
hláturinn dróg af mørgum segg.

84. Megn ógledi manna gédid fyllti;
því fardaga sálin sá
sínu' ad draga býli frá.

85. Feiga kauda festi daudinn snøggur,
þeir sig ei gádu signa hér
né segja brádast: hjálpi mér!!

86. Bendtír því svo brodda gnýinn herdti,
bádum reiddi høndum hjør,
hølda meiddi; lesti fjør.

87. Stormþinn hildar hari gildur æsti;
benja sjór í bylgjur gékk,
brimgard stóran hladid fékk.

88. Framfyrir merki hinn mækja sterki runnur,
æddi og fylking alla rauf,
eins og silki brynjur klauf.

89. Gégnum herinn hjálma skérinn rendi,

því með heitum hjalta nað,
hann var að leita dauðanum að.

90. En dauðinn undan óðast skunda gjørði,
eins og eigi þyrði þá
þambarsveigi [1] ráðast á.

91. Fram og aptur auðnu skaptur Bendtír,
vals um bergið dreirugt dró;
sinn dauða hvergi fann hann þó.

92. Því dauðinn hrøkk og hljóp og støkk á undan.
svo valla í hæla honum á,
hrotta stælir mátti sjá.

93. En þjóð mun vilja þetta skilja betur;
mun þá verða meiníng sú:
að meiðir sverða dó ei nú.

94. Heldur gékk um Hildar stekkinn rauða,
skotfrí lagði margan mann,
málma flagði sigaði hann.

95. Sókti á flótta felmtruð drótt er hjarði;
allar hafði árar hér,
úti; tafði' ei bjarga sér.

96. Bendtír skékur brand og rekur flótta;
honum þakka hvørr og einn kann,
hirðir stakka sigur þann;

97. Hilmir digur er hafði sigur feingið.

---

[1]) bogmaður = stríðsmaður.

ástir mestar Bendtír baud,
bodid gésta, virding, aud.
98. Móins láda myrdir þádi sómann,
gylfa kéndum gékk á hønd,
fyrir grimmum fjendum vardi lønd.
99. Metord, hylli, heimbod stillis, audur,
huga snéru Bendtírs brátt,
burt hann réru hels frá gátt.
100. Þad er ad skilja: ad þundar bilja hvessir
til grafar skrída ei gyrnti strax,
eg gét þad bídi næsta dags.
101. En helst eru drøg til hvørrar søgu nokkur,
hann gékk á skóg, ad skémta sér
skrautid nóg fyrir augu ber.
102. I einum lundi lítur þundur stála,
einn þann hlut, ad augu hans
einkis nutu, hoppa dans.
103. Mundi vilja veitir hylja blossa,
vera allur augu þá
frá ennis fjalli nidur ad tá.
104. Hefdi máské Hildar gáska vinur
saunlega starad sig í hel,
sjónar sparad varla hvel.
105. Því svo bar frída sjón ad skídum hvarma,
ad hringa baldur sór vid sig:
„senn vil eg aldrei drepa mig“.

106. En hvad var þad þá, er hetjan sá í lundi?
þess skal géta gullhlads ná,
ef giptist vetri þessum á.
107. En svo megi motursey ei feila
til umþenkíngar eina tíd
og vil hrínga veita hlíd.
108. Eikur banda opt sofandi komu,
til sinnar gæfu; — svo má enn;
svefninn hæfi fljód og menn!
109. Eg á medan margopt tédan Bendtír,
geyma skal, svo skira øld
á skémtun ali næsta kvøld.
110. Tekur ad sysja tródur klyfja Grana,
bánnar gríma gledskap meir
gengin ríma alveg deyr.
111. Sofi í fridi víf og vidir laufa!
veit oss Mildi, náduga nótt!
neytar hvíldir, dád og þrótt!

---

## Sjøtta Ríma.

---

1. Er sá sæll, ad embættum sem ekki þjónar,
sem fyrri aldar frægir ljónar.
2. Sina eignar situr jørd med sveina vaska,
ódals gjørir ei rétti raska.

3. Landskuld ei né leigur útokra lausa þollinn,
hann géldur ei nema tukthústollinn.
4. Til skylduferda sér ei síga segguriun lætur,
manns fyrir lán ei borgar bætur.
5. Pínga fordast þras, á ríkra þrøskuld flatur
hnígur ei sem húsgángsmatur.
6. Drambi trodins tignarmanns — med tukt eg segi, —
hundaþúfa hann er eigi.
7. Frelsi krýndur kýs ad sitja í kyrdum heima,
konu og barna' og húss ad geyma.

8. Ljúfast medan lýdi gledur lóu-gaman,[1]
á fjøllum gengur féd til samans.
9. Grøsin undir glóins hallar[2] gildum múrum
bestu kroppar blóms úr flúrum.
10. Lífandi hadd af løndúngs frú[3] med ljánum sneydir,
og þeim í gardinn heýa reidir.
11. Stýrishesti stundum hann frá[4] stalli beitir,
Ægi gamla adsør veitir.
12. Audgum svo frá ægi dregur ugga héra,[5]
sem klárinn øldu kann ad bera.
13. Hræsvelgur þá hristir lokka[6] heiptar strángur,
svells í velli vefur vángur.
14. Af fíngri hvørjum fleytir hvítum flokkum ørva,
svo øflugur bjørn má undan hørfa.
15. Segguriun frjálsi situr í hlýum sal hjá mengi,
nýtt þar lukku lifnar gengi.

---

[1]) sumar. [2]) glóinn er dvergur, hans høll eru bjørg og klettar. [3]) grasid af jørdinni. [4]) skipi frá naustii. [5]) fiska. [6]) veturinn, þá Bjørninn skrídur í sitt hýdi.

16. Sérhvørt nú vid sína vinnu situr hjúa,
vøkuna kappid kýs sér drjúga.
17. Rokkar hvirfla, hrinja kambar, hrælar krota,
lárar fermast, prjónar pota.
18. En þegar vakan verdur laung vid vinnu heita,
høfudid fer ad hnjánum leita.
19. Því ekki er skollinn ydjulaus — menn ætl' eg rædi —
hann er optast ødrum þrædi.
20. Hvad mun taka hér til ráda húsins fadir?
eg skal segja ydur, þad er:
21. Allra fyrst hann syngur sálm af Sigurgardi,
undirtaka enginn spardi.
22. Laungum svo med lestri straffar letivillu,
úr herra Ármanns húspostillu.
23. Þá er lesin Buslubæn med bera kolla,
fer nú ekki ad fara um skolla.
24. Syngst á eptir Syrpuvers med særing netta;
makleg skolla gjørd er gletta.
25. Snúdugur verdur snauta burt med sneypu staka,
því fólkid allt nú fer ad vaka.
26. En víki aptur vélasmídi vanur skolli,
og svefn ad hjúa seidi=kolli.
27. Því grunur manna gløggur er þad hann gódu brjáli,
sem illur vestur í vadmáli.
28. Aptur bóndinn út sig býr á annan máta;
fallega smídar Frostabáta.
29. Mærdar timbur munns ei kostar Múla kékki,[1]
hjá fríhøndlurum fæst þad ekki.

---

[1]) Múli er Jøtuns heiti, eru því munnkékkir hans:
Gull, sem Þjassa Jøtuns, og brædra hans.

30. Sudra ferjur sínar hann á sónarhøfin,
setur, hvína siglutrøfin.
31. Ýdni vaknar aptur, nú er allt í standi
sýngur hátt í hvørju bandi.
32. Kafnar svefn, en kirkjast geispar, kvasast fettur,
leid útbyrdis letin dettur.
33. Leika sér um løgin Bodnar Lits gáleidur [1]
en gamli skolli gjørist reidur.
34. Því allir vita, ad ekki sjálfur erki-skollinn
vada yfir vogar pollinn [2]."
35. Er því margra meining sú um myrkra-sløttinn
ad eigi hann saman ætt vid køttinn.
36. Allra skylda er það senn, og okkar líka
ad aukaskolla ergju ríka.
37. Berum oss því Bláins knør ad bánga saman,
sá gamli þó sig gretti í framan.
38. Þegnar hjálpi og þýdust sprund ad þessu smídi,
innanhúss hér enginn bídi.

---

39. Berast skal á bátin Fjalars Bendtirs minni,
er frá var sofnad fyrra sinni.
40. Hann í lundi hafdi séd þann hlutinn góda,
er átti ad géta audartróda.
41. Lofadi eg gipting ljúfri freyu-linna-feta,
sem kynni rétt í kollinn géta.

---

[1]) litur er dvergur, hans gáleida edur skip er skáldskapur. [2]) þetta vitna best Annálar Hofdabrekku Jóku, er aldrei þordi út til Vestmanneya.

42. Fyrst þó enginn fram vill segja faldaþilja,
þó að allar þykist skilja.
43. Verð eg því fyrir tróðu tvinna taka' af skarið,
feiminn er eg ekki parið.
44. Fagra sá hann silki: eik í sögðum lundi,
hún bar lángt af hvörju sprundi.
45. Í allri prýði eikin hríngs var önnur Stella,
mátti þeirra mun ei fella.
46. Að um blett þann eg á Stellu ekki tali,
af sem þvæst fyrir þrettán dali.
47. Sleppum því, en það skal greint að þundi
skjalda
gèðjaðist allvel gramur sàlda.
48. Koma nam á kæru fund og kveðju vandar
mælti hann svo við briggju banda.
49. „Ljáið þér mér liljan hringa ljúfast eyra,
„eitt svo megið orð mitt heyra!
50. „Ef ei bundnar eruð þér enn ekta þræði,
„eg um leingra orðlof bæði.
51. „Reiðist eigi, að eg kunnur yður valla,
„dirfist svona djarft að spjalla.
52. „Yðar sýnir ásýnd frí af öllum þjósti,
„að dygðin yðar býr í brjósti.
53. „Mildi bæði og meðaumkun af mánum
hvarma.
„leiptra, ástsæld 'votta varma.

54. „Hógværd blíd og og lítilæti ljóst fram skína,
„innra manninn ydar sýna.
55. „Kostir þeir, er krýna best hvørt kraga haudur,
„vitska, dygdir, dásemd, audur [1].
56. „Allir sýnast eiga bert hjá ydur heima,
„blóma gróin grundin seima!
57. „Er sá heppinn ydar nædi ektafundi;
„þess sér óska margur mundi.
58. „Herdtur er eg hropts vid eld [2] ad Hild-
ar gjósti,
„kløkkt þó hjarta ber í brjósti.
59. „Opt jeg støkkti óma frú med íta blódi,
„veitti æda vørmu flódi.
60. „Augum votum eins opt leit eg einnig valinn,
„búkum daudra drengja falinn.
61. „Følur hefir farfi' á úngar fallid kinnar,
„er vottar æfi mótgáng minnar.
62. „Bída aldrei bætur mun eg bágra daga,
„þér nema viljid þetta laga.
63. „Ydur fel eg ást og trú um æfistundir
„sól þad vitna eg sæla undir.
64. „Andsvar veitid ydar, svannin ágætasti!
„med einu blídu auga kasti.

---

[1]) Fornustig, deilig, dydig, deilig. Tullin.

[2]) Hroftur er Odins heiti, hans eldur er sverd.

65. „Ad jeg megi ydar meiníng af því skoda
„hvørt sem líf eda hel mér bodar.
66. „Hvørju svaradi silki hlídin sverda þundi
„held óg skjódin flestøll grundi.
67. Því hempu gissur handa bandid helga festi
en hjóna rúmid hýsti gésti.
68. Lifdu Bendtír bædi nú, og bauga þilja
eins og blóm í eggi ad skilja.
69. Hádi marga hildi sídan hristir sverda,
forsjálari en fyrr nam verda.
70. Því ei bjó lengur ákøf dauda í honum gyrndin
rýmt hafdi' henni konu kindin.
71. Hvervetna nú heim bar sigur hjørs í tafli
gæddur kænsku, íþrótt, afli.
72. Rómur vída rann af veiti : rínar : ljóma,
um hreysti, mildi hans og sóma.
73. Nú skal beita bláins knør ad banda eyu,
Bendtírs fyrir festa meyu.
74. Sat hún heima húsum í sem hæversk ekkja,
sínum mátti' ei sorgum drekkja.
75. Hennar gledi henni veitti harma staka,
ad eiga son, en engan maka.
76. Þrettán sinnum sunna hafdi sirkilskeidid
tólfmælt runnid túngls um heidi.
77. Sídan arfi sagdur fæddist selju spánga.
nú í skóla er gjørdi gánga.

78. Leikarinn eittsinn litli rann úr lærdóms
klaustri
ódu réri økla-flaustri.
79. Mætti honum høldur gamall hæru-skotinn,
hardengdur og herdalotinn.
80. Ad sér fadmadi úngan svein med annari' hendi,
— því hin var sneidd af hjørfa bendi. —
81. Ausadi hann: „Þó, úngur hnokki! ólmur sértu,
„sloppinn hédan ekki ertu.
82. „Haldid ødrum hef eg eins í hrotta þrumum
„og hardlega spennt um hrygg á sumum.
83. „Suma fjendur fætur undir fasta tród eg
„Corpóráls í stétt þá stód eg.
84. — Corpóráll er yfirmadur einn vid Hildi,
Hreppstjóra hjá oss ígyldi. —
85. „Þér skal eg klappa kvistur granni kjalars funa!
„og kyssa þig, ad þú skalt muna.
86. „Hefdi eg núna heila báda hramma mína,
„um vánga skyldu þeir vappa þína.
87. „Á þinn fadir allt þad skyldt frá odda-þingi,
„hann var lengst minn hershøfdíngi.
88. „Honum frá — því fadir þinn er fleinabeitir,
„blóta' eg mér hann Bendtír heitir. —
89. „Honum frá, þad hermi eg enn, þér heils-
an ber eg,
„hans ert réttur son þad sver eg."

90. Gjørdi ansa geira myrdi gulla brjótur:
„mikid ertu um munninn ljótur.
91. „Og sýndu mér, hvørt sorti ei þér sést á túngu
„því ósannindi ord þín súngu.
92. „Mér því sagdi módir góda mín í tómi,
„ad sáladur væri fadir minn frómi.
93. „Fyrr en hún mig fæddi í heim med fríd-
um rekki,
„skírt eg veit hún skrøkar ekki."
94. Svaradi runnur randa' hinn gamli reidimódur,
„þad lýgur þú med þinni módur.
95. „Aunadhvørt mig hindrar sjón og hamlar ædi
„eda þid vitlaus erud bædi.
96. „Mig má høgga, hvørr sem vill í hundr-
ad parta,
„þig sver eg son af Bendtír bjarta.
97. „Því útlit, hár, og enni og nef og augu og kinnar
„høfund ættar herma þinnar."
98. Kurteis ansadi kvera rýnir kesju brjóti:
„þér vil eg ekki þræta móti!
99. „En komdu heim, og hittu mína hjarta módur!"
andsvør brád gaf oddarjódur.
100. „Eins er eg gódur og sú nornin áburds-grana,
„ekki fer eg ad elta hana.
101. „Bannsettri þid bædi erud bundin villu,
„hrekkja fjøtrud hapti illu.

102. „Bølva' eg mér ad Bendtír lifir í besta gengi,
„stríds og frægu stjórnar mengi.
103. „Vera sonur vænsta manns ef viltú ekki,
„snáfadu burt eg þig ei þekki."
104. Svo búinn fór nú sveinninn aptur sína ad finna,
módir, og henni allt réd inna.
105. Hvad Corpórállinn kvedid hafdi køldu gédi
ad Bendtír lifi og lýdum rédi.
106. Þessar fréttir þánka jóku þøllu kéra,
hún vissi ei hvad hér var ad géra.
107. Hitt og þetta hugsa vann, en hratt því aptur,
sem þeytispjald gékk þánkakraptur.
108. Fángadar og frelsi ræntar fugla kindur
búrs um allar æda grindur.
109. Imsar hlidar upp og fram þær ódast fljúga,
stáls um þrædi þenkja' ad smjúga.
110. Hrista vængi hardt og rómi hriggum kvaka,
ad finna skógar frjálsan maka.
111. I fángelsinu fljúga umkríng, sem fljótast kunna,
og gæta ad hvørju gati og munna.
112. Stundum lítid stødvast þær, og stara géra,
hugsa hvar muni vídast vera.
113. Upp sér bregda aptur svo med orku stinna,
svo dugi stórar dyr ad finna.
114. Eitthvad trúi' eg alltíd þeirra áform blekki,
því høfudid kémst, en kroppurinn ekki.

115. Og þær réttu aldrei dýr þær yfirvega
nedst vid gólfid nefnilega.
116. Fuglar þeir, sem hermdi' eg hér, er hugur
manna,
ef ad vanda einhvørn kanna.
117. Flagrar hann þá, sem ódur og ær í yndis
skúri,
einsog fánginn fugl í búri.
118. Upp vill rifsja rádin klók, og raunar bestu
speki djúpri med og mestu.
119. En jafnskjótt kémur eitthvørt Ef, sem útaf vindur,
steikar sem af stáli grindur.
120. Alltíd sér hann einhvørn veg sem ætlar færan,
en þrepskjøldurinn fældan fær hann.
121. Optast flýgur hann ofhátt, svo hvørgi nemur,
hid einfaldasta ei uppá kemur.
122. Svo var Stellu sinni fángad sárum vanda,
brautst þad um til beggja handa.
123. Braut þad jafnskjótt uppá allt, en ekkert dugdi
seinast Stella svona hugdi:
124. Ad senda mann frá sér, er kynni søgu færa
sanna um Bendtir sinn ástkæra.
125. Madurinn sékkst, ad festu kaupi, ferd ei tafdi
nýa skó, og nesti hafdi.
126. En mig grunar, ei hann strax sé aptur kóminn
med Bendtirs lifs, eda dauda dóminn.

127. Því vegurinn kvað verið hafa vondur og lángur,
en sumra pósta seinn er gángur.
128. Því sumir á bæum um sig eta, einsog naðra,
en sumir drekka, slóra og sladra.
129. Sumir hlaupa, og heya frá og hérød kanna,
um hegðun njósna og hagi manna.
130. Sitji' í festum sagan meðan sverða raptur
sendur kémur ekki aptur.
131. Þori eg segja það ei verður á þessari vøku,
því skal hætta stirðri støku.
132. Kann eg sveinum kæra þøkk og kraga-hlíði,
er stóð að Frosta ferju smíði.
133. Fjalars snekkju fjalir ekki flisja' eg leingur;
skal í rekkju dysjast drengur.

---

## Sjøunda Ríma.

1. Fús vil eg biðja falda gram,
og frægan líka sveina hér,
hér mig styðja og hrinda fram,
Hleiðólfs skeið sem búin er!
2. Þig vilja taka veslings skeið!
villtar bylgjur senn á ný,
hrekja, og skaka' um høfin reið;
hvað ætlarðu? gáðu' að því!
3. Keppstu, snekkja! að komast í vør,
kjøl í naustí festu smeik;

veitstu ekki' ad árum gjør=
er þín =rúin hlidin veik?
4. Sérdu eigi' ad mastrid mjótt,
er meitt af brádum útsynning,
ráin sveygist, emjar ótt,
vid áfall sérhvört fróns um hring?
5. Skodadu, víst ad enginn er,
á þér reidi, er duga má;
bordin sist, né bjálkarner,
bera kunna megnari sjá.
6. Sérdu, ad vodin siglu skords,
er sundurflett med gøtin breid,
og engin godin innanbords
á ad kalla í þinni neyd.
7. Pommersk eik þó í þér sé,
— Asks er dætra þessi best —
af þér hreykir ættinne,
og engisverdu nafni mest.
8. Samt þinn treystir ekki á,
ófrís verji steindan skut,
hádúng geisium gjósti frá,
gádu' ad falli' ei þér í hlut!
9. Opt mér leida ádur þú,
og ángur jókst um hyggju hver;
en, auma skeid! þér ann eg nú,
og ei fyrir sorgir léttar ber.
10. Rád eitt duglegt ræd eg þér,
rás þeim settu bodum frá,
Geirs=vid=fugla'=er skúmhvít=skér,
og Skarfaklettum falla hjá.

11. Þannin fadír Flaccus saung [1]
frægstur Gauts vid kérahlad, [2]
um áranad, er áls um gaung
mun ætlad hafa ad fara' á stad.
12. Eg á sømu yrki leid
eins þó sé ei mælskusnar
um mína' ófrømu møndulsskeid,
og módu himins aldafar. [3]
13. Svona endt er mannsaungs mál,
mál þad borda = þykir skord,
sjøundu Vendtirs skal eg skál,
úr skóla orda setja' á bord.

---

14. Hefill mála hvíldist rír,
Hleidólfs snekkju sjølum á,
þar ægisbala eikin dýr,
einn réd mann til njósnar fá.
15. Án tafar gékk sá tøskuþór [4]
til þess stadar er beiddi frú,
brúkadi ekkert ólukku slór,
einsog sumir gjøra nú.
16. Því stodir læra tók hann tvær,
tilvaldastar í eigu hans,
og réd færa ofaná þær,
allan þúnga líkamans.

---

[1]) *Carm. Libr.* 1. 14. [2]) drykkjubord. [3]) módu=himin er ís; aldafar edur skip er heimurinn. [4]) Póstur, af pósttøskunni.

17. Sídan hvørja flutti fram,
fyrir adra jafnt og þétt,
og sig ferja áfram nam,
alin og hálf var milli rétt.
18. Lopti þegar ein var á,
og sig teigdi fram á leid
hin ótreg sér hnikkti upp þá
og hljóp fyrir þessa fram eitt skeid.
19. Á svoddan máta seggurinn snar
sagda leid komst frá og til
og Freyu gráta brekku bar,
bodskap þann, er féll í vil.
20. Ad Bendtir væri ljúfur lífs,
lukku sæti skauti á,
skúfadan bæri kólfinn kífs[1]
køppum stýrdi hjørs í þrá.
21. Elskadur væri af ødlíng hann,
ótti fjenda geirs vid løg,
ætti skæran ofnis rann,
af øllum heidri sæmdur mjøg.
22. Hann og væri sami sá,
fyrir sólarhríngum meir enn tólf,
sagt var færi feigdar á
far, þá hringdi benja kólf.

[1]) allir strídsyfirmenn hafa einn skúf, sem lafir frá handfesti kordans ofaná lær, kallast hann Port d' Epée.

23. Þóktist kletta ofnis eyr,
allra bestu søgur fá;
ei því frétta fýsti meir,
og færdi pósti staupid á.

24. Bauga línu gladdist géd,
gréru hin fornu sorgar kaun;
vildi sínum syni med,
sækja Bendtír heim á laun.

25. Sem kaupmadur ágjarn einn,
allt sitt góts á skipid ber,
og med þad, nær byrinn beinn
býdst, í útlønd senda fer.

26. Þad til Perú leggur leid[1]
leidir vindur, fylgir drøfn,
høfin er nú yfir greid
óhætt komid, liggur á høfn.

27. Vørur mørgum bauga brjót
býtir kaups á stefnu stig,
ofnis bjørgin ótal mót,
í sig tekur og fyllir sig.

28. Hladid farmi bestum brátt,
býr sig, kvedja fleinar grunn;
úr hafnarbarmi hafs í átt
heldur, aldan sneydist þunn.

---

[1]) audugt ríki í sydraparti vesturálfunnar.

29. Kaupmann þessar fréttir fær,
fegins hugar allur vard;
lán sitt blessar, hjartad hlær,
hans, í von um ríkan ard.
30. En í svip berst annad bull,
út, fyrir satt er géfid var:
ad menn og skip og góts og gull,
grafid hafi bylgjurnar.
31. Sorgir æda auds á vin,
æran banasár réd fá,
þúngan mæda þrumu dyn,
þegns í brjósti gjørir slá.
32. Bestu eigum sig hann sér
sviptan, vina missir fund,
fátækt deig honum føstnud er,
sem forakt tók í heimanmund.
33. Þegar dagurinn þreyttist af,
þjádum auka gledi bann,
nóttin haga' á naudir gaf
sig nákvæmt til ad pína hann.
34. En nær ángrid allra hærst
í hádegis merki var,
því hugdi ránga ljónid læst,
med læding[1] nedst í djúpum mar.
35. Lítur í þessu hann til hafs,

[1]) sá sterkasti fjøtur.

— hugurinn augum stjórnar tídt —
og sjer, hvar bessi byrjar trafs [1],
brunar inn med skautid frídt.

36. Drekann fossa nú á ný,
njótur hrínga þekkir sinn;
gledin blossar brjósti í,
brúna daggir þorna' á kinn.

37. Yfirmáta fögnud fær,
sofnisbeds med teingdasól,
strax á bát hann stígur og rær
til strengja gamms vid leguból.

38. Drepur brádur daudi sút,
dillar yndi géds um kér;
hendur bádar breidir út,
sem byrdíng vildi fadma' ad sér.

39. Stella var nú svo til sinns,
sól í heidi gledinnar skein,
þá herdir snaran hrotta dyns,
heyrdi lisa silkirein.

40. Frúin ríka brádt sig bjó,
barnid med sér taka réd;
þjónustu píkan hátt vid hló,
þá heyrdi' hún ætti' ad fara med.

41. Því stofu meyar allar ad,
eins sig bera' og fiskimenn;

[1]) skip; Byrjartraf er segl.

veidist eigi á einum stad,
annan vilja reyna senn.

42\. Tók sér kérru Bláins bóls
bil, med léttum reisu fans,
og med snerru hlaupi hjóls
héldt á leid til kærastans.

43\. Ást og kæti kérru dró,
kærleikurinu á eptir skaut,
laungun ætíd undan fló,
elskan lánga stytti braut.

44\. Skraf mitt vona' eg skírast þú,
skiljir, ef eg segi þér:
ad frú, og son, og þerna, þrjú,
þau sem ódast flýttu sér.

45\. Sé því fjærri ad nokkur nú
nønum seima hneixlist á,
af því skærri elsku' og trú
á sig tók hún reisu þá.

46\. Sér útvega vildi mann,
er var henni bundinn fyrr med eid,
og sáran trega frúin fann
ad fedra kunni' ei gulla; meid.

47\. Frá upphafi finnum vér,
— føst náttúru þad eru løg —
i hjarta' ad grafin allra er,
ástin, þó sér leyni mjøg.

48. Ef ei neitt af ást er flétt,
inní sprunda hyggju rót,
þá er eitthvað ekki rétt,
edli geingur sønnu mót.
49. Þú ef eigi í þessu mér,
þorir trúa; gættú ad!
eg vil segja eina þér
uppá dæmisøgu það:

---

50. Og það skédi, í þann tíma,
að hún drottníng Hel,
þrætu réð við rétt að líma
reið um hyggju þel.
51. Þernu hennar þíngs á fleti
þegnar fengu sjeð,
Hel nam kénna helst um leti,
henni' og þrjótsku með.
52. Gékk á hana søkin sanna,
sú varð málsins raun,
og að vana vond réð kanna,
að vél sín erfa laun.
53. Í Tukthús að Arnarhóli,
ambátt dæmist sú,
hrekkja fús, þar henni skóli,
haldist árin þrjú.

54. Hel var sátt með hirting trafa
hløkks, sem dómur kvað;
en hún mátti aðra hafa
aptur í hennar stað. —

55. Nú því sendi niflheims kvala,
norn sinn þræl, og tér:
að hárs um kvendi hann skuli fala,
handa ambátt sér.

56. Mætti engin ást sér leyna
innst um hyggju krár,
og gæti hann fengið fleiri enn eina
festa mætti' hann þrjár.

57. Utlit skyldi sinni svara,
svo mun kaupið víst;
þræll ómildi þá nam fara,
þessu gleymdi síst.

58. En svo bar til um sama leiti,
— sagan hermir fróð, —
mens að bil í rænu reiti [1]
ríkan geymdi móð.

59. Orsök kvalar ei má leyna
er yndis gjørði stans
að skjaldmey Kjalar kysti eina,
er kippti í sokkinn hans.

---

[1]) Freyu kenning, af Brisinga meni því enu góða.

60. „Á skipid þekki' eg, því hef' eg róid
„— þad voru Freyu ord, —
„Ill' hefir hrekkja grefid gróid
„hjá Gissuri lengst vid bord.

61. „En þín púra, lipur á losta!
„lít' þú ei uppá mig;
„þín vist er úti; vil eg ei kosta
„vendi' ad hýda þig.

62. „Systur þínar af sama deigi
„saarlífis og þú,
„hneixla' í mínum húsum eigi
„hér skulu ekta trú.

63. „Skal minn trúi skósveinn fara,
„og skygnast allt um frón,
„útvega nú, og ekkert spara,
„ærleg vinnuhjón.

64. „Vil eg fallegar tródur trafa
„taka í mína vist
„er til karla einga hafa
„og aldrei festa lyst.

65. „Ærumeyar allar veri,
„á ást sé hugur þver,
„faldaeyar fagrar beri,
„fredid hjarta' í sér.

66. „Ad eg meigi óhrædd tóra
„um Odinn kallinn minn

„kvennmenn þreji' eg þrjá eda fjóra,
„í þetta eina sinn".

67. Sveinninn fór og svo nàm breyta,
sem hann Freya bad,
um firdi þjóra [1] fram réd leita
frægdar meyum ad.

68. Kom svo aptur, innti Freyu
allri reisu frá:
„ad svanni skaptur einn á eyu
„engin væri sá.

69. „Er kosti slika hefdi' á høndum
„hún sem kjósa réd,
„hann þó píku horns á strøndum,
„hefdi eina séd.

70. „Er fjórumsinnum taldi tíu,
„en tólfta árid rann
„og aldrei í sinni yndisstíu,
„ástum rétta vann.

71. „Gædskurúin gérdur festa,
„ei gaf um bidla kjass,
„en Hel var búin hana' ad festa
„því hún var mesta skass".

72. Pennan fékk nú þveings af skordum,
þrauta lestur frú,

[1]) fjørdur Þjóra edur Nauta er land.

fór þó ekki fleirum ordum
fram, enn „svei því nú"!

---

73. Af þessari søgu madur má,
margt til lærdóms taka sér,
því ef bøgu bæti' eg á
brúdir veit eg, þakka mér.
74. Fyrst má sjúga fródleik þann,
af frædi, hvørs eg rakti spor,
ad vinnuhjú í heljar rann,
hafa sama kæk og vor.
75. Annad snoturt merkja má,
menn ad dæmast Hels frá bý
fyrir brotin þeirra þrá
þad íslendska tukthús í.
76. En annadhvørt jeg ósatt fann
— óveill dómari meti þad! —
ad svo sé hardt í Heljar rann,
sem hefir verid prédikad.
77. Eda sperru-asni sá [1],
Arnarhóls er stendur á beit,
hefir verri verid þá
vargi hlóda' i nedri sveit [2]
78. Annars kæmi útaf því

---

[1] sperru-asni er þrældóms-hús. [2]) hlóda-vargur er og hús-kénning, edur hýbýla. Nedri sveit er víti.

eitt Yfirréttar melíus:[1]
hels ad dæma þræla þý
í þetta pii Corporis hús.[2]

79. En viti þad bændur, viti þad fljóð,
vinnuhyskid, konur og menn,
viti þad frændur og vina þjóð
vøldin sýslu og bødullenn!

80. Ad einka bót er ordin sú
er Íslands gagn og sómi mun,
ad Tuktar ljóta nafn er nú,
numid og steypt í forbetrun.

81. En — nema betri bragnar sig,
bæti lifnad, fegri sid,
ad himna setri hitta' ei stig,
heldur sneida nidur á vid.

82. Eg því bid af alúd mest,
alla þá mitt heyra svar,
keppist þid, sem kunnid best
ad komast í húsid betrunar!

---

[1]) ad dæmast *promeliore* er ad sektast fyrir rángan dóm Undirrétta: vidlíkt, sem þá skólameistarar hirta børn og segja: snáfa þú nú og lærdu betur. [2]) *Pium Corpus* er, eptir ordinu, gudhræddur, frómur líkami, en svo kallast almennt Stiftanir, Klaustur, Skólar, Spítalar m. m. jafnvel þó allir limirnir séu eigi þeir frómustu, edur gudhræddustu.

83. Þridja fellur augu í,
einnig þeim sem skygna grynnst,
hrund ad pella heims um bý
hvørgi' án ástarneista finust.

84. Horns þó strøndum hafi á,
hittst ein ástlaus skauta hlíd,
segja' eg løndum mínum má:
ad mikid sídan laung er tíd.

85. Gløggan bar og galla snót
er glædir ei ást um hyggju stó,
skass því var og skéssa ljót
og skamt eitt átti' ad grafar þró.

86. En linna morgna lundum þá,
læt eg huggun, þad er sú:
ad strøndum horna eru á
ástar bestu kvendin nú.

87. Í fjórda máta finnum vér,
ad fljódin sjálfri Valhøll í,
kyssa láta' og klappa sér
þó kunni ad verda illt úr því.

88. Því fimta haldtu' í hyggju sjód
heilrædinu' ef stundar frid:
varast skaltú, gridkan gód!
ad glettast húsfrú þína vid.

89. Í ástar gáska' ef kann þín kinn,
klappi' ad stela húsbóndans,

borgar máské bakhlutinn
brotin fremri líkamans.

90. Meiri kynni' eg tína til,
tróðum banda lærdóms grein;
en að sinni ei það vil,
að ekkért sagan líði mein.

91. Søguna kvaddi eg seinast þar
og setti aðra leið á ról
bil hvar hadda' á vagni var
og vøkur áfram runnu hjól.

92. Láttu[1] vali volka þá
vagninn draga Stella! þinn,
standa skal eg aptaná,
inntil þess eg Bendtír finn.

93. Skeiðuðu hestar um torg ótøld,
með tvinnarós og úngan svein,
að húsi gésta komu um kvøld,
og kusu nætur atlot bein.

94. Sendist kæru svar ótraudt,
seggja hópur fyrir var,
að kamers væri ekkért audt
í herbergi gésta þar.

95. Nema vildi veiga sól,
velja sér einn legu naut.

---

[1]) volka valur = hestur.

og mens hjá hildi hvílu ból
hirri taka' um svana þraut.

96. Sá sinn hagnad hrínga vør,
— himna drap því ægir blis —
og af vagni varp sér ør,
veik svo gløð til herbergis.

97. Þar var glaumur, gledi' og svall,
garpar súngu' og léku á mis;
glymjandi straumur skála skall,
um skjálfandi gljúfur vélindis.

98. Stella sínum syni med
svefns í húsid tilsett gékk,
gulls hvar línu líta réd
lýsti kvedjum, aptur fékk.

99. Silkidreigla seljan frí,
sú bar hverri gulls af lind
sínum speigli sjálfrar í,
sá ei Stella fegri mind.

100. Liturinn frídi líkams vann,
laungum þokka géfa' af sér,
því húfsins prýdi' um húfsbóndann,
hvikult sjaldan vitni ber.

101. Þurfti' ei lángan tíma til,
tveggja ad brasa saman géd,
því ljómi vánga ástar il,
inn hafdi læst í hyggjubed.

102. Gustur vara blítt upp blés,
belginn hugar, er mjúkt vid kvad;
karfi svara kurlin trés
med kæti ferjadi báli ad.
103. Burís kossa bestur var,
borin á med kærleiks hót
aflid blossa þreyngdi þar
þrautlaust inní hjartarót.
104. Mín hvad þylur ment ófród,
mun ei virdast hafa snid;
því ei þad skilur ólærd þjód,
og Eddumenn ei kannast vid.
105. En svona er nú Eddan mín,
útlegging ei lakari grand,
málur : kéra milli sín,[1]
mjúkast hnýttu ástarband.
106. Var ad hátta tími til
tjaldadi njóla vedra krá;
Stella sátt og seimabil,
sömu bygdu rekkju þá.
107. Hvíldar bidur mentin mód
mín því dotta tekur senn,
því skulu nidur leggjast ljód,
med leyfi ydar, gódir menn!
108. Hleidólfs skeid, á skridi' er var,

[1]) mála er hálfkénnt konuheiti.

skall vid bjarg og søkk í geym;
veidi eydist Vidars þar,
því valla bjargast nøkkva þeim.

---

# Attunda Ríma.

1. Brjáladur er hann annadhvert,
edur hann gjørir bøgu
máltak var — þad man eg bert —
manna' á fyrri døgum.
2. Sama heyri' eg seggi enn,
segja máli hressu,
ætlardu' hætta ekki senn
ólukku masi þessu.
3. En lofadu mér, Lastmáll gódur!
lítid hér ad raupa,
vittu þá, ad þessi ódur
þér býdst ekki' ad kaupa.
4. Ingjaldshóls ei kýs eg kút,
sem kéndur Bødvars arfi,[1]
minn né sníkir matinn út,
Møndólfs hladinn karfi.
5. Ekki heldur eg þér gés,

---

[1]) Árni skáld Bødvarsson gjørdi sig ad skáldi Sýslumanns Jóns; gjørdi hann því til hans flesta sína mannsaunga, og flutti honum rímur sínar á hverri hátíd; sat hann því þar jafnan um Jólin, var leistur út med gjesum. og reiddi þadan jafnadarlegast brennivínskút í skáldlaun.

óma slauvid þetta,
er eg sjálfur sovid hef,
sinni þúngu' ad létta.

6. Ef ei sel, og ei þér géf,
efnislitid frædi,
sitjadu ei þér uppá nef,
þó eina bøgu' eg kvædi.

7. Þér ef sjálfum meinar mig,
minna skáld ad vera,
máské gott er þad fyrir þig;
þá vil eg skømmina bera.

8. Gunnlød hjá eg sjaldan svaf,
fyrir sónar dropan káta,
handverk gjørdi' eg aldrei af,
Austra' ad smída báta.

9. Illa þegar á mér lá
og eitthvad bágt á dundi,
Gissurs bikar greip eg þá,
og gladdist bodnarsundi.

10. Fór mér þá, sem flestum þeim,
á fløsku er leggjast blódid:
þennan aktadi' eg ekkert heim,
eymda rénadi hljódid.

11. Krystalls gluggar Gauts í høll,
af gledi jafnan leika;
sónar kérin af þvi øll,
útum bordid kreika.

12. Sitt í høfdi man ei mein,
megin gyrdir linda [1]

---

1) Þór.

bodnar þegar bylgjan ein
bellur á góma tinda.
13. Fjølnir aktar ei fornar spár[1]
um feigda røkkur heima,
staupa þegar streyma ár,
um stofu bordin heima!
14. Þá brixlin gaf og Freya fékk,
hjá frænda Sleipnis þúngu[2]
Mýmis hún ad mjødnum gékk,
og móda kældi túngu.
15. Heilsubrestur, hrakfallsspá,
haturs bäknag manna,
— segja þad í sannleik má —
í sálunni rifin kanna.
16. En svo eru meidsla sárin frek,
er sálu vora mæda,
ad ekkert heimsins Apótek,
orkar þau ad græda.
17. Steins var kundar konst ótraud,[3]
og kraptaverk vid íta:
bóginn hann af svørtum saud,
setti' á þann hinn hvíta.
18. En einusinni sál hans bar,
sára hardan kvilla,
lækning hans hin vesta var,
verr fór þá enn illa.[4]

---

1) Fjølnir er Odins heiti; spárnar eru um Ragnar-røkkur. 2) er Loki Laufeyarson, fadir Sleipnirs. 3) Jón Steinsson var máské einn hinn fyrsti læknir hér á landi, og um hann segist þessi saga. 4) þá hann kvad ordid

19. Læknis vittu máta minn,
móti hugar þrasi,
tuttugu dropa tvenna inn,
tek eg af Mýmis glasi.

20. Hlánar sorg úr hyggju bý,
vid horna regnid óma
lækir holdsins leika' á ný,
leysir kulda dróma.

21. Reyndu þessi rádin mín,
Regins gérdur festa![1]
vit, hvørt ei øll eymdin þín,
útaf deyr vid þetta.

22. Tvíblinds kér þér tak í mund,
tindranda Rínar bálum,
súptu' á lítid silkihrund,
og sýngdu mjúkt fyrir skálum.

23. Sinnid léttist saungin vid,
sónar dropar gledja,
vid þinn hvørn þú lim og lid,
leikur, skal eg vedja.

24. En ekki nóg er þad med því,
þó þér skémtir einni,
því seggir gledjast sætum í,
af saunglist þinni hreinni

25. Saunglist vortin eyrna øll,
opnar hægum þjóti,

---

hafa ástfólginn í einum kvennmanni, tók hann eitur inn og dó svo. [1]) Nokkur handrit hafa fyrir: festa, kletta er svarar betur til: þetta; en handrit Skáldsins hefir festa.

gengur svo inní heila høll,
hér tekur sálin móti.
26. Breidir sálin henni' um háls,
hendur, mjúkt svo bidur:
dygg, velkomin, dóttir máls!
dveldu, og setstu nidur!
27. Ást og hirn hefir þú,
hjarta mitt og unnid,
fegin vilda' g félagsbú,
vid fengjum saman spunnid.
28. Héraf sérdu seima lín!
satt, þad gjordi' eg inna,
helst ad sætu hljódin þín,
huga orau vinna.
29. Láttu þarfyrir lóna = báls
— liljan! róm þinn heyra,
þás munu gledjast stafir stáls,
og stila' á eitthvad meira —
30. Minn svo enda' eg mannsaung vid,
máli vendi' ad søgu;
sómakvendin svo eg bid,
ad sýngja' alkénda bøgu.

---

31. Hleidólfs skeid þar seinast søkk,
svefns í dauda hafi,
nótt þar brúdir bjartrar, døkk
byrgdi sínu lafi.
32. Svásu bádar sætt í ró,
svefn þeim hvíld gaf varma;

hvør vid annarar brjóstid bjó,
og bundu saman arma.

33. Bádar af því bryggjur gulls,
brjáladi draumur gladur,
þenkja lét hann þær til fulls,
þar væri' annar madur.

34. Almátt draums og alla list,
engin fær útsagda,
vid hann kémst ekki' í hálfan kvist,
Herra Máus bragda.

35. Auman þræl í einu hann,
uppá tróninn setur;
krýndan aptur kónga mann,
kreppt í prísund gétur.

36. Opt med hlátri hef' eg séd,
hvar høfdíngjarnir stóru
horn í krúnu' og klausir med,
kyrjandi' áfram fóru.

37. Kastala ljósa lopti í,
lætur tídum bada,
hagleik draums má þekkja' af því,
ad þar er undirstada.

38. Opt til himna foldu frá,
fann eg stiga rétta;
en rinn þá var eg efstu á,
ofan réd eg detta.

39. Mig, þó hátt svo fengi fall,
frægur verndadi blundur
ad síst mitt rif í sundur skall
svoddan kalla' eg undur.

40. Um Asía bædi' og Ameriká
øll um lønd og geyma,
ber oss sínum ørmum á,
í augnabliki' er heima.

41. Vitsku kraptur hans er hár,
hluti dulda' ad þylja,
sumar og vetrar [1] segir spár,
ef seggir mættu skilja.

42. Menn framlidna leidir hann,
ljúft til vorra sala,
vid þar hvørr sinn vinin kann,
vandamálin tala.

43. Hann og føgrum himna lýdi
hjá oss stefnir bída,
einnig Belzebub ófrídi,
bodi draums má hlýda.

44. Fyrirgéfa fólk eg bid,
þó felli' eg hródrar rædur;
íþrótt draums samt einni vid
eyk eg, gódir brædur!

---

[1]) lillega er vetrar skrifvilla fyrir: vetur.

45. Hærst þá konstum hreisa vann,
hádsleg verdur sneypa;
í augabliki einu hann
øllu gjørir umsteypa.
46. Sama gaman gjørdi enn,
glettinn draumur fljódum,
misshýníng þeim mætti tvenn,
er midladi þokka gódum.
47. Stellu þókti Bendtír blídur
í bed sig vera' ad kitla,
klappa mjúkt og kyssa' ei sídur,
en kjassa son sinn litla.
48. En hin ønnur staupa stod,
Stellu' í fadm réd taka,
því héldt hún undir hvílu vod,
sinn hýsa ektamaka.
49. Og svo var draumsins glettnin grá,
gjørd um dúra gaman
ad brúdir vaknadar bedda á,
bádar rodnud'u í framan.
50. Herranum þakka hæga nætur=
hvild, og geymslu trúa;
kyssast, klædast, fara' á fætur
ferda til sig búa.
51. Hvør vid adra hringa=lind,
hirt réd samtal spretta,

skrøfudu fyrst um vedur og vind,
veg og hitt og þetta.
52. Rædt þá saman stutta stund,
stodir høfdu borda,
sú ókénda seima hrund,
svoleidis tók til orda:
53. „Ydar tillit, tvinna brú!
„trútt mér gjørid inna,
„er hann, Jómfrú, Frøken, Frú,
„festarmey eda kvinna?"
54. Svar réd aptur baugabil
blendid heldur veita:
„ydar helst jeg óska vil,
elsku : systir heita."
55. Enn svo Stella ordum brá:
ydur má eg spyrja:
„hvadan kémur Frúin frá?
„ferd hvørt ætlid byrja?"
56. Hermdi Stellu hér uppá
hinn ókendi svanninn:
„gipt jeg bædi er, og á
„yndælasta manninn. —
57. „Sendi hann í Hildar gný,
„hilmir vorra þjóda,
„fjendum móti, fór hann því
„fagran hjør ad rjóda.

58. „Heima undi' eg ekki mér,
„ein frá runni skjalda,
„fór í nánd ad finna hér,
„frændur og vini talda.

59. „Sagt er mér, ad hafi hann,
„haft í strídi sigur,
„og strax sé minn ektamann
„aptur væntanligur.

60. „Heimleidis því held eg senn,
„honum mót ad taka,
„í borginni jeg byggi N.
„med blídum ektamaka.

61. „Æ! — gaf Stella aptur svar —
„eg vil þángad líka;
„ad líta vin einn ljúfan þar,
„laungun hefi' eg ríka.

62. „Og þar leidir liggja saman,
„løg yfir ferju hjóla,[1]
„eg mér tel þad æru' og gaman,
„eptir ad mega róla."

63. Svaradi Frúin silki: ey,
svo án láugrar bidar:
„kærara selskap kann eg ei
„kjósa mér, enn ydar.

---

1) hjóla ferja er vagn; hans løgur edur sjór er landid.

64. „Ydur glød ad greindum stad,
„gullhlads fylgi' eg selja!
„og ef viljid þyggja þad,
„þér skulud hjá mér dvelja.

65. „Leigunni strax eg lýsi hér,
„lilju fosnis hlída,
„svo vel gjørid og segid mér,
„hvør sveininn á hinn frída.

66. „Á enganu hefi' eg um æfi því,
„augu gjørt ad festa,
„sem svo líkur er øllu í
„ástvin mínum besta.

67. „Og únga dóttur á eg heima,
„eptirmind hans líka,
„hana skal eg honum geyma,
„hún er snotur píka."

68. Rodnadi Stella rædu vid
reyndra minntist harma
ordum túngan lédi' ei lid,
á ljósin skýadist hvarma.

69. Loksins rósin linda kvad,
lágum þó med rómi:
„allt skal eg segja ydur þad
„þá erum vid saman í tómi".

70. Frúin vildi ei freista meir,

fleiru Stella' ei svara,
kærur vagnar kølludu tveir,
er krøfdust burt ad fara.

71. Fákar japla módugir mél,
úr munni skúmar froda,
jafnan leikur jarla þél,
jørd, svo dynur, troda.

72. Géstherbergi gengu frá,
gullhlads freyur nefndu,
hjóla stigu Ellida' á, [1]
og til borgar stefndu.

73. Skøkla aska Elgs um haf [2]
otrar drógu reida,
svo gusur reykjar gengu uppaf
um gamma sjóinn breida. [3]

74. Hljóp í móti hæd og mørk,
hvølum burdar klakka, [4]
dyra streymdu undan ørk, [5]
elfur strídar blakka [6]

75. Nádu svo ad breidum bý,
bryggjur-handar-linna, [7]

---

[1]) Ellidi er skip, en hjóla skip er vagn. [2]) skøkla-askur edur skip er vagn. Elgshaf er land, en reida Olur, hestur. [3]) loptid. [4]) hestum. [5]) ørk er skip, en dyraørk er vagn, því á honum eru dyr á bádar hlidar. [6]) elfur blakka edur hesta er farvegur á landi [7]) gullhringa.

hoppadi Stellu hjartad í,
því hugdi Bendtír finna.
76. Frúin leiddi hana heim,
med híru føruneyti,
mál ad hætta þókti þeim,
þúngu ferda streyti.
77. Dellíngsson á glæstum glad,
gømlum kéndi' á stygdum [1]
því Njørfa mær hann elti ad
Ægis vesturbygdum.
78. Pellur bádar þvita í sæng,
þreyttar ferda gengu,
dýnu undir vørmum væng,
værar hvíldir fengu.
79. En strax á lopt þá sunna fló,
sínum gyllini vendi,
úr mánalandi myrkur fló,
í mar á kaf sér rendi.
80. Stella sínum syni med
sængur steig af vagni,
húsins módur hitta réd,
henni blídt svo fagni.
81. Settust nidur svo vid bord,
sólir unnar roda;

---

[1]) nótt skipti um med degi, sem geingur nidur í vestri.

Frú ad nýu flutti ord
þá fékk hún dreinginn skoda:
82. „Utlit þessa únga manns,
„orsar þánka slódir,
„segid, fadir hvørr er hans,
„hvør er piltsins módir"?
83. „Ydar kvenndygd virda' eg vil
„— varpadi Stella ordum: —
„á øllu gjøra skal eg skil,
„er skédi í daga fordum.
84. „Þá uppvaxandi eg var píka,
„á elskudu fóstur svædi,
„eg var fríd og átti líka,
„ægissól og klædi.
85. „Var eg — eins og optast vér,
„erum — fús ad skarta;
„svo jeg þeinkti: einhvørr er,
„sem ágirnist mitt hjarta.
86. „Þetta skédi, þar kom einn,
„hjassa gætir messu,
„bónord vekja var ei seinn;
„vel strax tók eg þessu.
87. „Hermadur úngur vænn þad var,
„vitur, gæddur audi,
„í augu einkum skjótt mér skar,
„skarlats kjóllinn raudi.

88. „Brádt vid saman bundum trú,
„brullaups keypt var nesti;
„ekkért vantadi' okkur nú,
„utan vígslu' af presti.
89. „Kvøldinu ádur kom til mín,
„Kaskur runnur geira,
„um døkka nátt til dagur skín
„dvaldi' — ei skrafa eg meira!
90. „Lærdómsgrein ei þekkti' eg þá,
„þaunkum í né hreifdi,
„ad engum mætti' eg elsku ljá,
„utan presturinn leyfdi.
91. „En sama daginn sem hann nú
„semja brúdkaup vildi,
„hann réd kalla Hédins frú,
„hér tókst verr enn skyldi!
92. „Svo vid skildumst óvígd ad,
„ei hann vogadi bída,
„Herrann veit, mér þúngt féll þad
„en þetta vard eg lída.
93. „Kvad hann: strax þá kém eg aptur,
„kýs eg ekta svanna —
„en sá dagur ei er skaptur
„enn; — þad má eg kanna!
94. „Rit eg nokkurt sídan sá,
„svikara skrád med hendi,

„ad fallid hefdi' í sleina þrá,
„frægur lausa bendir.

95. „Ætla' eg líka' ad hafi hann,
„hast ad mæta brøgdum;
„því burt úr landi brádur rann,
„þá bardaga létti søgdum.

96. „J þessari borg eg þegar finn
„Pundinn linna setra,
„færi' eg honum frænda sinn
„nú fullra þrettán vetra.

97. „Ad hans bústád ydur eg spyr,
„og skal nafn hans segja" —
í því sama opnudust dyr,
auds vard gátt ad þegja.

98. Jnnkom madur ásjáligur,
ýmis stafadur rædum,
axlabreidur, ei mjøg digur,
og á raudum klædum.

99. Frúin þekkti sleina-staf,
fagnadi manni sínum;
Stella komst ei stólnum af,
stúngin harma pinum.

100. Rann til hennar Hildar-knífs —
hristir og réd mæla:
„æ! mín Stella! ertu lífs?
„eg þig kyssi sæla!

101. „Helgan fyrri æfi á,
„eid þér hef eg svarid,
„hann eg vil, og halda má,
„hvørnig sem er farid.
102. „Einnig lít eg úngan svein,
„okkar soninn beggja;
„enginn skal honum æru mein,
„af hans fædíng leggja".
103. Studdi sídan Stellu' á fót,
stýrir ættar tánga,
bádum frúm gaf blídu hót,
og budlúngs til réd gánga.
104. Gløggt á øllu gjørdi skil,
um géfni mundar hellu.[1]
Lofdúng gaf honum leyfi til,
ljúft, ad ekta Stellu.
105. Gjørdi hann svo, en frídar frúr,
fødmudust ástum blídum,
ei, medan lifdu, ský né skúr,
skarar sást á hlídum.[2]
106. Eina hafdi' og adra hér,
eignadist hrínga : tródu;
sannast þad: ad aldrei er,
ofmikid af gódu. —

[1]) steinn eda hella handar er gimsteinn. [2]) skør er høfud en þess hlídar eru enni og vángar.

107. En hamíngjan verndi hvørn frá því
hér um æfi daga,
ad festast meir enn einni í,
einu; — og búin er saga.

---

108. Í rúnum nafn mitt rita hér,
reynast mun eg stadur;
því er midur ad eg er
árbjarkarlaus madur.[1]
109. Samt vil eg nokkud segja þér,
sem er eingin lýgi:
í mínu nafni øndverdt er
eggjabjarga stígi.
110. Komirdu leiti annad á,
hjá óma tæmir krúsa,
þú munt heldur þraungbýlt sjá
þorpid ýmis lúsa.
111. Ef meir ad nafni horna=Hárs
hreifir! leitar=misu,
dags og nætur, alda' og árs,
apa finnurdu kisu.
112. Í þessu nafni hittist hád,
hreysti, urg med vana,

---

[1]) er ólærdur í rúnum, eins og Analphabetus er ólesandi dóni; má og vera, ad hvørki a né b. sé í nafninu.

gluggareitir, géfin nád,
glumra, vallendsk trana.

113. Rómsmenn greina, grófur ad
grimmur hábannsettur
hafi' í mínu heiti stad,
og herads bygdar sléttur.

114. Fann þar sama frægdar þjód,
í fyrsta augahlaupi,
ordkorn þad sem ætíd stód
fyrir øllu hundrads kaupi.

115. Skéljúngs himin; skyrju brjóst;
skúrir Ymis brúna;
gyldur, hermanns gamnid ljóst;
grasid plægdra túna.

116. Hægur blundur; hálsins pín;
høfdings ríkust kvinna;
allt í nafni má þad mín
madur gætinn finna.

117. Sammerkt á eg, (er þad stór
æra' og heidur slíngur,)
herra þeim, er hels í kór,
hraklegast allra sýngur.

118. Fødur míns af frægdum þó,
fátt skal herma drápa,

til Kammerherra' á himni slé
þann heilagasta Pápa.
119. Hleidólfs far þá hepti ról,
til hvílu rádid sinnar,
ljómadi fjórda' og fimta sól,
Fríhøndlunarinnar.

# Rimna-brot.

(Utlegging.)

## Önnur Ríma.

1. Í annad sinni enn eg nenni setja
Hanars kjænu hægt á sjó;
hver veit nema hún brotni þó?
2. Knútur spaki, knør á baki skerja
braut, og svam ad sandi inn
sá var gjæfu munurinn.
3. Knúts í búid, fólgu rúid ljóma;
Skjøldúngs medur skipta vott
skikkadi mig, og þad var gott!
4. Því engan baga af því draga hugsa:
mikid þad er møgur steik,
sem minnsta ekki vætir kveik.
5. Boginn medan uundar fleda hans tínir.
Fenjn mjøls í aski er;
eitthvad hef eg ad dudra mér.
6. Sýslu ef reki reidi tekur ad ysta

gétir (segi eg) þagad þú,
þegi eg líka: búid er nú!

7. Ein því mundin adra stundi fægja:
ekkert heyri' eg, hugsa, sje
ef heppnast þar vid skildings fé.

8. Hver sem 'safnar, Sunnu drafnar ydum,
vel há; borinn verdur sá
vyrda allra túngu á.

9. Knúts ef ekki eg af Snekkju fallins,
búi, hefdi søgu sjed
Sr. Steitirs: hvad hefdi skéd?

10. Þadan henni (þad medkénni) læddi,
Grímur kall mér kéndi svinn,
ad kroppa bók í vasa minn.

11. Søguna því eg Ságu dýa loga
senda af hendi í hylja vil;
heyri þeir, er vilja, til.

12. Sagan þraut í því ad braut hann Knútur
sína skeid, á skéri stód,
skordin Seima rak upp hljód.

13. Því Leónóra laufa; kóra djákna
Greipir lítast gjørdi' ei á;
gjøra fæstir henni lá.

14. Hafdi aldur, Hrotta baldur drjúgan,
þrisvar tíu og þrjátígir ár
þar med kampur ordinn grár.

15. Brúna sunnu, Branda gunnur hallar
hafdi adra herjans skúr
hvarma lopti skolad úr.

16. Annar fótur álms af brjóti líka
snidinn var: en snildar mann
snøggt á lurká fæti rann.

17. Høndur voru hans af sporum sverda
merktar svo á málma bjód,
margur øfugt fíngur stód.

18 Tyrfíng sáu Týrar áa ljósa
reidi gjørt sér hafa: há
hans andlíti fløtu á.

19. Og fóstran harda hans útgarda Loka
á lopti brúna hafdi hans
hrukku margan trodid dans.

20. Prúgu blódi þundur glóda Rínar
hellti fult sitt heila kot,
hann féll allan dag í rot.

21. Blóta kunni kólgu Sunnu álfur
og skélfilega gortad gat,
þá gladur veiga kneifdi fat.

22. Vil eg frétta, varir stétta linna
hvert 17 vetra silki Hrund
svoddan gyrnist fleina þund!

23. Eitt var þó (sem optast dró til teingda)

Greipir átti audin þann,
sem enginn madur telja kann.
24. (O! ad eg væri ofnis gjæru skrýddur
mér þá einhver menja gná
máské kynni, ad glæpast á).
25. Af því Greipir átti steipur Drupnis
kusu bædi hjónin hann
helst sinn fyrir dóttur-mann.
26. Nú skal kalla Nødru fjalla gésni,
Leónóra segi sjálf,
hvert Sverda vilji nefndan álf.
27. Steitir byrja strax, og spyrja tekur:
Leónóra! Lambid mitt!
lát mig vita þánkann fritt.
28. Þú varst kveif í þunnum reifum vafin,
eg þá fyrst þig augum leit
ást flaug strax í hyggju reit.
29. Kládía reida rædu greida nádi
hvada sladur? hvad er þad?
hvar hefir þetta nokkurn stad?
30. Attu dóttur ótta sóttur bidja,
ad hún vili eiga þann,
er eg henni kaus fyrir mann.
31. Steitir þá med stolta brá nam inna
kaptein Greipir kona mín,
kosid hefi' eg og til þín.

32. Þú skalt eiga Þund ódeigan stála
einn þó hafi ei utan fót
á hann tallaust fofnis grjót.
33. Gamall ordinn er sá kordan hristir,
en undir gráum, dóttir dýr!
dygdin hárum laungum býr.
34. Ei þó kjassi Eydir þjassa mála.
Søgur kann ad segja þér
sem ad mesta skémtan er.
35. Fram þó hafi fet til grafar runnid;
því þig hugga máttu meir,
madurinn lángtum fyrri deyr.
36. Augad misti annad kvistir Skjalda,
þad er bati: síst hann sjer,
í sinni ef færd ad leika þér.
37. Á einum fæti auds þó gjætir høgti
í standi hitt ef annad er,
allt þá láttu falla þér.
38. Leónóra lauka þór nam svara:
Herra Pápi! hefi' eg nú
hug ei til ad verda frú.
39. Kládía mælti, munn og stælti reitug:
hvørt sem viltu, edur ei,
ertu Greipnis festarmey.
40. Þekki' eg, drós! ad þér hún Rósa spillir,

fara í burtu Fjandi sá
fyrr enn røkkva tekur, má:
41. Líkust vølsku Lofn í følsku ædi
stælir þig upp, stelpa mín!
stærstu mér það eykur pín.
42. Ádur enn Greipir um þig sveipar fadmi
þú skalt hafa, þrettán trøf,
þjátíuir silki, í heimangiøf.
43. Hempur átta hafa máttu, níar.
Fløyels treyur þrennar þrjár
þaktar hrein med Freyu tár.
44. Nitján føt med Nødru gøtum dreigin
silki Hosna soddan mergd,
ad sist á verdi tala gérd.
45. Hvíta Serka, hjúp sem Klerka fína
(á þeim rídur øllum svo!)
í það minnsta fimtýgir tvo.
46. Audarbrík ad øllu líku skapi
dubbast upp, svo engin skal
ønnur fegri í brúdkaups Sal.
47. Ef ei þér skiptast, ádur enn giptast tekur,
ljótur í mig kémur kur,
klár 7000 speciur.
48. Steitir leiddist, strax og reiddist æfur
lokka Peruqv lánga sitt
lamdi nidur í gólfid mitt.
49. Hefdi hann næstum hrundid glæstum Svarra,
dyrnar á: en Greipir gékk
gøfigum í fadm á rekk.
50. Kapteinn innir: konu þinni ei gégndu

Herra Steipir; minnst þad met
medgjøf þá og grábaks flet.

51. Einn eg skildíng ei med mildíng falda
hafa vil þó hann sé ber
hann, sem ádur, gédjast mér.

52. Hér vard gladur høfdíngsmadur Steitir
kapteininum klappa fer
kyssa' og fadma upp ad sér.

53. Nú ber þetta nýtt til frétta sagnar;
ad Sunna veik sinn vana gáng,
varpadi sér í ægis fáng.

54. Aptur Njóla á upsa: stólin settist
sem Odinn gjøra ádur kaus
ýmis síla: beins úr haus.

55. Gríman þøgla er gydja Døglínganna
og svoddan fólks, er sambands bad
en sofa hinir: vakir þad.

56. Því til vonar var, ad sonur Kryddirs
Gotthard fótum geingi á
í grøf þá dýnu Steitir lá.

57. Undir ljóra Leónóru situr,
hugar, ad seingi færi máls
á fagri selju hrannar báls.

58. Medan starir madurinn þar og lúrir;
leit hann einn, sem ódur rann
undir sama glugga' og hann.

59. Hann á fæti hljóp. sem gjæti flogid;
geigvænlegur geira bør
med gulli briddi' hatta skør.

60. Nefið hatta næsta bratt í loptid

stóð, en hægri vánginn var
valla á honum byrgður þar.

61. En vinstra hornið hatts á þorna Lundi
lafði niður øxlina á
útúr gulls þar skúfur lá.

62. Vestið skal eg vyrðum galonerað
mynda, Kjóllinn mestur var,
morgunroða litinn bar.

63. Hans á læri lá hinn skjæri Brandur
yfirhøfn var honum léð
af hreinum dala skéljúngs beð

64. Arm og fíngur faðmaði hríngur glæstur
Sneiðir veri snildar mann
Snót ber Rósa kénsli á hann.

65. Brádt að rennir bilda spennir hvatra
þrísur Gotthards géðs í bú
með gremju segja réð: quis tu?

66. Hver um grímu hefir tíma sendan
þig (um æfi fáðu sjúk!)
Fletljóns híngað undir búk.

67. Gotthard ansar øldu glansa vini:
það meinbægni þykir mér,
þú ef myrkrið banna fer.

# II.

# Ýmisleg Kvædi.

---

*I.* Alvarleg. *II.* Gaman og Drykkju Kvædi.

*III.* Ljódabréf. *IV.* Einstakar Vísur.

# I.

# Heims ádeilur og Alvarleg Kvædi.

## I. Draumur.

1. Eg lagdist fyrir Nýárs nótt
med nærsta þúngu gédi;
þó daudans bródir fann mig fljótt,
og fúsar værdir lédi,
dúnmjúkar fíngur festi á
følleitur limi dofna,
og hlerum fyrir hvarma skjá
hann hleipti: eg réd sofna.

2. Eg svaf, en vaka virdtist mér;
(þad vitsku sýnist brestur;
því Seggir vaka, en sofa hér
þad segir okkar prestur)
og sá, hvar Hlýri daudans dýr
ad dýnu kistli skundar,
og sagdi blídt: „eg sje þad skír,
„er sorgfullur þú grundar.

3. „Þú vildir ørløg vita þín,
„og vina máské líka
„á þessu ári. Þar í mín
„er þjóðkunn mentin ríka;
„því eptir spámenn ónitir
„frá ydur reknir vóru,
„eg nú til baka ordinn er,
„mér allir treysta fóru."
4. Hann stórum speigli varpa vann
úr vídum lafa hlødum:
eg þóktist gjørla þekkja hann,
frá því á Bessastødum,
hvar seldur var, og þeinkti því;
þú helst til ert of grófur!
já! þú skalt komast klemmu í!
já! karlinn! ertu þjófur?
5. Hann reiddist lítt (þad ljóst eg fann)
og lét svo ordin falla:
„þér serbókstafa megid mann
„mig øllum fremri kalla,
„Kóngur og Þjófur þad eg er,
„og þykir skømm ei vera;
„í túkthús þú ei tredur mér,
„þar torf og grjót ad bera.
6. „Eg stýri nott: hver stjarna má,
„ad straungu bodi hoppa:

„og undirsáta álit þá,
„um myrkra tíd, er kroppa:
„ad straffa er eg ekki spar,
„ef þeir ei fela nenna:
„þad eru strákar, staffkallar
„þeir Stóru fríir renna.
7. „En eigi leingur hyrdi eg hér
„af hreisti minni gorta:
„þad vissast merki optast er
„á þeim, er dygdir skorta.
„Lít þú í spakan speigil nú,
„og spyr þitt lánid ríka;
„en ekki mér álasa þú,
„þó allt ei gjøri líka."
8. Eg leit, og sá: hvad? sjálfan mig,
(sannlega vard eg hissa)
eg haltradi á hálum stig,
og hugdi fóta missa.
Ei vil eg rekja ordum meir,
þá óláns gøtu laungu;
eg skékin var, sem veikur reir,
af vedri mótgángs straungu.
9. Mín sá eg ní og fornu feil,
foreldra mædu stunda;
mér sýndist stodin vina veil;
vandsókt til herra funda.

En sídst kom mikill flokkur fram,
er frá verd meir ad segja;
hverr þeirra hundstrín hafa nam,
og hátt í lopt réd geia.

10. Ur grettu tríni túnga lá,
(ef túngu mætti kalla)
lík kúa hala, síd ad sjá,
sett broddum mjúkum valla;
eitt refa skott þar skýldi lær,
frá skauti mjúku kjóla;
med lymsku sáust kattar klær
úr kofum yljar róla.

11. Svo ørg ei held eg géfist grei
í geim, á jørd, né hædum;
og herra Klím hann hefir þau ei
í hans undjardar skrædum.
Eg þóktist bidja blundinn senn,
mér byrta meiníng sína;
og svarid vard; „bakmælis menn
„hér máttu líta þína.

12. „Sem hundar gélta ødrum ad,
„ef eitthvad frá ad vinni,
„og kjósa festa klær í þad,
„sem køttur í gjæruskinni;
„jafnskitna óska alla sér,
„því er sá baulu hali;

„en refaskottid augljóst er
„ódygd, og flærd, og kali.

13. „En þó þú vitir þetta allt,
„(hann þuldi rædu móda),
„umflía samt þad eigi skalt,
„því ørløgin svo bjóda;
„en vittu samt, þú ekki ert
„einasti lánleysíngur;
„minn speigill skal þér byrta bert
„ad bølid fleiri stíngur."

14. Nú sýndi galdra glerid mér,
einn gildann Fólknárúnga,
audæfum þó hann safni sér,
hann sat vid hyggju þúnga;
hann vildi nafn sitt særi á flakk,
og frægd um heima alla;
hann blés sig upp og í því sprakk,
þad aungir søknud kalla.

15. Svartklæddan líka leit eg mann,
er líknar flutti dóma;
hann vissi réttan veg, og rann;
en vasa hafdi tóma;
forsmádur því af flestum var,
um flest þeir hádíng stíma;
hann sára hrigd í hjarta bar,
og hlaut ei gledi tíma.

16. Einn bónda fyrir augu þá
ort berast svefn mér lætur,
hans líf var vasid þúngri þrá
og þrældóm dag og nætur;
því meir hann vann, því minna fékk
af Mammóns fridum gjædum;
hálfdrepinn sídst til grafar gékk,
gjørrúinn sæmd og klædum.

17. Nú sá eg loksins ýngling einn,
er hélt á fullu staupi,
sat á hans skauti Svanni hreinn,
sidbúin jøtna raupi.
Hann saung, og drakk, og kysti kátt,
kjærleikans bundinn armi,
ræddi um ást og elsku mátt,
og audgrund þrísti' ad barmi.

18. Hún var svo blíd sem sælust sól
í sumar bjørtu heidi.
Eg þeinkti: hér er heilla ból,
og hrigda svartra eidi,
ánægju bú, því elskan hér
er hreinni dygd samferda:
ad augabliki ódu mér
þó annad sýndist verda.

19. Því mest þá ástin beggja brann,
sem blossar nædu samau,

og braka hærst í vörum vamm,
sem voru af eldi framan;
þar brádust stanpa skédi skúr,
er skall yfir þau bædi,
því mjödur hvolfdist allur úr,
og áféll beggja klædi.

20. Þau þutu bædi upp med óp,
og ordin vond sízt spördu,
hún kalladi hann gikk og glóp,
hann gaf henni meidslin hördu.
Vinàttan forn, og vellyst blíd
nú vard sem úlfa glaumur:
tóm heyrdust brixli, högg, og níd:
eg hrökk upp: allt var draumur.

---

2.

1. Styttist dagur, — styttist yndi,
stirdnar hagur, kólnar lyndi,
gledin flýgur skökk med skyndi;
skraut og segurd eydast:
Löndin mér leidast!
mótlætis í sjó eg syndi,
sokkinu er eg nærri.
Betur eg hédan burtu kominn væri!

2. Lukkan best þá leikur blída,

og lofar gledi skémtan fríða,
svikul hjartað særir kvíða,
og sorgum myrðir greiðast,
Løndin mér leiðast!
af henni því einginn lýða,
sig æsi lánga stæri.
Betur eg héðan burtu kominn væri!!!

---

### 3. Loka helræði.

1. Hlíð þú, minn sonur! á heilnæm ráð
og gá,
og lát þau aldrei úr minni máð
þér frá!
á jørðu muntu þá lifa leingi,
í lukku blíðasta sumar geingi;
hæð eigi, hvað segi,
en hugsaðu, þetta svo vera meigi!
„ó! já!"

2. Sjáirðu høfðíngja einhvørn einn
lángt frá;
gríp hattinn; veslíngur! vertu seinn
ei þá,
og haltu þér fyrir aptan enda;
en aldrei mátt honum rumpinn venda
svo þeigðu; þig beigðu;

med þræla viðmóti bljúgt til hans eygðu
„já! já!"

3. Ef herrann kallar af hárri náð
þig á;
svo vit, hann hefir þig vald og ráð,
að flá;
auðmjúkur drag þig á øðrum fæti,
en aktu hinum svo lángs að stræti:
beig hausinn; byrg dausinn;
þau burðugu þeigjandi hlíð á rausin
„já! já!"

4. Kémst ykkur dálítið orða kryt
upp hjá,
í engu orði hans verður vit
að sjá,
og ber það áfram sem bøðlar plaga;
svo ber þig, hlustirnar undir laga.
Mæl: herra! minn herra!
mín meiníng er vitlaus, og því er verra!
„já! já!"

5. Ef eitthvað falar hans ágirnd þér
í frá,
til dæmis: kýr, eða klára, smér
og há;
þá máttu þeinkja, þú ekkért eigir;
því allt er hans; er því skyldt, að seigir:

ó! takid, og rakid
allt saman, sem þóknast, og til ei slakid!
„já! já!"

6\. Ef verdur skyssa þér einhvør á,
þó smá;
þú rætist upp med hans reidi ljá,
sem strá:
á gólfid fyrir hann flatt þig legdu,
fórnadu høndum í lopt, og segdu:
mér vægid! bøl bægid!
minn blessadi Drottinn! æ! reidi lægid!
„já! já!"

7\. Ef viltu høfdíngjans vild og ást
þér ná:
stórgjøfum ætla' eg allra skást,
ad sá:
á ári til hans einn reidhest rektu,
reidtýi føgur, og seigja, þekktu:
hér! eigid hest-grejid!
og honum til jafns med mér rída meigid!
„já! já!"

8\. Ver þig, ad kveikja svo raman róg
sem má,
og ljúgdu, hafirdu hvørgi nóg,
ad strá.
Med synda annara saur afmádu,

sem sápu, íllvirki þín og tjáðu:
hvað geingur hér, dreingur
nú hefir ei samvitsku, bera leingur.
„já! já!"

9\. Allt hvað hann skipar þér yfir jørð
og á,
hvørt rétt er, ellegar óløg hørð,
að sjá;
umþeinkíng taktu þér ætíð stutta,
því eins og hundurinn lát þér trutta,
í hælinn ófælinn
á øllum, hann skipar, set góma nælin.
„já já!"

10\. Við hvern mann vinlægur vertu út:
í frá,
og tæmdu honum þinn tóbaks kút,
og tjá:
æ! hvernin lifirðu? heilla bróðir!
mitt hjarta kjæta svo vinir góðir,
lát kossa fleus fossa,
af falsi þeim ganta í veðrið hossa
„já! já!"

11\. Ef hluta gjøra kann einhver einn
þinn á,
misþokka láttu ei merkjast neinn
þér hjá;

en byrg þú hatrid í brjósti þínu;
ber þig, ad hugsa upp rádin sínu,
þín hefna, helst stefna
í hættu og skømm þínum óvin gésna·
„já! já!"

12. Ur brjósti otadu allri trygd
þér frá;
offæktu alla um breida bygd
þér hjá;
ef skotid hæfir þinn skyldu bródur;
til ský́a hefst upp þinn mannords hródur:
rækt fleigdu, á tál teigdu,
med róunni útúr þér sjálfum smeigdu,
„já! já!"

13. J tali daglegu temdu þér,
list þá,
(því Lævís henni hann Lucifer
kom á:)
sem greidast Biblíu greinum sletta;
gudræknin sé þér ad skýlu pretta.
A skálks belgi, skinhelgi
best skartar, þig aldrei vid henni velgi;
„já! já!

14. J rædu varastu vera hreinn;
því þá,
ei klókur verda skal virda neinn

þér á;
og haldinn verdurdu hyggnis madur,
sem hugsar meira enn fleiprings þvadur,
því grunda, þad stunda,
þinn munnur sé jafnan eitt hús Vølundar
„já! já!"
15. Í máli skulirdu dæma dóm
drótt hjá;
þér skiptu aldrei um réttan róm
því á;
en lát allt flakka sem vøbmin veltist,
varastu pýngja þín ekki sveltist;
med þúngum því púngum
þú þarft Yfirréttar ei kvída túngum
„já! já!"
16. Í allra slettu þér manna mál,
og sjá;
ad nægast verdi af neista bál
þeim hjá;
þess eina huga þeim ødrum segdu,
og aldrei svo yfir neinu þegdu;
þig vara, vél spara
og vertu ein eilífleg hræriþvara:
„já! já!"
17. Ef einhver sínum vill eymdum frá
þér tjá,

og gyrnist, hjálp edur huggun fá
þér hjá;
þá láttu einsog þín idur bresti,
hans aumka sárlega gjæfu lesti;
en mædu hans hlædu
í hóp þinn, og brúkadu skympis rædu.
já! já!"

18. Képp þú, hid frekasta fátækan
ad slá,
hyrd ei, þó grátandi gángi hann
þér frá:
á honum áttu þad upp ad vinna,
allt, sem þeir mektugu frá þér ginna:
þá smærri þeir stærri
ad þorskarnir svelgi, er lagi nærri.
„já! já!"

19. Aldreigi hugsadu annan heim
uppá;
þad máské ángurs þér kynni keim
ad slá.
Gled þig, ad náúngar seinast seigja:
„sá sæli høfdingi nú réd deya,"
og rakki á flakki[1]

---

[1]) þ. e. hundarnir munu, ad gøfugum fornmanna sid, gjøra pílagríms ferd ad þinni grøf, og setja þér þar til æ=varandi minníngar eitt verdugt sorgar monument.

mun á þína grøf hlada minnis stakki
æ! já!"

---

## 4. Greifinn í Lodkápunni.

1. Eg skal segja þér eina søgu,
og henni snúa hægt í bøgu,
þad ef girnist þjódin glød;
og ef géfur dropa ad drekka
dæstum ljódasmidi þekka,
Fjølnis vína, frá Gunnlød.

2. Þad var einusinni, (svona
søgurnar byrja, þad eg vona
eptir gódum gømlum stíl),
í útløndum einn gøfigur Greifi,
glæstu skrýddur Drakons reifi;
hann vil eg skíra Holophil.

3. Hann var ríkur: hann átti audinn,
Uxa, Hesta, Skip og Saudinn,
Handarjøkul, og Hrannarglans,
hérmed átti hann ennþá meira,
sem alla furda mun, ad heyra,
þad voru ótal þúsund manns.

4. Oþørf (kalla eg) eign var þessi:
eg þig heyri, seigja, Bessi!
ad gjøra børn þín lund er løt.

Þú gledst hluti umfram alla,
ef þinn Drottinn vildi kalla
børn, sem þurfa fædi og føt.

5. En hér var ei því máli ad mæla
minn um herra Greifann sæla,
sem þann ríkdóm gjæfan gaf.
Því þó hann ætti menn svo marga,
mundi hann eingum krásum farga,
sínu bordi eigin af.

6. En nú vil eg, med ljúfu leyfi,
læra þig, hvad sé einn Greifi;
slíkir ei vída vara hér:
þad er ekki Hrafn né Hvalur,
Hákall, Þorskur, Jardlús, Valur;
madur er hann eins og vér.

7. Þó — dálítid er hann annad
enn vid tveir: — þad færdu sannad,
ef þér þar til vitska vinnst:
svo vellaudugur hann vordid gétur,
til vyrdíngar þad einginn metur,
og hann sjálfur allra minnst.

8. Lands er hann Drottinn líka mesti,
svo laung er eingin mæli festi,
ad þenjist yfir þvílík lønd.
En legdu átta sýslur saman,

sjádu torfuna (það er gaman!)
sem að Greifans ganpnar hønd.

9. Hann á kinstur køppum varða
Kastala, Borgir, Lystigarða,
allt sem morar mønnum af.
Í þúsu sjer maður ekki eina
fyrir alskins gripum, hverjum beina
ljúfan mørkin græna gaf.

10. Alla fiska í øllum vøtnum
á hann; — svo ei leist er skøtnum,
ugga að fá sér uppá borð —
og eins þá fugla, um lopt er leika,
líka villidýr, sem reika
híngað og þángað hans um storð.

11. Hann á kvinnu, er kallast — Frúin,
kosta þíngum sem er búin;
Jónkar — synir heita hans.
Þá á hann dætur, það eru Fruggur,
þær framlíða hægt sem dnggur,
huldar silki og Hringafans.

12. Gjørvalt, sem einn Greifi skrafar,
gégn eru løg, og þeim án tafar
hlýða sérhver maður má:
en ef nokkur er svo leiður,
útaf að bregða, og hinn er reiður;
sekum Mákon sinni þá!

13. Því vald þig hefir hann ad berja;
á hesti trés þinn botn ad merja;
og saklausan ad setja í bønd;
venda haus ad vidhøggs' baki;
vana mundir axar kjaki
rétturinn nefnist — Háls og Hønd.

14. Af þessu held eg, ad Høldar rádi,
ad hver og einn, sem býr á ládi
þessa gøfiga Greifa manns,
sé hans eign med sál og líki,
Svanna, børnum, hjørd og ríki:
þad er ad skilja: í þrældóm hans.

15. Eitt eg verd samt, ádur ad segja
enn øllu med eg gjøri fleigja
frá mér Greifans fridri mynd:
ef sig lætur hann auma' skoda;
æran mundi stødd í voda:
þad væri líka þreføld synd!

16. Vík eg nú svo til søgunnar aptur:
sorgar dagur einn var skaptur
gømlum bónda á Greifans lód:
hjá honum voda upp kom eldur,
allur bær hans verdur seldur,
loga, sem hann gérdi ad glód.

17. Fyrst í vegginn inn sig etur,
en svo leynt, sem best hann gétur,

logi, gladur við Gumna sút:
húngradur sleikir heitum kjøptum
húsið allt að mæniræptum,
rífur þekjur, og andar út.

18. Þegar hann leikur lausum hala;
lítið er gott um hann að tala:
heyrist brak og brestir opt;
tymbur, steina, brennir, brædir,
blossinn hærst til skýa ædir;
en neistar fljúga lángt um lopt.

19. Allt þar til hann eydileggur,
innféll rjáfur; hrynur veggur;
dvergar hrapa; dettur stoð:
bramm svo upp að køldu koli
kallsins gamli mænis Boli
opt fátækum grøm eru Goð!

20. Hvørnin lifað hann mun géta?
hann fór strax til Landfógéta
Greifans sæla gótsi á.
„minn er brunninn bærinn, herra!
„bjørg ei hef (og það er verra!).
„krøkkum mínum, og konu að fá.

21. „Mér bid eg ydur hjálpa, herra!
„hrygdar døgg af kinnum þerra,
„flatur eg ydar fell að stól:
„einkum það, að herrans herra!

„í hálsjárn ei mig gjøri sperra,
„berji, høggvi, heingi í ól."
22 Til Greifans víktu ad vørmu feti,
(vægur sagdi Landfógéti
„medaumkun eg med þér hef
„sorgar þyl honum søguna alla;
„sveitann hvarma láttu falla;
„med þér skal eg skrifa bréf.
23. „Herra Greifann hefi' eg ei sjedan,
„hans á gótsi búid medan
„gét, og skyldu goldid fé.
„Hræddur er eg, hann ad líta,
„og honum eigi neinu býta;
„því ágjarn heyrdi eg, ad hann sé."
24. „Lýgi er þad" (kvad Landfógéti)
„lokkad frá eg aldrei géti
„mútupris þann prúda mann;
„fardu á stad, sem fljótast máttu,
„finna sjálfur Greifann áttu,
„þitt hann bæta bølid kann."
25. Kallinn bædi hryggur og hræddur,
hvørsdags lørfum sínum klæddur,
Greifans arkar gardi ad.
Stofa opin stár á gjætti,
Stívardur einn þar honum mætti
og vonar Greifann vera þad.

26. Inn hann geingur — ofan tekur —
ennid nidur ad gólfi rekur:
bugtid vandar, mest sem 'má.
Hinn vid 'øllu þessu þegir,
þver og drembinn hann sig reigir,
og bistur starir bóndann á.
27. Blindan ótta bóndinn elur;
burgeislegum herra selur
Landfógéta bréfid best.
Hinn þad grípur axlar ugga,
út svo hljóp med þad ad glugga,
rífur upp, og lesa léts.
28. Þegar hann hafdi lesid letrid,
leiptrudu hvøss um bónda tetrid
herrans raudu hvarma gler:
sídan bréfid sundur tætti,
seinast þarvid enn þá bætti,
ad fleiga því undir fætur sér.
29. Trampar hann, og tredur bædi;
tennur skér af miklu ædi,
hann sig skékur, og hristir mjøg.
Bóndinn hugsar af blaudum ótta,
ad best sé ad hafa sig á flótta.
hrøklast út, og heim á veg.
30. Nú ber enn þá nýtt til frétta:
nokkrum tíma eptir þetta;

Fógétinn hann fær eitt bréf,
gunstigri skráð af Ereisans hendt,
grimmt var upphaf — lakari endi; —
það fyrsta svona stóð þar stef.

P M.

31. Din Hoved Helveds Prakker!
Du har fortjent, din Skjelm! din Rakker!
Den slemme Syge, Plage og Pin:
Du Knegt mig ikke refererte,
at røden Ild min Gaard fortærte:
I Tugthus skal du, Djævelen din!

32. Undrastu ekki, bróðir Bessi!
bréf þó lík þú fáir, og þessi,
gøfigum jafnan Greisum frá;
þeir hafa valdið, það að skrifa,
og því má gjóta orða rifa,
sem þeir kjósa sjálfir á.

33. Fógétinn varð hræddur og hlessa,
honum var síst um refsíng þéssa,
sem í vændum Greifinn gaf.
Bóndann til sín biður að kalla;
brádt hann kom en gladur valla
sinna rauna rollu af.

34. Landfógéti fer, að frétta:
„fékkstu Greifanum sjálfur þetta,

„bréfid, eins og baud eg þér?
„hvert af bréfinu vard honum verra?
„viltu slíkan Gud, og Herra?
„var hann þér mildur? var hann þver?"
35. Mér líkust þókti manni mindin,
„(mælti veslings bónda kindin)
„greifi vera madur mun.
„Røggvafaldinn hrysti hrønnum,
„hnydjuvarinn gnísti tønnum;
„ber eg því hans um gjædsku grun."
36. „Bréfid mitt hann þarnæst þrífur,
„(þá vard eg ekki dyrsku rífur)
„braut upp, las, en þagdi þó; —
„tádi þad og tredur skónum;
„tirtnari miklu hélt eg Ljónum
„herrann vera; — og burt mér brá."
37. Landfógéti kvad vid kallinn:
„kom til Greifans: eg er fallinn
„med þér stærstu ónád í:
„sáran grát; og burdinn bréfa
„biddu hann ad fyrirgéfa
„hafirdu módgad hann í því."
38. Herrann svo þeir fara ad finna:
Fógéti vandar kvedju svinna,
geinginn inn í Greifans rann.
fyrir honum sig afsakar;

sönduġt gólfid fæti rakar,
reidi af sér bidur, og bann.

39. „Excellence ydar! eg sendi,
„undirdánugt bréf af hendi,
„brunans sem ad birti grand:
„þetta bréf án táls og tafa,
„tjáist nefndur bóndi ad hafa,
„ydar flutt í eigin hand.

40. „Enn þá fremur bóndinn Bense
„ber, ad ydar Exellence
„rit mitt læsud, og rifud svo.
„Leyf, eg meigi kallinn kalla,
„hann kann ítreka söguna alla;
„en höndur mínar hlít eg þvo."

41. Kallinn bodadur kom med leyfi;
kénnir hann nú, hvar stendur Greifi
já, hann átti ádur vid;
hjartad sígur sjón þá vidur;
sér hann fleigir á gólfid nidur
grátinn bæna ber fram klid.

42. „Burdugi Greifi! blessadi herra!
„brædi lát, og reidi þverra!
„veitid födur: miskun mér."
Hérmed, eins og hendi veifi
hljóp á bóndann þessi Greifi,
hárs og toppinn tæta fer.

43. Hinn tók, sárt að hljóða og æja;
Herra, drottinn bað sér vægja,
og aumri hlífa sinni sál:
en Greifinn svo sem ræntur ráði,
reykjar farið tutla náði,
liðugum ærið líkur ál.
44. Kallinn grætur, emjar, æpir,
ætlar hann dagar lífs séu tæpir,
með andvarpi mæla réð:
Þó mig kveljið, kreistið, pínið;
kérlingunni myskun sýnið,
og barna krógum mínum með.
45. Greifinn ei sínum gjørðum breitir;
grasið hnakka sundur reitir,
hraðt sem væri í ofboðs ønn
lokka fjallið leita fingur;
en lømbum hárs á síðan stingur
uppí sig, og undir tønn.
46. Greifalig var gjørð ei þessi,
(gét eg þú seigir, heilla Bessi!)
bóndans hauss að bíta — fé. —
Þinni meining mín og hyllir,
mig við slíkum réttum hryllir,
og allteins máské aðrir sé?
47. Þar fyrir skal eg þig, ei leyna
því, að Greifar lokka hreina

skjóta ei Hjarnar skógi á.
Það vóru svik af sjónar mána,
svo að loðinn Baviána
kall fyrir Greifa sjálfan sá.

48. En — Bessi! hvað er Baviáni?
brellið dýr, sem hefir að láni
margt, og gott af mennskum óð:
í flestu breytir okkur eptir,
apa — slíkir nefnast — kéttir,
en veiðast ei á vorri lóð.

49. Baviáni því að þessi,
þykir oss í gaungu, og sessi,
líkur, og ødrum látum með;
eptir flest kann oss að géra,
ætlaði kall það Greifa vera;
því hvarugan áður hafði hann séð.

50. Að sér nú ei Greifinn gétur
gjørt fyrir hlátri: — lítils metur
einfalds bónda yfirsjón:
Fógétanum varð hann vægur,
af viðurgjørðum bóndans frægur;
því Greifinn allt hans græddi tjón.

51. Mesta hefðar mark að heita
má, ef slíkir gáfur veita
børnum, konu og hjúgum hal:
þó sumir kunni sama, að géra,

samt þeir munu færri vera.
Greifans minníng gøfga skal!
52. En minn sæli, gódi Greifi!
gunstugast leyfid, ad eg hreifi,
lítt vid því, mér líst ei á;
mundi það hafa verid verra,
þó viljad hefdud, gódi herra!
optar láta ydur sjá?
53. Burdugra herra lítilæti,
laungum, frá eg, auma kjæti:
sumri líkt, og sól er það:
ydar ef hefdi Excellence
ádur sjed; — ei mundi Beuse
fyrir Dpum flatmagad. —
54. Annad svo mér ekki fellur,
(eru það kannské minar brellur,
opt eg þøgull yfir þeim bjó).
Fógétinn einn frekan pistil
fékk ad leggja í skjala kistil:
hvad mørgum þykir um og ó.
55. Enn það þridja þoli eg eigi,
það eg hreint, og beint afsegi,
í gømlum søgum sídst það les:
ad brúka fjárans Baviána,
ad beita þeim, sem undirdána,
til ad géfa gott Ades.

56. Ef ei bannadur Baviáninn,
og bannsett Apakattar smánin
bóndanum hefdi búid draum;
Fógéti hefdi' ei feingid bagann,
né flatur kallinn lagst á magann,
og Greifinn reidi ei gefid taum. -

57. Sleppid, gøfgir Greifar! vána,
geist ad fóstra Baviána,
heima flotum ydar á.
Einginn mun þá ydur taka
Apa fyrir og þannin kvaka:
„Hann ei þekti eg hinum frá!"

58. Søgu þessa eg segi á enda.
er sídst má kalla enda brenda.
Sé endinn gódur; allt er gott.
Ill fær byrjun enda gódan
opt og tídum; þad eg fródan
heyrdi sjálfur sanna vott.

---

59. Lær nú, vinur! af vísu minni,
ad verda sist frá øllu sinni,
þó Asni kallist, ellegar Naut;
þú sjer, ad Greifa sumir smána,
og segja þá vera Baviána:
sameiginleg sæt er þraut.

60. En ádur enn kved þig, bródir Þessi!
blessun mín skal vera þessi,
af søgunnar efni sem eg nam:
„Drottinn bid eg þér lengst þad lána,
„þú leggist ei fyrir Baviána
„og Apakétti flatur fram!"

---

## 5. Kvedja.

Lagid: Í Babilon vid vøtnin straung.

1. Ó! þú eilífa mildin! mest
mín túnga þig skal róma,
oss er vesæla orma lérst,
ígrunda helgidóma
þá, sem ad himnum englar á,
aldrei ad fullu skodad fá,
um eilífd ùndra géra;
því ekki nema eilífd kann
útgrunda, skoda, lofa þann,
sem ad er eilíf vera.

2. Þú veittir mønnum vitsku þá,
veg sáluhjálpar skilja;
oss gjørdir þína elsku tjá,
og eilífan fødurs vilja:
lítilsfjørleguft lægíng þín,
ljúfi Drottinn! er upphefd mín:

þú undir þrauta byrdi,
yfirgéfinn af øllum varst;
allar þú heimsins syndir barst;
einn svo eg aldrei yrdi.

3. Hvør mannleg túnga megna kann,
þá mildi verdugt prísa,
og gjædsku þel, sem Gud og mann
gjørdi oss þýndur vísa?
fridþægdi oss vid Fødur sinn,
fékk oss í arfleifd himininn
dal fyrir eymdarinnar:
þad hid blessada brand og vín
býdur hann oss ad létti pín,
í minníng elsku sinnar.

4. Því allar þjódir øll um lønd!
vorn elskuríka bródur,
vegsami, prísi ydar ønd,
er var svo hjartans gódur!
sambandi, kristnir! andans í
aldreigi skulum gleyma því,
ad frid útløgum færdi:
innbyrdis skal vor ørugg ást
hjá øllum heimsins þjódum sjást,
sem hann oss sjálfur lærdi.

5. En Þú, sem ad mér Gud minn gaf
ad gledi, hjálp og rádum!

Þú, sem Guð tók mér aptur af
og eilífum gjæddi náðum,
hvað sem að þér til handa bar;
í herrans píslar søgu var
yndi þitt, alltíð vísa:
nú lifir þú við lambsins trón,
þín laungun saddist: helgum tón
lausnarann ljúft að prísa.

6\. Þú til þess vildir ætla, að
útleggíng Fresens þægði
munnur þinn, jafnan blíður bað,
boð Jesú að eg frægði
til bræðra og systra sálar gagns,
og sannrar Kristi trúar magns:
þess hef eg þráð að minnast:
mér auðnast nú í eymdar dal
ávarpa þig í dýrðar sal,
hvar fegin munum finnast.

G. Pétursson.

Sýslumaður, bróðir Skáldsins.

## 6.

Yfirſkrift yfir þeſsu Kvædi er:

## Pro Patria.

Fleiri eiga bágt en Bjarni.

1. Andſkotinn af reidi rær,
raudum gníſtir tønnunum;
um ſig bítur, ber og ſlær
bølva djøflar hønum.

2. Einn nam púkinn anſa þá
elds med ſleginn brandi;
hvar fyrir liggur ílla á?
ydur, herra fjandi!

3. Svara gjørdi Satan ſkjótt:
ſótmóraudur í framan;
Jslands heljar-hunda-drótt,
hendir ad mér gaman.

4. Oſs þeir ſtórum yfirgá
í allra dygda blaki;
dugi' eg ei vid dólga þá
dottinn er eg af baki.

5. Ekki minn í vondſku var,
og vømmum nokkur líki;
en argar þjódir íslendſkar
oru[1] ſteypa ríki.

---

1) oru, ſama ſem: voru.

6. Vondsku mergd og vélin øll,
vond oss þeirra stiggja;
þeir reka oss úr Herjar høll,
hvar er þá ad byggja?
7. Sín á milli semja róg,
svika vafdir stakki,
ósamlyndid' er í því nóg,
ólukkunnar pakki.
8. Ord fékk púkinn aptur sendt,
augun blódraud hvessti:
þér hafid fadir! þessa kénnt,
þeim í fyrstu lesti.
9. Mælti drekinn módu háls,
myrkra bundinn hapti:
þad er lýgi, þinn í háls,
þrællinn, haltu kjapti.
10. Hér þegar kémur þræla þý
þá er ei vært ad búa;
hédan er best ad halda því,
en, hvørt skulum vér oss snúa?
11. Eitt er þad eg óttast má
ef, á hreppinn drøgum;
ad eg dæmunst íslendsku á,
eptir Norsku løgum.
12. Þá mun okkar þýngjast kvøl;
þá mun fjølga pínum.

Á eg slíkt ad eiga bøl
í aldurdómi mínum?

13. Herra! verid hughraustir,
hrópadi púkinn brádur,
einusinni vorum vér,
villir húsa ádur.

14. Vid' høfd'um ei leingi hrakníngum;
hleyptum grísum saman,
reidskjóta fékk sérhvør sinn,
sýndt var þetta gaman.

15. Jølland medan uppi er
alþakid med svínum.
Hús vant ekki held eg þér,
handa, vinum þínum.

16. Oss þó dugad djøflunum
dýkid hafi brennu,
gánga mun af gøblunum
vid Grímseyínga Sennu.

17. Ef svo takid aptur þér
eyddan vítis klefa.
Álag meiga íslendskir,
ydur nokkud géfa.

18. En ef viljid ekki þad,
upp ad nýu géra;
til auktiónar strax í stad
stefnid fólki, herra!

19. Þekki' eg einn er þenna kann
þarfa ydur vinna;
auktión skal halda hann,
høfud : bóla þinna.

20. Þá hrekkvís starfad hefur þad;
Hlunna beitir svína;
Gissur miklum gjørdu' hann ad
og gefdu honum, dóttur þína!

21. Inn í vítis heitu høll,
held eg best hann flytji,
géfin Orma : eysu : þoll,
ydur næstur sitji.

22. Ad púkanum Satan reidur rauk,
med rapti í hann lagdi,
svidna skéggid sídan strauk,
settist nidur, og þagdi.

23. Opnadi púkinn ginid grátt,
gufa rauk úr kjapti;
sídan orgadi hann svo hátt,
ad hvein í vítis rapti,

24. Andskotinn med andlit grett,
vid árann trúi' eg rædi;
þegidu sonur! þú hefir rétt:
þig sló eg í brædi.

---

## 7. Amicitiæ Laudes.

1. Sá, veraldar herra! armur er
engan sem vin ad hefir sér;
þó ad veraldar vídan rann,
vin gjæfir fyrir trúfastan;
vænstur ábati væri þad,
vel hefdir þú þá kaupslagad;
øll Perus miklu audæfi,
eru vid hann, sem hégómi.

2. En ef þér giptist gjæfa sú,
gagnreyndan vin ad fáir þú;
læstu hann til þíns hjarta hart
høndladu' í fyrstu med hann vart,
en þegar dygd hans er þér kénd,
allri kostgjæfni þángad vend,
ad límist vid þína saman sál
vid sidferdi gott og einlægt mál.

3. Járnreipum sterkum reyra mátt,
rammlega, svo á engan hátt,
géti burtþokad sídan sér,
sé hann læstur ad hjarta þér;
en hlut samt, vinur! varast þú,
ef viltu til drómans setja trú;
gylla hann sist né sylfra má,
svíkur þad mest nær reynir á.

## 8. Dæmisaga.

1. Í Eddu minni er þad skráð,
ei þarf lángt ad fara;
ad heiptinn svall um sinnu láð,
sonar [1] Mundil fara.

2. Orsøkin var ærid ljót,
einginn má því neita,
hundar spotti honum í mót
høfdu gjørt ad beita.

3. Hans sídur yfir hefndar gall,
heimta fýsir bætur;
sinnar kløgunar sárast spjall
semja þegar lætur.

4. Altsaman þad ordrétt géfst
Odni sendt til handa;
P. M. stendur allra efst,
eptir gømlum vanda.

5. Segir hann: Hundar spott og spé,
spýi, og ilum ljótum
ausi sitt í andliti,
á aptur standi fótum.

6. Aldrei fái hann frid né ró
fyrir gjálfri Hunda;

[1]) Túngl.

hann ei viti hvar á þó
hatur slíkt þeir grunda.

7. Hlidskjálfs bidur hann hilmir því,
hegníng gørmum vinna;
ad maklega gjaldi eymdum í
íllsku verka sinna.

8. Undirskrifar eptir þad:
aptur skjali læsir;
Hniki fær og fer af stad
finnur hann Braga ræsir.

9. Fjølsvid þegar fær í tal,
fagurmæli vefur,
og merkilegan Memorial
í mundu. honum géfur.

10. Odinn tregur ekki var,
upp hann skjali lýkur;
med undran les og íhugar,
ákast skéggid strýkur.

11. Þad nær leingi hafdi hann
hvarma kannad báli;
úrskurd slíkan veita vann
í vanda fengnu máli.

12. Bøldin þaug og vyrdíngar
veittar hef eg Mána;
ad eigi þarf ad óttast par
íl og gjálfur kána.

13. Látum góla garma þá,
grýtta jørd uppsparka;
til launa munu fantar fá
fullan ræmi barka.

14. Heimskan slíkt þeim hefir kénnt
hædum mót ad standa;
fyrr skulu rírir rifna í tvennt
en rati Máni í vanda.

15. Hyrdi' eg ei ad hyrta þá
fyrir heimsku géltid ljóta;
flestir munu Fyrdar sjá
fíblsku géltid ljóta.

---

## 9. Dæmisaga.

1. Hafdi leingi lifad Jón,
lasta stokkinn hreti;
ellin bleika beigdi þjón,
og batt, ad sængur fleti.

2. Fátækur var fadir hans,
med frómum hvarma skyldi;
klára skélfir Skaparans
skikkan hlýda vildi.

3. Sonurinn á Satans rann,
svika fullum vegi;

ad mæda sína módur hann
hid minnsta spardi eigi.

4. Loksins kom ad lífid svart
lék á veikum þrædi;
heimsins átti skilja skart
en skammar fylgdi ædi.

5. Blódid kinnum flúdi frá
følnar mundin glæsta;
í høfdi augun stúrin stá,
stird og døpur næsta.

6. Limir kólna eins og ís,
opnast vara mynni;
túngan føst vid tennur frís
trublast sans og minni.

7. Høfud eigi hræra kann,
hjartad tekur sofa;
tregla blódid rauda rann,
rýma sál vill kofa.

8. Midt í daudans hardri hríd
hriggur gjørdi líta:
Satan og hans svarta lýd
sér ad rúmi flýta.

9. Póktist vita þad eitt hann
þeirra flasi valda;
ad hans þeir vildu í heljar rann
hafa sálu kvalda.

10. Ognar honum eilíf pín
um hana fyrr ei sætti;
syndir grætur, harmar, hrín,
og hrópar af veikum mætti.

11. „O þú mikli Michael!
„miskun veittu þrjóti;
„deyandi mér dugdu vel
„dreka vítis móti."

12. „Sálar traust eg set á þig,
„syndir hjartad naga;
„høfud engill! haltu' 'í mig,
„þá hinir nidur draga."

13. Engill kom þar vitur og vænn
vængi fagra hafdi;
hvítur, raudur, gulur og grænn,
sig geisli um hann vafdi.

14. Sviphardur vid sængur mann
svo fékk rædu búna:
„Eg skal gjøra allt hvad kann
„en ekkért má eg núna."

15. „Þú hefir syndum anad' í
„allt ad dauda stundu;
„er nú seint ad ydrast því,
„illsku breita lundu."

16. „Hrædist eg, hvad heimskan manns,
„hold og blindni veika,

„að ydrast géti glæpa hans
„ í greipum daudans bleika.

17. „Ef í lasta geingur glaum,
„ad grafar hriggum bakka;
„hvør ein meinar mannkind aum,
„miskun Guds ad smakka."

18. „Þó audi safnad hafir hér
„og hann þér vyrdist sætur;
„Milding himna múta sér
„manna børn ei lætur."

19. „Ødlings sólar aldrei þver,
„elsku mildin ríka;
„hans réttlæti og svo er
„eilíft þann veg líka."

20. „Þeim sem herrann hefir lént
„heidur og vyrding mjúka;
„þeim er einnig þar med kénnt
„þetta, rétt ad brúka.

21. „Ef svo ødrum brugga bøl
„blekkir synda grómi:
„þá mun verda þeirra kvøl
„þúng, á efsta dómi."

22. Engill fékk svo ordum breitt,
vid eydir grátinn Fleina;
frá honum sídan geingur greidt
og gaf ei huggun neina.

23. Til himna þegar, hæða fló,
hvadan vængir dundu;
sinni Jón út sálu spjó
seldist hamur grundu.

---

## 10. Skollans Apaspil.

1. Að Drottins rétt sé rækallinn
einn reidubúinn api
það er stadfastur þánki minn:
það flestum býr í skapi;
en þegar hann ei herma má
Guds handaverkum eptir:
hann lætst þau bæta þurfa þá,
þeir skollar eru vestir.
2. Gud Adam fyrst og Evu skóp
þau ekta tengdi bandi
í elsku, tími hverr einn hljóp
í heilagleikans standi:
„Þid sjáid illa, Satan tjer
„med sinni heldur fláu,
„það lækna skal, hér epli er."
Þau átu, blygdan sáu.
3. Nú Adam fór ad eiga börn
med ástar súsum Svanna,
innbyrdis voru elskugjörn

og yndi foreldranna;
„vid ósamþykki," Kølski kvad,
„skal konstra vaxa gródur,"
hann Kain púdri kíngja bad,
og Kain drap sinn bródur.

4. Einn hitti sínum hagleik af
þan hørdu járnverkfæri,
einn busa Adam okkar gaf
og Evu fálleg skjæri;
þad sá, og mælti Skolli, eg skal
einn skeink Hr. Kain færa
banvænan smídar dírumdal
ad drepa menn og særa.

5. Í løstum tók ad þróast þjód
og þrauta ágáng sína,
Gud sendi þá sitt syndaflód
þeim svarta hóp ad tína
strax, Skollinn kvad: minn kakalón
eg kynda skál hvervetna:
Hekla gaus eldi fast um frón
því fylgdi Vesuv: Ætna.

6. Gud bygdi stórt og stødugt skip
er stódst í vatna grúa
mannfjølda bar og margan grip
þar mátti óhult búa
„þad er of kostbart, fátækt flest

er fólk," var rómur Skolla;
af medaumkvan því minda létst
þá manndráps sílis bolla.

7. Mannkynsins eymd og mikla naud
sá, mildur fadirinn ríki
vínþrúgunum því vaxa baud
til vidhalds sál og líki;
nú gripur rádin Satan sín
og setur pott á hlódir,
hid spanska bjó til brennuvín,
sem brædur þekkja gódir.

8. Og herrann lét í húngursnaud
frá himnum Manna falla,
þad var svo sætt sem sætabraud
og saddi víf og kalla;
„tómt braud er kraptlaust, Kølski tjer,
án kjøts," því herinn trúdi,
hann beidist kjøts og borda fer
til bana, øllu spúdi.

9. Dómara fékk nú Drottinn sett,
ad dæma rétt frá raungu,
svo frómir kynnu fá sinn rétt,
en fantar hegníng straungu;
„Løg eru hørd, kvad Lucifer,
en leidt ad naga hnútu,

þú skélmir! frid því festu þér
og fánga rétt med mútu."

10. Gud yfirrétta géfur fús,
ad greida flækjur allar,
svo megi fá eitt Melius
sá máli réttu hallar;
sú vinstri skoli hægri hønd,"
svo hljódar skolla gaman,
„gjøf er og tengdir bestu bønd,
„sem bendla rétti saman."

---

## 11.

1. Heimsspekínga hvar til er
ad herma tølu alla;
sína kreddu høfdu hvør,
hæli' eg neinni, valla!

2. Einn því belgja vatnid vann,
vafinn sút og kvída:
þefinn víns ei þekti hann,
né þrúgu sveitann blída.

3. Bæli tunnu, annar í,
íllt og kalt sér valdi;
gamnid undir þýdum því
þekti' ei sængur-faldi.

4. Sá þridji fordast Falda ná,
sem fárid heljar ranna;
hlaut hann aldrei heppni þá
híran fadma svanna.

5. Slíkt ef vitsku høldum hjá,
heilagt nafn skal fánga;
vitlaus helst eg vildi þá
vera æfi lánga

6. Mínar þori eg meiníngar
mønnum fram ad bera;
Heimsspekíngar og Heimskíngjar
held eg sama vera.

# II.

# Gaman og Drykkju Kvædi.

---

## 1. Evans Messa.

1. AS! nú er gaman og gledi ný;
hell á!
því Evan stólinn vill stíga í;
hell á!
kórdjáknar hans skulu hradir byrja,
med hárri, Gloria, roddu kyrja.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupid, skeink aptur,
drekk út!

2. Hans stóll er klárum af kristalli;
hell á!
og hans er gaman ad gudspjalli;
hell á!
„hvern sem hér þyrstir hann dropann drekki,
„djarft komi til mín, hann kostar ekki."
Drekk út, skeink aptur,

tæm staupid, skeink aptur,
drekk út!

3. Og Exordíum var ærid gott;
hell á!
hann synda talad' um trúan þvott;
hell á!
„mín sól upprennur eins yfir alla
„audga, fátæka, samt børn og kalla".
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupid, skeink aptur,
drekk út!

4. Utleggíng þókti mér einka best;
hell á!
ad henni gaum skulum géfa mest;
hell á!
hann øllum kjærleikann kéndi bera,
og kvad hann Bodorda-sylling vera.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupid, skeink aptur,
drekk út!

5. Hann og eg kathekísera sá;
hell á!
í hverju atridi lærdómur lá;
hell á!
hann mælti: af vinur vín' er dregid,
eg veit, ad þér allir amen segid.

Drekk út, skeink aptur,
tæm staupid, skeink aptur,
drekk út!

6. En djáknar sátu á breidum bekk;
hell á!
útgaungu sálmurinn gladast gékk;
hell á!
þeir barkann smyrja, og brennt vín súpa,
á báda hnjákolla nidur krjúpa.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupid, skeink aptur,
drekk út!

7. Og heidrum Evan á hærsta trón;
hell á!
hann skapar gaman, og skérpir sjón;
hell á!
í krapti látum oss andans alla
þann ædsta gledinnar fødur ákalla.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupid, skeink aptur,
drekk út!

8. En vér sem erum hans sóknar hjú;
hell á!
og høsum Evani heitid trú;
hell á!
gjørvallir skulum vér greidt úthríngja

og gløsum skúmandi saman klíngja.
Drekk út, skeink aptur,
tæm staupid, skeink aptur,
drekk út!

---

## 2. Berserkirnir.[1]

(Kvædid er ort í Kaupmannahøfn.)

1. Herbergi áttu Høldar tveir
þar Hilmir bjó;
en saman ekki sváfu þeir
því sæng var mjó.
Í kistu annar kaus sinn dúr,
og klædi slutt;
en gaflinn braut hann allan úr;
því of — var stutt. —
En píkurnar lúra uppá Luntann![2]

---

[1]) Berserkur gétur ei annad verid: enn sá sem er fæddur á Bjarnarfeldi; því allir vita, hvada náttúra fylgir þeim: géta þeir geingid bersættir á lánga þorra, hvert sem vilja; þarf því hverki grísku né hebresku vid ad útskíra ordsins fyrstu merkingu: hér sýnist þad annars ad þýda þann, sem er Serk=berr edur skirtulaus. [2]) At lure paa Lunten: er eitt danskt ordtak, og merkir þann, sem bædi er adgjætinn og þarhjá grunsamur. Lunti er logandi brandur sem borinn er ad fallbyssuna fýrgati, *sat. sap.*

2. Pad skédi milda morgun stund,
hvar mælt' eg fyrr,
ad seggir slitu blídan blund
vid bardar dyr.
Nú mest, hverr sætur meigi á,
þeir metast um,
því kroppur beggja berr hér lá
í beddunum
En píkurnar lúra uppá Luntann!

3. Sá elsti um síd á fætur fór
med fýlu sprett,
hann vødva gyldur var, og stór
og vaxinn þétt.
Hann huxar, þræll sinn þetta sé,
og því stód ber;
úr lásnum mjúkast mellunni
nú mida fer.
En píkurnar lúra uppá Luntann!

4. Nú hurdin greidt úr gjættum spratt;
en géstur kom;
vid þetta brá þó bísna flatt
þeim herra vom.
Hann sá framsigla silki gná
ad sængur bás;
sem hardast aptur hurdin þá

réd hlaupa í lás.
En píkurnar lúra uppá Luntann!
5. Sem Lyljan hvít var Linda rós;
um lífid mjó;
ástbrellin hafdi brúna ljós,
og blídast hló;
gudvefjar blæum brjóst og koll
hún byrgdi sinn.
Slíkt nakinn fyrir fleina þoll
var freistni stinn.
Því píkurnar lúra uppá Luntann!
6. Hún þegar líta fékk nú fyrst
þann fatlaus stód,
sín augu byrgdi refla Rist,
og rak upp hljód;
en fýsir augu íllt ad sjá:
hér eins gékk til;
því greipar sundur greida þá
gékk skjótt í vil.
Því píkurnar lúra uppá Luntann!
7. „Hvad vill hún, blessud"? blídast kvad,
sá berri mann,
og henni feti einu ad
sér íta vann;
en vinstri hendi héllt hann þar
og hardt fékk þríst,

sem Adam fíkju bladid bar,
þá braut hann fyrst [1]
Því píkurnar lúra uppá Luntann!

8. „Eg skyldi beida" Skjallda ná
med skélk frambar.
„Já! hún skal, blessud feiginn fá"
hinn slutti svar.
Við þetta hjal þar heirdist skrøllt
og hávadi;
því Kaudinn hinn var kominn á brølt
í kistunni.
En píkurnar lúra uppá Luntann!

9. Sá gamli ei lét hann liggja í ró,
og listin kjær,
hann girntist sjá, hver þessi þó
var þýdust Mær.
Ei kistan leingur falid fær
sinn fólgna grip;
hann lokid opnar, upp því slær
med ógna svip.
En píkurnar lúra uppá Lúntann!

10. Nú tók ei dáma tródu gulls
þau tákn, er ské,

[1]) Þessi stadur, sem eigi er svo hægt ad koma ordum ad, útskýrist best á altaris Tøblum og ødru málverki hjónanna Adams og Evu.

Því hugsa gjørdi Fljóð til fulls
hér fjandinn sé.
Einn annan karlmann kjæran sá
úr kistu spratt,
hún óttaslegin æpti þá,
í aungvit datt.
Því pikurnar lúra uppá Luntann!

11. Sú fyrsta Hetja hana tók
á hendur sín,
og røskur að sínu rúmi ók
að rjeni pín.
En eptir liðna stutta stund
á stirðum beð,
vanmáttug upp af vondum blund
hún vakna réð.
Því pikurnar lúra uppá Luntann!

12. Hún augum mændi upp, og leit
alsberan svein,
við sinn að standa sængur reit
á sagða grein:
tvístíga kistu annan í
sem eins var berr;
nú herða sig hún þeinkir því
og hann veg tjer:
En pikurnar lúra uppá Luntann!

„Þér syndafalls hér synir tveir [1]
„mér seigid bert,
„hvört ofbjóda mér ætlid meir,
„enn hafid gért.
„Eg, ykkar þerna, audmjúk bid
„mér eyru ljá,
„ad meigi eg gánga greidt í frid
„frá Sómmorrá.“ [2]

13. Hún spratt á fót, og flýtti sér,
og sokreid kvad:
„í skilnad bid eg skollann hér
„minn skipa stad!
„síst ógnar mér, þó einn sé berr
„med íllsku sid;
„en tvo í senn ei treysti' eg mér
„ad tuskast vid.“ [3]
Því píkurnar lúra uppá Luntann!

---

[1]) Mun eiga ad skiljast fyrir berra menn, því allir munum vér meiga kallast syndarinnar þrælar, og væri þá ekkért uppnefni, ad vera hennar sonur. [2]) Annadhvört er þetta talad í ógáti reidinnar, edur brjáli óttans, ellegar og hér af má þad ljósast læra, ad menn Gomorræ hafi geingid naktir eda og léttklæddir. [3]) Þó hún væri kvennskortíngur, sem hennar ord sýna, þá sannast hér þó hid fornkvedna: ad einginn má vid margnum — og Danir kveda svo:' Een imod Een; men To imod Fanden.

14\. Oss sagan lærir sídst ófród
þá sannleiks grein:
ad vidbúin sé vitur þjód
ad varast mein.
Um daga hrottann hafa því
hálf dreginn átt,[1]
og brynjum lérefts liggja í
um lymska nátt.
Því píkurnar lúra uppá Luntann!

15\. En þú, sem veika kallast kér
og króna manns!
einsømul voga ekki þér
í okkar fans,
því sem vid lømb er ljúf til meins
launsætin ørn,
svo reinast synir Adams eins
vid Evu børn.
Æ! lúrid því píkur á Luntann!

---

[1]) Þegar Egill Skallagrímsson var þess víss ordinn ad bródir hans væri fallinn í bardaga á Englandi og var settstur á bekk í høllinni, lét hann sverd sitt liggja á knjám sér, dró jafnan úr til hálfs og skeldi í aptur: gjørdi hann þetta líklega annadhvert til þess ad hann hafdi illt í huga, edur og til varúdar, ef einhver kynni á hann ad rádast, þar øllum stód stuggur af honum þá hann bleipti brúnum. En varúd er hér meiningin.

## 3. Trúarjátníng.

1. Þrennt eg trúi treysti á:
má því ei madur neinn mig um gudleysi saka.
Fødur Bacchus blídum hjá
bidst eg fyrir og þreyandi kvaka,
hann ei hratt í burtu mér,
þá eg kom þreittur af þúngu syndanna verki;
kom, hann sagdi, set þig hér!
sje eg gjørla þíu ydrunar merki;
ver hughraustur son minn senn,
synd þér fyrirgéf eg enn:
nær þig staupi, nú ef er
nokkud íllt fyrir hjartanu þér!

2. Mey ein mjúk, og gjædsku rík,
hreinlíf, og hvít á kinn hún er ønnur persóna.
Børum hennar hønd eg strík,
henni allri med lotníng eg þjóna;
lokkar leika herdum á,
af þeim skín allt um kríng, eins og ljómar
af Sunnu,
augun hrein og himinblá
hýrum elskunnar loga þau brunnu;
hennar fadmi føgrum í
frjáls af sorg eg gladur bý:
himneskt hér er paradís,
hér ad lifa og deya mér kýs.

3. Andann pípu prísa eg,
minum í munni hann meir enn hunáng
er sætur,
lífgun ljúfa þar af dreg,
lækníng eru þær blessudu rætur:
heidblár hríngar reikur sig,
lopti í laungum sjást líka fallegar rósir;
engil ætla'g vera mig,
um þá gefa mig skýstólpar ljósir.
Tregi þegar trublar sinn
tek eg Móguls lækníng inn:
gledi; varg eg brælt best,
bráð því er honum reykurinn pest.

## 4. Vetrarkomu kvedja 1798.

1. Gridkur gólfin sópi hér,
gestur því geingur ad gardi snøgglega vorum,
skrídid bord og bekki, þér
brúdir! tefjid nú ekki í sporum!
karlar kindi hægann í
því ad kallt þeinki' eg sé þorra fødurn-
um gamla!
sveinar! kertin takid til,
rendrid strax þegar myrkurin hamla!
bóndi! honum bjód þú inn:

beina veittu, húsfrú! þinn!
vatn eg vil af brunni túns
varma, svo laga dálítid púns.

2. Heill! sæll! bóndi, blíd og frú!
hafid þid heidur og hjartans þökk fyrir bodid!
kóngs í ferdum fer eg nú,
furdu gamall og handkaldur — skodid!
hér er bolli bordi á,
sedur géd (svo er þad) sætleiks ylmur: inn þessi.
Skál! skál! hríngjum! hana þá!
herrann sjálfur af nád ykkur blessi!
lifi frægur Physicus!
farsæld krýni módur: húss!
Sigga: tetur tóri vel!
til Guds verndar eg heimafólk sel!

---

## 5. Kóngs Minni

á hans fædíngardag 1799.

1. Allt eins og sól sinn: blómann blída
útbreidir jafnt til skaptra lýda
frá Austur veg ad Vestur brún,
og allt, sem líf og anda bærir,

í lopti, sjó, um jørd sig hrærir,
med lífsins sætleik sedur hún.

2. Svo þessi mildi morgunrodi
er módur = jardar gledi bodi:
ver sól er Sjóli austri í;
Hans geisla til vor glansin nádi,
ad glæddust heillir voru ládi.
J brjósti logi þøkkinn því!

3. Þó gulli sídst því gjalla lofi,
né gimsteina vor hýsi kofi;
vit, trygda fúsust fátækt er!
því vogum Dana Budlúng bjóda
vor brjóst jafnheit' og annara þjóda
trúføstum Nors þad nidjum ber.

4. Hér því hid' fyrsta helgast minni
skal hátíd burdar skjærri þinni,
vor fadir, Konúng **Kristián**!
oss nýan lofstýr æ hún kénni!
árlega hjá oss ný upprenni!
svo óskar hver. þinn Undirdán.

5. Lif þú í sælu lukku geingi!
med ljósri mildi stjórna meingi,
ad gagni því, en gledi þér.
Þú gleimir aldrei einu: þad er,

æ! elskti nordurlanda fadir!
þín dóttir foldin Isa er!!!

---

## 6. Vise

paa Kongens Fødsels dag den 29de Jan. 1798.

(ort undir nafni Amtmanns Wibes.)

1. O! Christjans Dag! den Held os bringe!
al Godheds Gud! bønhør vor Bøn!
Hver ædel Hensigt lad gelinge
For Fredriks og Lovises Søn!
Hvis Glæde kun er vores Vel: } Chor:
Glæd du igjen O! Gud! Hans Sjel }

2. Han kjækt lod Slavers Lænker bryde;
Han Tryk- og Tale-Frihed gav;
I Fred lod hver sit Gode nyde;
Beskytted' Handlen (Rigdoms Hav)
Ham offres vores Lov og Pris } Chor:
Thi Han er ædel god og viis }
(Her raabes af de Tilstædeværende:)
Gud velsigne Kongen!!!

3. Og Fredrik! Du som deler Hæder
med elskte Syvend Christian;
Vort Haab for Efterslægtens Glæder,
af Vor Tids Held vi slutte kan,

Du nu er Fædrelandets Tolk,
Og Dig velsigne alle Folk! } Chor:

(Her drikkes Kron Prindsens Skaal, og Hele Selskabet raaber:

Længe leve Kron Prinds Frederik!

4. O! Gud endnu en Bøn Du høre
paa denne frydefulde Dag:
Vi bede Dig lyksalig gjøre
Hver Medlem her af dette Lag:
Og hver, vort Konge Hus har kjær,
Han være fjerne eller nær!!! } Chor:

(Her drikkes og raabes af alle:)

Det Kongelige Huusets Velgaaende!

---

## 7.

## I Anledning af Kongens Fødsels dag

den 29de Januar 1798

1. I dag vor Selskabs Sang skal være
Kong Christjan og Frederik til ære
Som offres af vort varme Bryst
Om end vor Digte — Kunst er ringe,
Som vore Ønsker skal frembringe,
Saa skeer det dog med veluent Lyst.

2. O Lykkelige Tvilling Rige!
Hvor hver Mand hjerteglad kan sige:
Vi har en viis, og god Regent:
Vi ei for Tyrannie skal grue;
Ei Fienders vældig Magt os true;
Ei Krigens Brag hos os bekjendt.

3. Hver Sjæl i Islands lave Hytter
Maae prise Dig, som sand Beskytter,
Dem frelste Du fra Hungers Nød:
De derfor kalde Dig en Fader,
Og aldrig de det Navn aflader,
Blandt Biergene det Echo Lød.

4. Thi skal vort Ønske høit opstige:
Lev mange Aar! og styr dit Rige
I Fred ved Hielp af elskte Søn:
Han udi Faders Fodspor træde,
Og blive Rigets Lyst og Glæde!
Det ønsker Folket sig til Løn.

Brynning

---

## 8. Á Kóngs Fædíngar hátíd
### þann 29 Jan. 1799.

1. Lifi vor kjæri Kóngur vel!
vor kjæri fadir lifi!
lifi vor Theutat leingi og vel!
Hans lofid aldir skrifi!
Hans ord, Hans verk, Hans þegna þrá
þrátt kunni minkast stunda á:
vor hugull fadir ósk þá á;
vor elskti Theutat lifi!

2. Svo hrópa børn med hopp og dans
af hjarta elsku nœmu,
eldheitu snjó vid Ísalands
án allrar brennu rœmu;
svo kveda hátt, ad klíngir hlíd
á Konúngs fædíngar hátíd,
og þar vid bæta þessu blíd:
þeir vildum dagar kjæmu.

3. Þá Stjúpu = blóm, og baldursbrá,
og brønugrøs og fíflar,
og gullud sóley, grøsin blá,
og gullintoppu hníflar,
og eyrarós, og annad fleir,
sem upp hér vex úr mold og leir
vidur sudvestan varman þreyr
vora nær lyktan stíflar;

4. Þá viljum dansa, og kveda kátt,
á Kóngs=skál mjólkum renna;
þá viljum hlaupa í ýmsa átt,
ávøxtu lesa þrenna,
svo fléttad fáum krans í krans,
ad knýta um gagnaugu Hans,
sem ama fjøtra innan lands
af øllum girnist brenna.

5. Pad er vor Kóngur Kristián,
og Kóngsins sonur gódi,
vor kjæri fadir! Kristián,
Hans kjæri son! vor bródir;
svo Kóngsins þegnar kéndu oss,
svo kéndi vort foreldri oss;
Hann sé vor fadir hýr, og hnoss,
hverjum betri gullsjódi:

6. Hann skulum elska ætíd vid
allt eins og fødur gódan,
ad vild Hans stunda sóma sid,
er sannan veitir gródann:
þá bidjum alvald bænum í
um bestu hjáp; ei gleimum því,
ósk þá af hjarta uppá ný
þeim ædsta fødur bjóda.

7. Lifi vor kjæri Kóngur vel!
vor kjæri fadir lifi!

lifi vor Theutat lengi og vel!
Hans lofid aldir skrifi!
Hans ord, Hans verk, Hans þegna þrá,
þrátt kunni minkast stunda á;
vor hugull fadir óss þá á;
vor elskti Theutat lifi.

---

## 9. Onnur vísa.

1. Upp! upp! hraustir Gardarhólms byggendur
hondlid kjerin glæstu bordum á!
frelsi, gledi, leikar lífgist endur!
leidan metnad rekum oss í frá!
brædur allir jafnt því erum ver; :,:
ein vor fóstur fold :,: og fadir er.

2. Vor er fadir Kóngur Kristján gódi
(kann ei dýrri nafnbót Skjoldúng fást)
þig vegsama skal í þessum ódi
þjód, er jafnan reyndi fodur ást
þina; þegar mest ad þreingd pín :,:
þá var hondin hrod :,: til hjálpar þín.

3. Medan nordur álfan oll í reiki,
eld, og púdur þoku, vada má;
medan logann brædra blód uppkveikir,
brádt sem vidsmjor kastad lódir á;

ríkjum vér í ró, og rækjum dáð, :,:
síngjum frelsi og frið :,: og Fylkirs náð.

4. Hølda leingi kíf og þræta þjáðu
(þekkið eigi, bræður! skrímslin á?)
en vor góði Kristján boði bráðu
bauð þau útlæg sínum ríkjum frá;
er því eining hér í okkar sal :,:
Siklíngs súpa skál : : og sáttar skal!

5. En hvað viljum, bræður! vér upptelja,
velgjørð, er um landið dagljóst fer?
hvør kann Pér, og Friðrik syni selja
svoddan þakkar offur, líkt sem ber?
Friðrik vor er von um veldis hrós :,:
og Hann Kristján er :,: vort augna ljós.

6. Lifðu, faðir Kristján! Tyggi traustur
tvíburauna ríkis alda-stoð!
lifðu, Friðrik son! í lukku hraustur,
lýða velferð sé þitt Kónga boð!
himna stírir heyr vort hjarta mál! :,:
Konúngs Kristjáns nú :,: skal klíngja skál.

7. Heiður faðmi, lán og lukku geingi.
Lofða þá, hér settust borðin við!
hátíð þessa drekkum leingi, leingi!
landsins stundum eining, sæmd og frið!
upp! upp! eðla menn í Ingólfsstað! :,:
skeinkið skálar, á! :,: og skéllið að.

## 10. Den 29de Januar 1799.

Undir nafni Gudmundar Jónssonar Lög-
réttumanns í Skildínganesi.

1. Jeg levet har i saa mange Aar;
Jeg har paa Bagen vel tvende Sneese,
og mine ret som i Ungdoms Vaar
de arbeidvante Skuldre kneise;
Thi det er Sagen,
at jeg og Magen
den halve Natten og heele Dagen
Bortspøget har.

2. Hun spandt, og væved, og laved' Mad,
og selv arbeidet med muntre Seenter;
naar jeg paa vaad en Planke sad,
hvor Søens Rigdom man graadig hendter,
hvor Bølger gjækkes,
og Liner strækkes
og Fædre-Landets Vaaben trækkes
med lyst om Bord.

3. Saa rask det gaaer med mit Husets Dont,
Skjøndt udenfor han gevaltig blæser;
de Vinter Aftner de gide skont,
naar gamle Sager jeg forelæser;
og Natarbeider
med Lyst og Hæder

med fire-dobbelt Kraft bereeder
mig Fædre Daad.

4. Og naar jeg regner mit Overskud;
Saa er det klart, at jeg vundet haver;
thi hvad jeg sikkert kan bringe ud,
det er: — om Dagen min Torsk saa faver; —
og raske Knøse,
og vævre Tøse
om Natten gjorte, saa mageløse
for Tidsfordriv.

5. Hvad vil Du vel med den Himlens Skjenk?
saa spørge kun de svage Tosser;
thi før jeg lader min Baad i Sænk,
jeg heele Fangsten i Tide Losser;
min Torsk jeg gjemmed,
og Handel fremmed;
men Gud, og Kongen og Fædre Hjemmet
skal hav'de Smaa.

6. Og Gud! og Konge! og Fædreland!
(mit Blod det gjærer af skjulte Kræfter)
Jeg ikkun svagt eder nævne kand,
og mine Poge de gjør det efter,
som Himlen give
Dem nyttig blive!
det vil jeg heller end Tredsindstyve
Hvergang paa Løt.

7. O Gud! og Konge! og Fædreland!
den Treefoldhed jeg saa tit tilbeder!
jeg intet bedre jer give kand,
end hiint det bedste jeg fik af Eder
Jeg Herren beder.
Han altid leede
mit Land, og Konge og Øvrigheder
og mine Smaa!

8. Og Fridrik! Du som er Landets Ven!
Bliv bedste Konge paa denne Klode!
Du ligne Bedste Faderen,
Hin Femte Fridrik den ejegode!
Din Daad ei svækkes!
Du hver Mand tækkes
til Landets Støtter i sønder brækkes
ved Ragna røk!

---

## 11. Visa.

1. Tvö eg heyrdi hjala saman,
hafdi eg af því mikid gaman:
Hrvan kvadst á Hrói amann
hafa nokkud þveran:
á útsunnan er hann
Sagdi hann vera á tálid taman

traudt það kynni hann verja,
bágt er að sigla báru milli og skérja.

2. Sér því hefði hann lofað leingi,
ljóð að flytja góms af streingi;
en arga bögu ei hún feingi:
ekkért skémtir mér hann:
á úts: er hann.
Maklegt væri úr daufum dreingi
dáðleysið að berja.
b er að s. b. m. og skérja.

3. Hróið gjörði hér til inna:
hvörnin má eg braginn spynna
saman, svo að tróðan tvinna,
taki vel upp, mér hann?
á útsː er hann.
Oð því verðan ei kann finna;
eg það þori sverja,
b. er að s. b. m. og skérja.

4. Blíðri skyldi eg Hróu handa
hjartans gjarnan bögu vanda;
en skáldskapar mig skortir anda,
skakt um þúfur fer hann:
á úts: er hann
og aldrei líkar Lilju banda
lasin austra ferja.
b. er að s. b. m. og skérja.

5. Hróinu vitni Hróan géfur,
ad hann sé mesti trygda refur;
því óstødugri enn ólgan hefur
ætíd fundist mér hann:
lá útsː er hann.
Tilfinníng í sálu sefur,
er sinni mitt gjørir merja.
b. er ad s. b. m. og skérja.

6. Hróid sagdi, sárt þad vera,
sér ámæli slíkt ad géra,
saklausum; — því brjóst mitt bera
best kann vitni (tjer hann)
á útsː er hann.
Brjóstid kløkka brixlin skéra,
bágt er ei satt mál verja,
b. er ad s. b. m. og skérja.

---

## 12. Teits alkort.

1. Teitur sagdi, og sat vid dúk,
søtrandi hjá køppunum:
eg ætli' vid gétum gért þá múk
greidt med, Bjarnar løxpunum!
2. Vid Eyrík, Teitur kátur kvad,
kopar settan hnøppunum:

bróđir! stínga ber þig að,
Bjarnar međur løppunum!
3. Teitur fékk þá rædu reist,
úr risnum orda-kløppunum:
þú hefir tapad, bølvad beist,
Bjarnar međur løppunum!
4. Til Eyríks, Teitur hrópar hátt,
og hreisir fløsku tøppunum:
vid høfum unnid blekid blátt,
Bjarnar međur løppunum!
5. Teits var skrítid rædu ris,
úr risnum orda kløppunum:
þar hrapadir þú, til helvítis
hreint, med Bjarnar løppunum!
6. Slag ef þessi slaungull fær,
med slisum er, og gløppunum:
því Eyríkur er ei frídu fær:
med fjandans, Bjarnar løppunum!
7. Teitur kallar Eyrík á,
og yptir þjóa knøppunum:
stínga muntu þenna þá?
þræll! med Bjarnar løppunum!
8. Teitur grenjar, grátt sem ljón;
gaman er ad køppunum:
Eyríkur, stíng þú þenna þjón,
þá med Bjarnar løppunum!

9. Þó eg ekki egi þar
út ad spila køppunum:
Eyríkur stíng þú, enda gar
í, med Bjarnar løppunum!

10. Ad Teiti konan kalla fer,
og kippir upp þjóa hnøppunum:
gleimdud borga blekid þér,
Bjarnar medur løppunum!

11. Møgladu, hann þad mælir, þú,
medur liga hrøppunum:
ekki skildíng á eg nú
einu, med Bjarnar løppunum!

12. Øli gleimdud, Eydan tjer,
og eggja gulu støppunum:
rendud bleki í barka hver
Bjarnar medur løppunum:

13. Teitur knittum knefa brá,
á kjallara dyra trøppunum:
betala skal þessi þá
þér med Bjarnar løppunum!

## 13.

## Fyrirsøgn fyrir þesðu kvædi er:

Um Auditeur Molberg og hans félaga á Kjallaranum á Kaupmannagøtu.

1. Eyra giskur [1] æsti mál,
med augna rádid svarta;
fjandinn mina fái sál
og fleki í þúsund parta.

2. Kølski sat í krókbekknum
og kjaptinn belgdi ljóta;
honum var ekki held eg um
hroda verkid skjóta.

3. Hljódin skolla heyrdu þar
høldar í myrkrum inni;
aldrei fyrri eg ádur var
á æfi, bødull minni.

4. Ekki tegund ansadi,
auditeurinn Skolla;
hann svo frekar hjaladi
hír vid fløsku polla.

5. Eg skal læra þrællinn þig,
og þessi hnefinn hardi:
ad gleima Gudi, en muna mig
sem múlann á þér bardi!

---

[1]) Auditeur.

6. Sídan rak upp rokna hljód,
ad rjáfurs lipti bordum:
kakadæmon í hann ód
eins og Svinin fordum.

7. J augum døkkur eldur brann,
andlit þrútna nádi:
út úr kjapti reykur rann,
rumdi' í barka ládi.

8. Hlupu strax á hrotta grér,
høldar þrír eda fjórir;
af þá sleit hann alla sér,
einnig Stálhønd Þórir.[1]

9. Fyrir sér lítur fløsku mar[2]
fagurraudan standa,
sér ad drekkja, þenkir þar
þundur galinn branda.

10. Hér fór eins og ætladi
Odins ljóma stafi:
ad kakadæmon drukknadi
døkkur í rauda hafi.[3]

11. Drengurinn eptir dapur sat
dádum minni lopa;

---

¹) ágjætur af landvørninni hjá Dumbi kóngi. (Svo kalladi Sneesjæld sig.) ²) Aqvavit. Flaska. ³) rauda Aqvavit.

ekki tegund etid gat,
utan drukkid sopa.
12. Nú þau urdu umskipti:
audar kinnid skordum;
ad kisti þann og klappadi
er kaus í helju fordum.
13. Skírast vildu vyrdar því;
vanir staupa ydju;
lífsins Jórdan ódu' úti,
upp ad nefi midju.
14 Garpar nú sér gjørdu kátt,
gjald var nóg í vøsum;
allir lofudu herrann! hátt!
hríngdu, og klíngdu gløsum!

---

## 14.

1. Opt med hædni hermdir þad,
hví svo lítill væri?
heilla bródir! hyggdu ad
hvad til varnar færi!
2. Lítilátum og ljúfum er
lofad himnaríki
en hina stóru, er hroka sér
hremmir Vítis díki.
3. Eg vid brjóstin Abrahams

ei lítill skal þreyja:
en qvar þinn verdi qvala[1] hans
kann eg ekki' ad segja.

4. Otal gétur, eins og mig,
Abraham borid skauti;
efast eg um einan þig,
Öldúngs þýngri Nauti.

5. Kné sín taka ef hann á,
ætlar marga slíka;
blessadur mun hann brjóta þá
báda sundur kríka!

---

## 15.

1. Lifs þá skírast vatni vann,
veitir Nødru fjalla;
andinn sterki hremdi hann,
hart í veikan skalla.

2. Greip og færdi í Gamma sjó,
gaurinn svíngla nádi,
efst ad sólar fagri fló
foldu, andinn brádi.

3. Vermast tók sem von var á
vagns í bjørtum skála;

[1]) qvar og qvala, er nordlendska, fyrir hvar, og hvala.

best sem kunni, brautst um þá
brjótur veiga stála.

4. Í sig svoddan ofsa brá
afli ^kgésinn dreingur;
að andinn tegund ekki má
á honum halda leingur.

4. Datt svo fljótt með þéttum þit
þáði fallið vesta;
ofan midt í Arnardrit,
ei var rúm hið besta.

6. Kúka leðjan kaudans rann
kjálka millum bríka;
sumir meina að hafi hann
á hratinu smakkað líka.

7. Tungla : meina andinn á
örn þar brókum kipti;
náði líta, Segginn, sá
og saurnum uppúr lypti.

8. Svo fékk strokið staupa grér
frá styggri Karons ferju;
en frá þeim tíma óður er
æ! með nýi hverju.

---

## 16.

1. Fæ eg ekki ad fadma þig?
fleſt trúi' eg dreingi bági;
áſtin lætur innanum mig
eins og naut í ſlagi!
2. Fæ eg ekki ad fadma þig?
Foldin ſjóar byrtu;
áſtin ſtekkur innanum mig
eins og fló í ſkyrtu!
3. Fæ eg ekki ad fadma þig?
Fleins þad bagar draugi;
áſtin rótar innanum mig
eins og ſvín í haugi!
4. Fæ eg ekki ad fadma þig?
Falda blóminn ljósi;
áſtin drynur innanum mig
eins og kýr í fjósi!
5. Fæ eg ekki ad fadma þig?
fleſt vill afla þrauta;
áſtin hvirflar innanum mig
eins og þirill flauta!

---

## 17.

1. Mér vyrdiſt nokkud Liljan líns
ljóma blinds hjá þollum,

svipnd draugum Mánga míns!
á mýrar þúfu kollum.

2. Eins og fagurt glói gull,
ginnir til sín marga;
dádalausa, drambi full
dregur í villu arga.

3. Ef sér lítur eptir gá
einhvörn dísin vella,
læst sem undan laupi þá
limsku búin kélla.

4. Ef svo fælist álma týr,
ofnis freyu hauga;
ydrast hún og aptur snýr
og eltir runninn bauga.

---

## 18.

1. :,: Þekkirdu eigi :,: þennan Stálagrér?
þeir til segja Salve
Sanctissime Calve!
:,: af því gamlan :,: úngur Skalla ber.

2. :,: hans ad kalli :,: henda margir spé;
skéggid háraudt hefur

haldinn af því Refur.
:,: Barkalitad :,: bragnar meina sé.

3. :,: Blídur eins og :,: barn og hørund skærr;
bláum skríddur skrúda,
skikkanlegri enn brúda;
:,: hann þá geingur :,: hlidar útá rær.

4. :,: Nótt og daga :,: nítar bækur les;
hann sitt lokka leiti
leggur mjøg í bleiti
:,: ordastamur :,: eins og Móises.

5. :,: Af kvika silfri :,: kalla' eg nefid sé
fram og aptur ydar
útá bádar hlidar,
:,: perpetuum :,: propat mobile.

6. :,: Honum enginn :,: hátt þá ræda fer
megnar móti' ad spirna,
menta helgra kirna
:,: heita mætti :,: hrannar ljóma ver.

7. :,: Hvørsdags gjæfur :,: heidurs madurinn sá!
um sig ber og bítur
bana einhvør hlítur,
:,: hann ef reidist :,: hriggilegt ad sjá.

8. :,: Ullur þegar :,: ægis funa lopts;
hefir heila Amu

hjali tæmt med rámu,
:,: úr herranum ekki :,: hrítur minnsta bods.

9. :,: Audkénnanna :,: ei þarf meiri sans,
allir Odda gjætir
ærdir þekkja mætir,
:,: hermdu mér nú :,: heiti þessa manns.

---

# III.

# Ljódabréf.

## 1. Ljódabréf

undir nafni Haldóru Sigurdardóttir konu Gísla *Rectors* Þórdarsonar Thorlacii til systur hennar Gudrídar konu Landlæknis Jóns Sveinssonar.

1. :,: Sæl og blessud :,: Systir kæra mín!
lestu þessa línu,
Liljan fofnis dýnu!
:,: allri rosin :,: ángurs neyd og pín!
2. :,: Nú er gaman :,: nóg í Reykjavík:
prúdur Garda prestur
prédikar þar mestur:
:,: úr honum flýtur :,: anda gáfan rík.
3. :,: Hér um slódir :,: hann af øllum ber;
einginn er hans jafni
í orda føgru safni
:,: í stólinn þegar :,: stíga mjúkur fer.

4. :,: Hökla meidir :,: hefir talandann
eingin (ætla eg) betur
ordid til þess gétur
:,: ad segja fólki :,: synda ljósast bann.
5. :,: Á þig settu :,: Södla þídan bát:
brúkadu bádar fætur,
ad Biblíu heyrir þrætur;
:,: Þú mig finnur :,: þá skal eg verda kát.

H. S. D.

## 2. Sendibréf.

1. Ástkjærasta elskan mín,
Indisfullur bródir;
veiti þér Drottinn Vídalín,
veg um lukku slódir.
2. Svart hef eg tídum sendt þér rit
af sálarlausum hrafni,
núna saman læt eg Lit,[1]
lemja skut med stafni.
3. Báturinn setst þá alfær er,
útá sjónar Flædi,
hann um grænan Hrossaver
til Hafnar vil eg þrædi.

[1]) Dvergsheiti.

4. Hann skal þunnt med Ása øl,
útúr naustum dansa
hlaupa fljótt med heitan kjøl
hvørgi ná ad stansa.

5. Fyrr enn í þínum Laufa lands,
liggur Hnúa fyrdi,
þar skal bindast bylgju Rans
Bláins Jálkurinn stirdi.

6. Þar skal fella seglin sveitt
seimd ad Raungum hníta,
þar skulu akkér gánga greidt
í grunn, sig nidur bita.

7. Kafhladinn þú Knørinn sjer,
med Kvásirs þunnum dreira;
eitt staup bjóda þori eg þér,
því, en ekki meira.

8. Sérhvad hefir sína dád,
svo er drykkurinn þessi,
hann hleypur ekki í heila lád
né hrindir munni' úr sessi.

9. Hvør sem bruggar Odins øl,
allan fordist kvida,
en ólundin beisk og bøl
á baki mínu rída.

10. Aptur lifnar Adam forn,
yndi fær mig rúid;

rekid er þad Hrúts í horn,
eda Hunds í líkam snúid.

11. Skáldin vera skulu ein,
skvaldur ekkért heyra;
jøgun skráka mikid mein,
mínu veitir eyra.

12. Hlœandi med hvopti gá,
hvergi veitist fridur;
ad þræta, og bølva, þetta má,
þeirra reiknast sidur.

13. Ef eina smakka skáldin skál,
þad skilníngs krapta gledur,
lifnar hugur hressist mál,
hjartad undir kvedur.

14. Hér er kreddan ønnur enn,
ádur vann eg læra,
hér þad kalla hádúng menn,
í Høfn er þókti æra.

15. Ad reykja; vínid bergja brent,
vid bauga seljur spjalla;
hvør sem gjørir þetta þrent,
þrammar til nedri halla

16. Ad reykja, er gaman; gledur vín;
gott er um sprund ad fjalla;
hvar mun verda vistin mín?
veitir nordra palla!

17. Er til svona ástandid
úngum fyrir dreingi
bágt vill falla bøgusmid
ad búa hérna leingi

18. Flest því geingur mér í mót,
margir ad mér hnýta;
linna frá mér lædist grjót
lýs og flær mig bíta.

19. Von er, þó mælir, vel sje ei,
vidris elda bendir!
pípu drápu dubbad grei,
á deiginum þér eg sendi.

20. Ur því taktu ordin treg
allt þad máttu rétta,
betra skáld því ertu' enn eg
eidir linna stétta.

21. Gódur var eg greppur hjá,
gøfgum Eyrik Jarli;
æran sú var ekki smá,
einn mér þókti galli.

22. Ekkért fékk eg orma dý,
ekkért jeta', edur drekka;
hætta' eg skjótt ad skálda því,
hjá skitnum stýrir rekka.

23. Umbreiting er ordin sú,
er þad lítid gaman,

ad varla eina vísu nú,
vafið gét eg saman.

24. Yndisleysið ollir því,
og elskan Hafnar mikla;
ykkur hjá eg betur bý,
enn baldri frægum lykla.

25. Øll er gleði horfin hér
hrigð mig klípur taungum,
að dínguls landi bráða ber
bylgju hvarma laungum.

26. Í lopti eitthvað efalaust,
óhreint verið hefur;
þegar með mig skjótur skaust
skøkla híngað Refur.

27. Fyrr enn hófa hundur frá,
høfnum fékk mig rekið,
skyldi læknir enni á
æð mér hafa tekið.

28. Ekki tjáir að ýdrast mér,
eg ligg hérna bundinn;
héðan glaður frá eg fer,
framm þá líður stundin.

29. Stundir, dagar, ár og øld
á enda meiga líða;
eptir vetrar veðrin køld
væntist sumar blíða.

30. Hekla eitt sinn eldi spjó,
aptur mátti linna;
ekki spennir Apollo,
ætíd bogann stinna.

31. Eitt er þad sem ángrar mig
opt um hyggju slódir:
ad fæ eg ekki ad fadma þig,
fremsti vin og bródir.

32. Vid høsum tídum gabbad Geir!
um gøtu kræktir saman,
en nú géfst þad ekki meir,
yndisfulla gaman.

33. Opt vid bríndum orda ljá,
uppá margt var slegid;
um vetrar kvøldin kulda blá,
med kappi tídum hlegid.

34. Sleddan máls þá sljófgast vann,
sleingt var henni ad bragdi,
hreisti búinn Hauka rann
hvør um annan lagdi.

35. Sjást þá máttu svipt íngar,
súngu brøgd á leggjum;
brjóstid læst ad brjósti var,
beitt var saman skéggjum.

36. Um mig laungum lukkan bjó,
lágt i glugga Meri;

aptur var eg uppi þá,
eins og boði á skéri.

37. Hver hjá øðrum síðan sat,
sorga jel var úti;
báðir gjørðum bora gat,
blinds á endann Kúti.

38. Vísan mørg af munni flaug,
mæddist hlátri ydur,
svarta galls við sona draug,
súngið gátum niður.

39. Tíðin þraut á þennan hátt,
þekku ástar ráði,
okkur bar til eymda fátt
einginn kvarta náði.

40. Okkar beggja elskan kjær,
yndi gréri saman;
eins og lístug liljan sær
líf um orma gaman.

41. Fyrir seðil þakka eg þinn,
þó að stuttur væri,
letin hjá þér laumast inn;
láttu' hana fara kjæri!

42. Mér hefir stolið stelpan frá,
støsum bréfa þinna;
heingja skal eg hana, þá,
hafnir gjøri' eg finna.

43. Þú hefir tekid til þín M.
trigdalausan kauda,
fyrir ekkért, okkur sem,
abla vildi nauda.
44. Þitt mér elsku þelid bert,
þoku vyrdist blandid;
eg þeim hefdi aula gért,
ei til vilja grandid.
45. Sá sem ádur í hann bar,
ódygdanna spíu,
hønum fella hæfast var
hunda gram ad níu.
46. Muntu enn þess minnugur,
Móins hyrdir bæla;
er siblessadur Sæmundur
saung um lýdinn þræla.
47. „Þegar þrælum þénar um sinn,
„þá er þeirra vandi;
„eins og sjálfur andskotinn,
„í þeim sídan standi."
48. Þú ritar þín sé systir sjúk,
sig ad kodda beigi:
af því vættu ei vasadúk,
vittu hvad eg segi.
49. Þad er vilji Drottins dýr,
med dygga freyu banda,

hann í gledi hørmum snír,
og hjálpar úr øllum vanda.

50. Hann er fadir, hún er barn
hans. Þó mótgáng lídi;
agar hana elskugjarn,
Engla Kóngurinn frídi.

51. Honum ef þóknast hana' í,
himininn upp ad kalla,
ef þér fyrir þykir því,
þú ert bródir valla.

52. Heims þá endast ánaud stríd,
engla fjølgar skarinn,
heiløgum med himna lýd;
hvar er hún betur farin?

53. Best er ad hafa gladvært géd,
og géfa sig lítt ad þessu:
orum vonar augum med
engils lít eg messu.

54. Vid skulum færa frændi! þá,
frerinn høfud saman,
reka flótta ólund á,
aptur hylla gaman.

55. Eptir þér mitt hjarta hrín,
hvar, um̄ fold ed sveimi;
valla géist mér Vídalín,
virda einn í heimi.

56. Fyrr mun Hrafninn synda um sjó,
Svanur litum skipta,
Ljónid byggja Laxamó;
Lamb sig Ulfi gipta.
57. Rambyggt hrapa Rødla skér,
ríkid ekkils brenna;
enn þú megir málmagrér,
mér úr huga renna.
58. Þitt skal eg ætíd herma hrós,
hreinum kjærleiks ordum,
aptur sperri' eg orda fjós
eins og hinir fordum.
59. Vertu jafnan, vinur minn!
vaxi elsku blossi;
rétta skaltu reidínginn,
á Ránar Dvergahrossi.
60. Skjótt þér ber ad skrifa mér.
skáldadu dáltid líka,
géfin þér af Odni er,
andagiftin ríka.
61. Hvørt þú fer um, løg eda láð,
þér lukkan fylgi blída;
himnesk veri hjá þér náð,
hvíta Kristi frída.
62. Seinast lentu í himna høfn,
þar hvíldar njóttu sætis;

Þessa óskar Sigur Svøsn
Sonur Likla gjætis.

---

## 3. Sendibréf
líklega til Biskups Vídalíns.

1. Gjørvallt mitt yndi er
eins og Snæljósid frídt,
sem í gjær sá eg hér
sig breida um loptid vídt;
stundar korn stutt eg sá,
stopult þess ljóma skart;
hvarf bragdi auga á,
í stad kom myrkrid svart.

2. Lék á mig lukkan vest,
laungum eg syrgi því;
þegar mér þókti best
þrautfullum heimi í,
og ástarríks yndis naut,
sem ekkért má líkjast vid,
læddist hún brátt á braut
brigdul frá minni hlid.

3. Skrautlegt sem skip þad, er
skrídur fram landi med,
væustur og vindur ber,
og vodir útþenja réd;

minnst þegar vænta var,
viljugt á bylgjum støkk,
í hasti' að boða bar,
brotnaði, tíndist, søkk.
4. Sorgfrí, sem fuglinn sá,
faðmar blómgaða grein;
sumri ylhollu á,
ekkért sig grunar mein:
skyttann það skoðar fyrst,
skjótt sigtar hleypir af;
feigur datt fugl af kvist,
flatur upp øndu gaf.
5. Hví vil eg hérna meir
herma mitt ástand ljótt?
ein þegar eymdin deyr,
ønnur fram lifnar skjótt;
ein bylgjan aðra vønd
elltir, svo kémur ný;
frá eilífri ama strønd,
aldreigi verð eg frí.
6. En! — støðva þánki þig,
þetta er fávíst hjal,
rataðu réttan stig
rænu brúkaðu tal.
Er þá ólukka mín
eins megn, og sagði eg hér?

er Drottinn! elskan þín
ekki vikin burt frá mér?

7. O! nei! eg fávíst fé
farid mjøg hefi villt,
blindnin mér billti á kné,
og brádrædi sinnid fyllt:
ásaka eg ekki má,
ef rétt gaumgjæfa vil
himneska hátign þá,
er híngad — mig leiddi — til.

8. Klædi og fædi eg fékk,
fyrir Guds milda hønd; —
heilbrigdur hvern dag gékk,
hvurfu meinlætin vønd; —
Lopt bædi land og sjá
lét Drottins miskunin
géfa, hvad gyrnast má,
gladdist svo andi minn.

9. Sýki og sára ar
í sæng hafdi bundid mig;
min hjálp og hæli var,
ad hugsa, Drottinn! á þig:
tipta mig víst hann vann
vilja sínum í mót;
ad skyldi eg hrópa á hann,
og hjartans elska af rót.

10. O! Drottinn! ætíd þig,
ondin mín prísa skal,
þín leiddi miskun mig,
myrkranna gégnum dal;
en þegar eymda skúr
ánægju blekti sól,
mig, minn leidtogi trúr!
tókst í þitt nádar skjól!
11. Eins bid eg enn þá þig,
eymdir nær sinnid hrjá,
ad vardveita viljir mig,
og víkja mér aldrei frá;
kross þinn þá met eg mér
mjúka lækning og bót;
til þín eg þrúnginn fer,
þú grædir meinin ljót.
12. O! vinur! þekktu þad,
(þad er alvara hrein),
Gud títt eg blídan bad,
ad bæta mín gjørvøll mein:
en aldrei eg óska má,
ad allt gángi mér í vil;
ad hjartad ei hverfi frá
honum veraldar til.
13. A gledi þó gjørist stans,
og gángi ei allt sem best;

á herranum himna ranns!
hef eg mitt traustid sest;
hann veit, hvad hentar mér,
hrygd blandad gledi vín;
hans tiptun elska er
eintóm, sem hvørgi dvín.

14. En aldrei kérid kann
klaga sinn vísa smid,
og spyrja, hvar fyrir hann
hafi svo breitt sig vid:
hví skóp hann hold vort hey
hørmúnga þyslum flækt?
hví vard eg engill ei?
eins var þad Drottni hægt.

15. Margur svo þenkir þrátt,
þúngri sávitsku í;
ad hefdi' almættid átt
oss skapa meinum frí:
en einginn um eilífd sá
inní Guds leyndar rád;
fót reisti hann fallna á,
fridadi seka af nád.

16. O! Gud! sem geymdir mig,
ad grandadi ekki neitt;
á veraldar véla stig,
vandliga fékst mig leidt:

veittu þá miskun mér,
ad meiga af hjartans rót,
ydrast þess alls, er þér
eg hefi drýgt í mót.

17. Beint er eg búinn, ad
byrta mitt hulid sinn;
forláta færdu þad,
fólgni ástvinur minn!
skipadir þetta þú,
þér skyldi eg rita til;
vel, bid, því vyrdir nú,
mitt velmeint ódar spil.

---

## 4. Ljódabréf

undir nafni Síra Sæmundar Einarssonar,
Kapelláns þá á Kjalarnesi.

1. Æruverdum vel, og sprottnum vits í landi!
er sálna hrindir synda blundi
Síra Erlendi, Gvøndar kundi.

2. Føgnudur sendist, fridur, nád og flest ágæti,
af austra grønnum Ølduhrúti,
omnisgeneris Cum Salute!

3. Í Holti Brautar hafdi' eg fyrst þá heid-
urs veitslu,

ydur ad sjá, þá hljóðs úr hyrdslum,
hrodud saman æru smyrslum.

4. Mig Sæmund nefndud sóma lim í
sögdu kvædi
af Einars er eg borinn blódi,
Bedju egta trygdar gródi.

5. Eg í vísdóms ört var settur aldingardi,
speki Sydjum fórnir færdi,
flesta ment, og túngur lærdi.

6. Vikinn þadan, Vigfús tók mig, vitsku dýri,
Sýslumadur, er sídi klúra
saudi lögmáls gjörir skúra.

7. En lofdúng himna, leitst ei á eg lærdi júra
mig því sá hann sitt verkfæri,
sauda k.ndur hans eg næri.

8. Skjótt hann sagdi, Skálar — áttu skunda
ad Holti,
hvadan mína heimti' eg pilta,
helgum anda brjósti fyllta.

9. Hempan svarta, huldi kropp frá herda tánga
Kapellán eg Kjalnesínga
krýndist vigslu eptir slinga.

10. Drottins veg eg vísa þeim, úr villu leidi,
stólinn ber med ógna ædi,
út svo pressist tára flædi.

11. Sídst ydur hefda' eg senda skál úr són-
ar bárum,
nema vid í Kristó kjærum,
kosnir andans brædur værum.
12. Ört mér sýndi anda gáfu ydar heita,
yfirbragd, og augun hvøtu,
er ennis blika skjær í pløtu.
13. Herrans gjørid gódan vilja gumum byrta,
Davíds á ydur dæmin skarta,
Drottins var hann eptir hjarta.
14. Satans þér fyrir synda íþrótt setjid tappa;
Engill Guds! og afbragds greppur!
í ydur miklast, Jøkul-hreppur.
15. Ydur megna' eg ekkért mót í austra kjænu;
líkt er þad, sem vatn mót víni;
vadmál gróft, hjá Klaustur líni.
16. Mér ef verdur vísu á ad vefa hálfa;
holdid titrar, hjartad skélfur;
hradt uppbólgna líkhams elfur.
17. Einn hinn sama ómátt líka eg má kanna,
þá výk eg undir Rekkvodinni,
og rétti fadm ad konu minni.
18. Sálin veiklast sárt hjá mér og sína kérsi;
af því slíkan eptir starfa,
engum tegund vinn til þarfa.
19. Upp og nidur allur hristist ángri medur,

ydur bid eg, elsku bródir!
um mitt mein ad séud hljódir!

20. Sérhvør hefir sárin einhvør sín ad binda,
verkin Guds = ad gabba = handa,
gárúnganna skil eg vanda.

21. Litlar fréttir færir ydur Fugla árin;
nýtt ef viljid nokkud heyra;
nú! svo komid! hvessid eyra.

22. Amtmann Meldal moldar fór í magan bleika;
hann því lífsins hrøkk af kløkkum,
hans fyrir lausn, vér Gudi þøkkum.

23. Stiptamtmadur Stephánsson frá Stóra=
hólmi,
um hvørn gjørdud yrkja sálma
Amtid fær án nokkra tálma.

24. Opt hann hefir ydur flutt á orda snekkju.
Upphaf verdur hann ydar lukku,
í ørlaga þad stendur krukku.

25. Hann er Islands ættarlaukur æra og sómi;
blessada frú og børn hans geimi,
blídur Gud í þessum heimi.

26. Herra Sveinn af sædi Páls med silkinønnu;
nítan speking náttúrunnar
nefna kominn skálarunnar.

27. Stjørnur lopt og steina, grøs á størd
og brunna,

gamla hauga og grafir manna,
Gissur bóka á að kanna.
28. Vilda' eg þessi veitta níúng voru láði
heilla kjør og hølda stoði;
hamíngju rán, né ólán boði.
29. Bráður dauði, banvæn pest, með bøli
høstu,
dug úr mønnum dregur mestan,
er drengi kvelur fyrir vestan.
30. Sunnapóst, sér úti orðinn, allir minda;
hundrað menn, með hriggri lundu,
hans þó leiti, samt ei fundu.
31. Vilja : veður, brøgnum dimm, opt brugga
mæðu;
tveir hafa menn á Hellirsheiði,
hýsi sálar, lagt í eyði.
32. Hjá Eyafjøllum, féll einn maður fram
af nípu,
þó gjørði dauður hann að hrapa,
himna lifir, Ønd á stapa.
33. Í Flóa hefir funi bruggað feikna bannidl;
einn þar hefir bærinn brunnið
og brælu dauða fjórum unnið.
34. Oss varðveiti alla, jøfurs engla mildi,
frá þessa heims og annars eldi,
ópi, reyk og myrkra veldi!

35. Þarf ei spyrja að þykkum ás und þök-
um flæða;
Skerjafjarðar fólk ábreiða,
fyrðum tveimur beð nam reiða.

36. Nú í haust, þá Nóvember, var nær á enda,
Atabjörn hér bar að landi
með bréfin Kóngs, sem til er vandi.

37. Belgir vinda blésu upp sjá, að brotn-
uðu steingur,
setti á skrið í kletta' og klúngur,
kadla sprakk af mæði Lúngur.

38. Lukka var, að losðar komust lífs af
honum,
þó sumir vættu sig í tána,
Siglu-áðurenn sleptu-kána.

39. Vici-lögmann voru landi, virsku fljótan,
buðlúng Dana blíður veitir,
er Benedict Jónsson Gröndal heitir.

40. Ungum herra, á ísa fróni, eflist hróður
lángur gyllist lífsins þráður
lukku hagur greiðist bráður!

41. Þó allir leiti ekkils hauður, ára þundar,
sér þeir meiga láta lynda,
með litla heimtan ugga kinda.

42. Bógt er heimi orðið í að eyða sínu,

frihøndlun oss drepur dana,
dreingja eingum líst á hana.

43\. Varla adra veit eg frétt úr voru
landi,
ad marki, er eg ydur sendi:
til útlandanna mér því vendi.

44\. Hunda tyrkinn, hart á fólkid Herrans
strídir,
høfud af bol med hrottann breida
hefir hann gaman mjøg ad sneida.

45\. Reidast tekur rembinn stýrir Róma grundar,
og hóta lýdum báli og brandi,
blæs hann upp, hinn gamli fjandi.

46\. Stillir sá, er stjórnar máttkum Stjørnu
hólum,
oss frá Páfans vondum vélum,
verndi best og Tyrkjans grélum!

47\. Ydur vil eg uppihalda ekki lengur,
Frosta stirdur Ferju gángur
mun fundist ydur hafa lángur.

48\. Fyrirgéfid fátæk ljód þó flutt eg hafi,
sýngur hvør med sínu nefi,
síst þar nokkur finnst á efi.

49\. Hrafnar krúnka, sínum saung þá Svan-
ur dillar,

þeir samt, Drottinn himna halla!
hásum barka, jafnt ákalla.

50. Flígur kóngur fugla hærra enn fóstri hænu,
Budlúng sóla ber (eg meina)
fyrir bádum fóstur høndu eina.

51. Fallegri er fákur á grund enn fjanda[1]
hryssur,
Gud þær sképnur bádar blessar,
því bádar hefir hann skapad þessar.

---

Brít eg saman, blessa þig med bauga þøllu
Ragnheidi, (ef rétt mig grillir),
er rekkju hugur ástum fyllir.

Ydar børnum æski' eg góds í einum hópi;
olía gledinnar yfir þau drjúpi,
ununar vínid drjúgast súpi.

Kjæri bródir! Kristó í, þig kyssi eg allan;
aldrei hljóttu audnu spellir,
uns ad daudans sigd þig hrellir.

Skraut-á-hólum skrifad er med skjótum hasti,
daginn þann er drotníng besta
Dønum fæddi Kristján mesta.

---

1) Svín.

Atján hundrud eptir fæding eru Kristi
tvenna fjóra frá þeim leistu,
fljótt þá ára talid veitstu.

---

## 5. Sedill frá H...d.

1. Nú hefi' eg sendt þér sedla þrjá:
og samid kvedju blída.
En ekkért frá þér ord eg sá
þad eikur skáldi kvída.

2. En søkkvi eg nidur í Niflheims hver,
þar neyd og sorgir veina;
ef eg lundur laufa! þér
línu rita eina.

3 Nema frá þér fái' eg bréf,
fóstradu hvad eg segi;
hefur þig drepid hósti eda kvef?
eda hvar fyrir svarardu eigi?

4. Verda' muntu vísu mát,
ef viltu leiki geyma:
ára hrókinn austra lát
ekki sitja heima.

5. Nú er eg ordinn nærri ær;
i nuddi bréfa linur,
eitt í dag og annad í gjær,
eg þér skrifa vinur!

Andinn hrapar í arnar leir
æ! þar fór hann hana nú!
ef þú vilt eg yrki meir;
hann aptur til mín mana þú!

---

### 6.

1. Ara Bjørninn austra snýr
óður fram á Sónarflóð,
báru þýðum blóma týr,
bjóða vil eg pípu ljóð.

2. Bættu penna: fjøður fljótt,
fátt þú láta standa mátt;
bættu það sem lítst þér ljótt
láttu gyllast orða: slátt.

3. Ungum máttu aptur dreing
inna dóminn skíra þinn;
túnga þín á tvíblinds streing,
tvinnar føgur ljóðmælin.

4. Litars øldu, hérna hnaut,
hrørnar bikkjan slísagjørn,
sitjandi þar gjørdi graut,
úr gørnum enda, volgan, ørn.

---

7.

Sæll vertu Sira Geir!
eg sit í Læknisnesi,
og verd ad skrifa þér, rétt eina hálfa línu,
en finnir þú í því, (þad kann ad ské) fadaise,
svo fyrir gèfdu greidt, af gamni því ad mínu
eg skálda þetta þér,
þad ekki lengra fer!
En, tantum! efnid er, næst ósk: ad Gud
þig blessi,
(þú blessar þrávallt hann, og þad er skyldt).
Þig beida, besti vin! á burda miklu Essi
er sendist nú, ad ná
Á fund minn framm eptir (í sæti er mér íllt
því kann eg þig ei finna;
en daudinn dapur er, á dreingnum gyrn-
ist vinna,
hapt leggja hugsar á, og hrinda mér um koll
í vosu svartan soll).
Stutt! findu fljótast mig, því flest eg má
þér segja,
mér liggur mikid á;
vin vil eg sannan sjá,
og sannúr vin þinn deya.

## 8. Sendibréf

til Jóns Vídalíns sem var settur Sýslumadur í Múla Sýslu.

1. :,: Herr Sýslumann, Herr Sýsumann,
eg hefi æru þá :,:
ydur af hjarta og hug gratulera:
med heidurinn þann sem ad nú gjørid bera
:,: Ad Godord, ad Godord, gafst ydur
Dórus frá. :,:

2. :,: Um þjófinn, um þjófinn, sem þramm-
adi í Mjóafjørd :,:
leika víst munud þér líknar høndum
þó líkamans ønd hans sé skroppin úr bøndum
:,: Til lukku, til lukku, til lukku, med
þá gjørd. :,:

3. :,: En best er, en best er, ad brúkid þér
nefid í :,:
því ólíkt af skrokknum mun yfirgnæfa
og annars ydur í sílu kjæfa.
þó hrukkóttum grønum þér hnusid, fí fí fí!
þó hnusid, þó hnusid, þó hnusid þér
fí fí fí!

## 9. Ur sendibréfi til N. N.

1. Alla grunar Isabúa
:,: ei þér gis' eg skrifa til :,:
ad þú munir ørt þér snúa
erlendis ad faldabil.

2. Fríborg hefur fríða meyu
fágada grettis bjørtum seim
ef þér géfur gullhlads eyu
gakktu létt ad kosti þeim.

3. Auds ef ristin ástkjósandi
út vill feituníum slá
hjartatvistinn hafdu í hendi
huga teitur stíng þú þá.

4. Lát þig máta af lilju banda
latur géfdu aungan stad,
eik þó gráti Isalanda
ekki géfdu neitt um þad.

5. Af Gudi lukku gódrar njóti
gautur sverda kóngs í bý
á yndis; krukku aldrei þrjóti
ætíd verdi saftin ný.

6. Af ástarrækt þá ósk tilleggjum
:,: endist gagurt mælsku spil :,:
ligdu hægt sem hæna á eggjum
hennar fagurt brjóstid vid.

---

## 10. Til Løgmanns M. Olafssonar.

Pér Herra Løgmann! hafid nád
og haldid Smjadri læstan bøndum
á fótum bædi fast og høndum
svo fái ekkért strokurád.
En þar eg hann fyrir dóm skal draga
sem Delinqvent tractera ber,
examinera og áklaga
hann absolut sær mæta hér.
Innfellur því mín audmjúk bón
ad ydur þóknast mætti herra!
hér fyrir réttinn hann sistera
vardhaldi leiddan vissu um frón
med øllu því er þessu máli
kann þéna til Lustration
strax opinn þinga — skal minn — skáli!

## IV.

# Einstakar vísur.

---

### 1.

Deya, frændi! ef eg á,
eptir fornum vanda.
Kistuloksins kýs eg á
kopar-pløtu standa.

### 2.

Hér liggur
**Pétur Sigurdursson,**
hans sál á himni (er flestra von!)
til yfirválds þegar að Ödlíngur sló hann,
hann át, og hann drakk, og hann svaf,
og svo dó hann.

### 3.

Lastadu ekki einn mann, þó
þér eitthvad þyki hans ad fari:

málstamur opt að høltum hló,
haltur að þessa gagur svari;
sín hverr að binda sárin á,
sum eru stærri ønnur smá;
:,: fríðustu :,: blómstranna beð
bera þá vondu þistla með.

4.

Sá gamli drekkjast Adam á
með øllu synda þrasi;
eg honum náði: — hann skal fá!!
hann drepst í þessu glasi.
Til háðúng mér; — þó honum mest
hann svelgja vil, að púrgerist.
Sá gamli drekkjast Adam á
með øllu synda þrasi.

5.

Þá eymdir stríða á sorgfullt sinn,
og svipur mótgángs um vánga ríða,
þá baki vendir þér verøldin,
í vellyst brosir að þínum kvíða;
þeink: — allt er hnøttótt, og hverfast iætur,
sá hló í dag, sem á morgun grætur
allt jafnar sig!!!

### 6.

Þegar þú horkind eina átt,
(sem opt kann til ad bera)
og út henni koma ekki mátt;
allir þér háð ad géra;
ráð ræð eg þér,
reynt best sem er:
mark eyrun á
átt setja þá
einhverra stórhøfdíngja.
Þjod mun flug fús
þá færilús
fala, matreida kíngja,
ýstru fær ørt þín pýngja.

### 7. Asa = Þór (kvad).
(Utlagt).

For mínum hamri fjøllin skjálfa,
og feiga titra lét eg Alfa,
og slái' eg, klettar klofna í smá.
En ørløg vor kann einginn beigja;
því alfadir hvad gjørdi seigja
og sór á hædum, — hlýtur stá.

### 8.

Þegar sorgin mædir mest

mig, og yndi rænir —
og ólukkan að mér setst
eins og hrafn á mænir;
kulda hlátur hlæ eg þá,
hugsa fornar tíðir á,
dálítið eg tek mér tár,
og totta mína pípu.

## 9. Ósk.

Lifðu í sóma
mín systirin fróma,
og svipt öllu grandi
unaðsemd tóma,
eg óska með blóma
svo allt sé í standi;
sína þá dóma,
vill dauðinn upphróma,
á dymmviðris landi,
dýrðar í ljóma,
hvar leikfærin hljóma,
skal leiðast þinn andi.

## 10. Ósk.

Guðríður hljóti heillir þær,
hjartans, sem óskir gleðja tíðast;
lífdaga röðull skíni skjær,

skýlaus sé bædi fyrr og sídar;
yndi og fridur alla stund,
ágjæta fadmi hrínga grund;
:,: henni til :,: hamíngju sé,
hvört og eitt spor á jardríki.

## 11.

## Þegar Skáldid skyldi læknast

med því ad svelta, orti hann þessa vísu.

Nú soltna tíd er mín tannar bein,
og tíkar geiplum innifli nagar;
þú allra hluta ert átumein
þér yfir sáran minn vembill klagar.
Med kníf sinn þegar og heljarsteininn
vor herra! kémur, burtsneidast meinin
:,: allt jafnar sig. :,:

## 12.

## Utlegging vísunnar Latínsku: parturiunt Montes.

Bjargid eitt í barnsnaud lá
bar sig lítt, med hljód ósmá;
alla fékk í undran leidt,
þá útskrapp mús ein heldur greidt.
Hægt verdur af högginu því,
sem hátt er reidt!

13.

Gott þiki mjøg mér,
ad minnast vid hann Bachus,
Blóds dropinn hlær hver
hled eg ód sem Flaccus.
En ad lifa í Høfn hér
er hunda vesti Caccus;
þá svángur er Saccus.

14.

Ormur tók bylgju barma,
barmur þrútnar af harmi,
burtfør vid Hlunna hjartar
hjarta mitt brast í parta:
Hlíri þú veikst úr vørum,
vørum sætur, á knøri,
Enn verd eg meina minna
minnugur þó fjør linni.

15.

Stórhugadan, hreysti hradan, held eg
Sæmundum;
til Stýrisborda, á Guds orda, ód hann
manninum.

16.

Einginn held eg hrannar elda hyrdir
þori slíkt;

Sigga kuudi, mest þad mundi, meina' eg vera líkt.

17.

Herdti svo talid hundurinn,
med heipt og dygda vansi;
ad í honum held eg ólukkinn
ætti Conferance.

## 18. Um Lopts þýndarmæli.

Glasid stígur, gaular vindur,
grenjar kolblár ver;
loptid mígur, meiga synda
menn, á jørdu hér.

19.

Aeneas á axla bríkur,
aldin fødur lagdi sinn.
Neró líka lagdi [1] ríkur,
ljúfa módur, þad eg finn;
Ødrum hvørjum ertu líkur
æ! þad saunar lambúnginn!

20.

Ljótur er Síra Lángi hyrdir
lømbum Drottins hjá;

[1]) Lagdi þ. e. drap.

saudi ber hann sína og myrðir
særir og bítur þá.

2. Að tennur bráðar lömbum láni
lítst hans skapi þekkt;
hann var áður klaustur káni
kéndur að litilli spekt.

21.

Tvennar Lángi tíundir [1]
tekur af sóknar meingi;
sem holta-Þór og hökla grér,
hans má batna geingi.

22.

Danir spinna orðin enn
alla þvætta vitleysu;
þeir kalla hunda [2] kénnimenn
og Kraga-nornir Sophiu [3]

23.

Nú er eg hólpinn, nú hef eg frið,
nú er eg garpur mesti;

---

[1]) Aðrar sem klerkur, aðrar sem tóa á lömbum þeirra.
[2]) Kaifas hét danskur hundur. [3]) Sophia, er vísdómur illa valið kvennmanns nafn.

adalinn díngla' eg aptan vid
eins og tagl á hesti.
2. Þó eitthvad falli ekki þekt
í adals háu standi;
tek eg því med þídri spekt
þad er taglsins vandi.

## 24.

Sá nádugi herra! bóndann bardi;
birki staurinn hvína réd;
sundur rifin sex hann mardi
sefadi verki aungvitid,
ljós var nád hann lífid spardi
lítid sem hann átti med.

## 25.

## Kona Skáldsins fødurbródur

sem var Silfursmidur, lagdist á gólf.

Hálfbrosandi hermdi mér:
hyrdir silfur kéra,
alvøru nú ætlar sér
af því konan géra.
2. Ei mig tegund undrad fær
þó atbúrd heyri þenna;
því alvara verdur optastnær
út úr gamni Kvenna!

26.

Franskir smjadur og fals sér temja,
fúnud er dygdin rík,
sárbølvada saman lemja
svína politik.

27.

Stærstu medur alúd utan græsku,
Uxa hempu bølverk dæmdan hef;
eg hyrdi ei þó lítt sér leiki Æsku-
lápur [1], honum sjálfan daudann géf
hrædast eigi tíd :,: er hólmi á!
varla heldur verd eg vopnlaus þá.

28.

Fýsir augu íllt ad sjá, og eyru heyra;
eitri flugur á sig næra,
eins er lundin manns frábæra.
En sá er munur mønnum á, og mikju
sætum; [2]
ad eitri saddir eitri skítum,
en undan flugum hunáng lítum.

---

[1]) Æskulápius var sá fyrsti læknir, allt svo líklega Fúskari eins og Hitdal sálugi. [2]) mikjusætur: flugur.

## 29.

Grunnhollan hví gjørir kalla
greppur nóg í ordum heppinn,
yfir hann føgrum bláins báti)
brúdar vin af Snælands kyni;
uggir mig ad eitthvad liggi,
undir skjali slíku falid,
tvírædt hefdi hann annars eigi,
ordid fellt í Studla skordur.

## 30. Vísa.[1]

Á Hjarnaskjædi[2] skammar gat,
(skildur var hann nauti)
med koppinum[3] stángadi kammerat,
kjeltring Sacra leute.[4]

## 31.

Hilmir viti haldi sínu,
hrundinn allri neid og pínu;
er mín ekki ósk in væn?
en einn er skadi, og er þad verra.

---

[1]) Soldáti Sigurdur Sigurdarson, var sendur til ølkaupa, mætir á gøtu félaga sínum, þýdskum, og spyr hann hvad framordid sé, þessi gefur í stadin fyrir svar, einn svokalladan engelskan sopkin framaná nasirnar. [2]) Ennisledur. [3]) Kopf er høfud á þýdsku. [4]) venjulig hrakyrdi Sigurdar.

ad allsvaldandi Sólar herra!
hann heyrir engra hunda Bæn.

Ath. Eyrikur Hoff (prentari) hafdi um nokkur ár látid yrkja fyrir sig ljódmæli til Kóngsins burdardags, en þeir sem ádur høfdu orkt fyrir hann, brugdust honum, leitadi hann þá til mín, og kvad sig einu skipta, hvad eda hvernin orkt væri, því þeir D. mín skildu þad ekki, og þá skapadist þessi vísa í snatri; en adra Kóngi vorum verdugri fékk Hoff seinna, sem prentud var, og vard sú sama honum ábatasøm.

32.

Þó ad eg fótinn missi minn
mín ei rénar kjæti;
hoppad gét eg í himin inn
haltur á ødrum fæti.

33.

Í skøturodi fyrrum fór,
fældi tídum børnin smá
nú í Refa-bundinn-bjór
bragnar Villu-ponta sjá.[1]

## 34. Til A. Vidalín þá hann sigldi.

Nú þú ferdast ætlar, Arni

[1]) Skáldid hafdi einhvorn tíma á yngri árum sjed Pontopidans Spurningar innbundnar í skøturod, en þegar Agent Pontopidan gérdi uppræk tóuskinn fyrir íslendskum Stúdent, orkti hann þessa vísu.

okkur vinur gódi frá,
von er þó mér sinnid sárni
síst eg leyna þessu má;
þúngt er ad vita vini góda
veltast um á ólgu mar,
þúngt er kossinn þeim ad bjóda,
þúngt ad segja þeim: Velfar!

En svo er rádid, svo skal standa
svo vill Parca hafa þad,
mót ei tjáir brøgnum banda,
blýfast stendur þad hún kvad;
í Drottins fardu fridi
frá oss nú á øldu kidi
ad Fylkis Dana frægum stad.

Lukkan, gjæfa, lán og gaman
leidi þig um fold og sjá
þad føruneyti fylgist saman,
fari med þér, og veri hjá;
úr minum og þinna fardu fadmi
farsæll, heill og kvídalaus,
gódi, tryggi besti badmi.
bregdist aldrei þad eg kaus.

## 35.

Prátt í Arna þýtur

þundar Gullin-kamba
rœmist rómur því;
Hrjóstugar spora spítur
sparki megnu dramba
øssu hlaussum í;
Sér dýsir í kaf
og kroppar neðst frá rótum
kékki blakka í
sorphaugunum ljótum
leikur rik í
lopt upp undan fótum
lykt óþektar
stœka þaraf hljótum.

36.

Balba vale sponso cum dixerit inqvit, apud nos
Spero fu-tu-turum te Phi-phi-lippi brevi.

Sínum frí, er situr hjá
sárköld þannig veinar Drós;
mig hýra farðu á! á! á!
Árni! svei, svei! sveina-rós!

37.

Qvod volo non possum

qvod possum nolo vicissim
Tota hominis vita est,
nil nisi nolo volo.

Það eg vil eg þegi má
því sem má eg neita;
njóta er lífið nei og já,
það narraleg er streita.

38.

Lata via est, et strata via est, qvæ ducit ad orcum
Invenit hoc, nullo, vel duce, cæcus iter.

Víður og breiður er vegur sá,
er veit að gløtuninni,
að skeiða hann hver skálkur má,
skygna minnst þó kunni.

39.

Multa tulit fecitqvæ puer, sudavit & alsit.

Mikið þoldi og mikið vann;
Mistilteinninn eggja;
stundum kól og stundum brann,
en stundum hvørutveggja.

40.

Ægrotant medici, falluntur jure periti
Descendunt multi ad tartara Theologi.

Læknar sýkjast, Løgmenn svíkja og svíkjast;
klerkar margir kanna um síd,
kolavarg um æra tíd.

41.

Einginn grætur og einginn hlær
og eingum stofnast vandi;
þá sídst ómætum, sálar rær
Siggi kugg úr landi.[1]

42.

Mín þó flytji, sál í Svín,
eda sigli um ýmsa heima;
víst mun eg ei Vídalín
í Verøldinni gleima.

43.

Elskulegi Landfógéti
lastid ekki þad eg gél

1) Enginn grætur og enginn hlær
og engum stofnast vandi:
þegar sálar sínum rær
Siggi kugg úr landi.

heldur bid eg blídur meti
bøgu þá af hendi sel
:,: elski ydur Gud og gumar
gledilegt og indælt Sumar!
jafnan ydur vegni vel. :,:

## 44.

Heidur og blessun blíd
brúdhjónum fyrr og síd!
sé føgur fest;
allt hvad eg óska má,
ydur skal himni frá,
hønd Drottins hægri tjá,
hjálp bjóda best.

Leidi' ykkur herrans hønd!
hvergi svo mædu bønd
lífs stødvi stig;
þess óskum allir vér!
eptir sem skyldan ber,
verdi því Veigakér
vor gledilig.

## 45.

Þá leingur ei á lipra streingi
leikur þjódskáldid Bæisár,
gjallandi hátt af hretameingi

hvør vøgar sláttinn? gét eg fár;
Bragi þad egi þola kann,
þad er ofdirfska: mælir hann.

Nád vilda' eg hefdi á þeim aldri
sem innir léngstan heiløg bók,
og eidum helgum, sem unnust Baldri;
eplum sem gudum fjørmegu jók.
Þá skyldi oss lifa leingst í hjá,
lista skáldid ad Bæisá!

edur svo:

Hans þegar vistin hjá oss dvín
Harpan í nordri gullin skín.

## 46.

Þó ad nú Innlegg þúsund springi
og þrátt i réttar eyrum klíngi
ei gégna Herrar Gunnu søk;
þeir gera róm ad þínu máli
þótt hinir ætku kjapt af stáli
og hefdu vid sjálfan Mammon møk.

## 47. Til Jomfr. M. Møller.

Bedste Jomfru! :,: jeg her ønsker Dem
Sundhed, Glæde, Lykke,
et prægtigt Silkestykke
kjære Fader! :,: snart maae komme hjem.

Med Knappenaale :,: Krig begyndes ei
lad dem borte blive
aldrig de os rive
farlig :,: Skal vi trættes? nei!

48.

Ást, farsæld, fridur, fadmi jafnan ydar
gledi yndi gaman, gagnid brjóst og framan,
stydji og styrki um stødugt sálarvyrki,
kvøl alla kyrki.

49.

Heila verøld verdi ad nálum
veit eg svo ad meyar teitar,
géta nælt þá best án bytru
betur í sínu yndisneti.
Hoddabrú samt hægan fái
høfudkodda en varist oddinn
yndismey því sagt er stíngi.

50.

Med þessu nefnast skjal skal,
ad skammhendri málssókn þegar hreifi,
og þad í fullu laga leyfi,
Løgmadur Herra B. Grøndal
Øsund í mót. Ad málsins raun

mun eg sambykki dómsins passa;
sér má hann vænta valin laun
af vorum Íslands justitskassa.

51.

O! þú fúla svarta eitur nadra
upphafi veraldar bølvud frá,
þú ert undir augun fús ad fladra
Flærdar dillar spordur hala á;
mjúkast túngutak um tøunur sjest :,:
vørum undir er :,: þó eitrid vest.

52. Þessa vísu

segja menn fyrst orkta af Skáldinu.

Kominn er kaldur vetur,
kvídi eg fyrir því,
ad verda læra letur
lesa bókunum í,
á morgna' upp árla rísa
og sína' Lectíu vísa,
sem er í Syntaxi.

53.

Þegar skáldid var ad verja Síra Þórhalla á Breidabólstad í Naudgunarmálinu hrutu honum

ljóð af munni ſundum, hvar af menn kunna þeſsár bøgur.

Skjótt þykir mér ſkýna ſól
frá ſkanti Hlíðarenda
Yfir ſtaðar breiðaból
Og blíðu litla ſenda.

Mín ef bila ei mælſku tól
og margþætt laga benda;
Halli ſínum heldur kjól
Honum má konan venda.

## 54.

En ef mér ekkért verður verra
Vebanda ſkriðnum inn fyrir krans
Með leyfi mun eg held eg hnerra
hluta þeim meður líkamans
A mér og þér ſem efſtur er
upp þegar tínum krækiber.

## 55.

Islands døkku dúfurnar
á díngjum ſkarns er hoppið
vekið flug til Viðeyar
Vídalín mér kroppið.

## 56.

### Undir nafni Sira S. Hólm.

Ísland bestum blóma
Búid fyrrum var,
Fullt med flot og rjóma
Feitt askvæmi bar.
Presta studdi blessan bú
Djøsli víti ár og álf
Øldin trúdi sú.

Nú er øldin ønnur
Øll af dygdum snaud,
Hellt er hlandi á kønnur
Heiløg trú er daud,
Allt er komid í ærsl og busl;
Andleg sálma' er ordin bók
Andskotalaust rusl.

## 57.

Um Einar Þórólfsson [1] fríhøndlara er og einnin hafdi í léni laxveidina í Ellida ánum — þá hann eitt sinn í Kaupmannahøfn gjørdi skáldinu og fleirum íslendskum stúdentum heimbod.

Þad skal vera :,: Þórólfssonar skál

1) adr. Þóroddsson.

æfi lifi lánga
laxinn skal hann fánga
í kaup' og sölum :,:
kopar — brúki [1] hann — sál.

## 58.

## Um klerk er stamadi.

Dokkum nádi' eg heilsa hal
hann nam aptur skrafa
ta — ta tak þú ska ska skal
skaltú ha — ha — hafa.

## 59.

## Visan:

„Ljótur er Leirár Mángi"
lögud og endurbætt.

Lof sé þér Leirár Mángi
þú lagar helgan saung
gott aldrei frá þér gángi
gyrnd þín er hvurgi raung
ad Skrattanum sjálfum gjördu gis
fardu heldur fyrr enn seinna
heim til himnaríkis.

---

1) adr. hafi.

## 1.

## 3ja kvædi í 1tu Ljódabók Hóratiusar.

1\. Ó skip! þú tekur ábyrgd í
minn eina vin frábæra
Virgilium, þér vil eg því
völdustu óskir færa.

2\. Kypreyar gydjan máttug mjög
mjúkt greidi leidir þínar
og björtust ljósin um blakkan veg
brædur tveir feúr Elínar;

3\. Pér fadir storma stýri hér
stokkbindi vinda galda,
utan nordvestan blídubyr
breidi um siglufalda.

4\. Svo ad þú duggan gétir gód
geymt helmíng lífs míns sanna.

og borid heilan á byzdar slód
borgar Athenu manna.

5. Sá hefur átt um hjartad eik
hørdum kopar þríslegna
sem fyrstur hætti med fleigin veik
fram á haf ólgu megna.

6. Og óttadist minnsta ekki hót
af útsynníngs brádum kyljum,
þá útlits døkkum ædir mót
øskrandi nordan biljum.

7. Og eigi hreldur hrædist par
hryllilegt blik sjøstjørnu,
lángminnst vid sunnan vinda var
vankátur ædisgjørnu.

8. Um Adriu haf sem eru þó
einrádir løg ad segja,
æsa bylgjur og ólgu sjó
eins jafnskjótt nidurbeigja.

9. Hvørja dauds grein mun hafa sá
hrædst, sem um vída geyma
þurrum gat litid augum á
óvætti þá þar sveima.

10. Uppblásinn líka ólguhver
óbljúgum hvarma steinum
og hin Ceraunsku illræmd skér
ordløgd af skipa meinum.

11. Alfødurs stjórn, til einkis, góð
øll lønd réð sundur skéra
og ósamblendið ægis flóð
aðskilnað þjóða géra.
12. Þar engu að síður óttalaus
sú ódáða skeið forherðta
þrástedjar øldu yfir haus
sem aungum var leyft að snerta.
13. Harðlunduð þjóðin heims um bý
hvurskyns raunir fær kannað
og sjer af hvurju annað í
óqvæðið steypir bannað.
14. Japeti son frá sólarraun
svikadjarfur með bragði
eldinum stal og aptur hann
ofaná jarðriki lagði;
15. Hann þegar eld frá himna høll
með hrekk var búinn að leiða
nýr sótta her og ótukt øll
yfir jørð vann sig breiða.
16. Ørvaði líka ótæpt spor
er áður í fjarlægð dvaldi
dauðinn þúngi að vitja vor
og víta torsóktu gjaldi.
17. Um loptið auða Dædalus dró-
með drynjandi fjaðra slætti

og vængjaródri er var ei þó
vorum géfinn kynþætti.

18. Herkúls til þrauta hreystin fljót
heljar garm burt réd teima
Acheronts ruddist fast yfir fljót
sem fellur um Nidurheima.

19. Ekkért er mønnum ofvaxid
einkis daudlegir svifast
í himininn klyfra ad hefja ófrid
af heimskunnar blindni drífast.

20. Fyrir skuld glæpa vorra vér
og vondsku ei þola meigum
frá jørd haldi sínum Júpíter
járn — reidar þrumu — fleigum.

---

## 2.

## 16da Kvædi í 3dju Ljódabók Horatiusar.

---

1. Hurd timbrud traust og dygg
og turninn kopar stór
vard hunda vaktin stygg
er vakandi jafnan fór

grandt hefdi Daney geymda
døkknættis frá ad falla í hór.

2. Hefdi Alfadir ei
og Venus gabbad hann
Acrísi únga mey
er uggull geyma vann;
Gud brá sér gulls í líki
gøtur vissi hann þad greida kann.

3. Gulls skeyti gánga í
gégnum þann besta her
klettarnir klofna af því
krapta þad meiri ber
enn reidarslag. Meni mætu
hús klerks Argíska kollsteypt er.

4. Portin upp borga braut
budlúngur Macedo
med gulli; og gáfa ei þraut
þá gylfa sig undirdró
metnadarfulla; munbur
skipavíkíngum bøndin bjó.

5. Vaxandi audi æ
áhyggjan fylgir dýr
og meir þorsti í Mammons sæ
mitt af því sinni flýr
hátt reisa høfud í vedur,
Mæcen! riddara sómi og Zír.

6. Því minna í heimi hér
hvur keppir audi ad ná,
því betri blessan ljer
blídur Gud himnum á
eg þó sé ríkdóm rúinn,
í ágjarnra her mér ei vil slá.

7. Gladur og fús eg flý
félag mitt binda þar
hvar sje eg eru í
audgjarnir høfdíngjar;
kostulegar eg lisi
nær á eg hvad hinir akta ei par.

8. Og hátt þó í hlødureit
hrúgad sé því med ró
sem Appúli ydnin heit
af akrinum saman dró,
med øll þau miklu audæfi
ørfátækur eg væri þó.

9. Gitskar ei gjæfu þá
gród: sællrar Africæ
fylkir stól føgrum á,
fílabeins sitjandi,
er hreppi eg fremur honum
lind kristals vidur lifandi.

10. Og ei sér ímyndad
øldúngur þessi sær

ánægju og yndi það
er mér minn skógur ljær
þó fáar teigs hæðir haldi
og óbrigðull korns — mér — akur kjær.

11. Þó hunángs koppa kjært
Calabriskt flugnalið
ekki mér fái fært
fastsætið blómstur við;
og ekkért víns nýahøfuð
eg hjá mér finni járnbundið.

12. Og þó að Franskra frá
fjárhøgum blómstrandi,
mínum ei merkum á
magnspikað gángi fé
vel samt eg lifi, leiðri
ørbyrgð lángt frá og armóði.

13. Síst neyta muntú mér
meir þó eg gyrnist fá
en þegar ágyrnd er
útrekin sinni frá
með ljúfara géði greiða
mína smátolla mundi eg þá.

14. En þó kast aundnu blídt
til eignar mér hefði seldt
gjørvallt það veldi vídt
sem voldugur Mygdon héldt

og þad med Alyatta
ríki saman eg feingi fellt.
15. Hann sem allt sýsist fá
fær skort á øllu sjed,
þar fyrir sæll er sá
sem Drottinn skamta réd
hófsamri medur hendi
þad til naudsynja þurfti med.

---

3.

## Leónid 1ta bók.

Ad lifa nafni miklu med
mørgum gudin hafa téd
en í sama sóma glans
ad sálast, þad er blessan manns
sem Júpíter hjá sjálfum sér
af sínum bestu gáfum hér
geimir, og sparri mundu med,
mørgum valla bíta réd.

---

4.

## 2ur bók 367.

Gjædi þau er dygdin dýr
sem drótt ei neinu kann ræna
og ætíd varir uns mann snýr
undir torfu græna.

---

# Leidréttíngar.

Bls. 3 línu 17 les aptur. Bls. 23 l. 5 l. þvi. Bls. 26 l. 17 l. mér. Bls. 37 l. 27 l. upp. Bls. 54 l. 15 l. Kysli. Bls. 59 l. 11 l. veitti. Bls. 62 l. 9 l. brúdur. Bls. 63 l. 15 l. hann. Bls. 67 l. 10 sot. Bls. 77 l. 18 l. eg. Bls. 79 l. 16 l. er. Bls. 82 l. 1 l. vina. Bls. 89 l. 16 l. heim. Bls. 94 l. 4 l. eg. Bls. somu l. 7 l. lifdi. Somu sidu l. 18 l. fyrri festar. Bls. 115 l. 12 l. búrid. Bls. 121 l. 25 l. bjartar. Bls. 122 l. 20 l. er ei. Bls. 125 l. 7 l. titil. Bls. 142 l. 8 l. þrjátigir. Bls. 150 l. 11 l. lymsku' Bls. 159 l. 11 l. vombin. Bls. 161 l. 9. l. Frú. Bls. 166 l. 11 l. gat. Bls. 181 l. 22 l. þina. Bls. 173 l. 12 l. Excellence. Bls. 180 l. 7 l. hrakningin. Bls. 196 l. 6 l. útgaungu. Bls. 205 l. 19 l. il. Bls. 212. l. 22 l. hjálp. Bls. 213 l. 18 l. þreingdi. Bls. 214. l. 16 l. siod. Bls. 215. l. 22. l. glide. Bls. 227 l. 3. l. bagi. Bls. 229 l. 14 l. *probat*. Bls. 240 l. 24. l. eg.

# Til Lesenda!

Hér byrtast ydur kjæru landar! Ljódmæli Sigurdar sýslumanns Péturssonar, er mestmegnis eru tekin eptir eiginhandarriti hans; hefi eg jafnframt gért mér far um, ad þau yrdu svo vöndud sem faung vóru á.

Ad eg rédist í ad láta prenta Ljódmæli þessi er ad miklu leiti ad þakka fródleiks og menta vini Stiptprófasti A. Helgasyni R. af Dbr. á Görd-um, er ad fyrra bragdi hefir bodid mér Æfisögu ágrip Skáldsins, en sakir þess, ad eg hefi í hyggju ad láta prenta Gledispil ens sama — einkanlega ef löndum mínum væri þad hugleikid — fylgir þad ekki nú, heldur er í áformi ad þad ásamt innihaldi bæklíngsins verdi med þeim prentad. Kynni eg lesendum mikla þökk, ef þeir vildu sína mér þá velvild ad senda mér þá vidurauka er þeir hefdu faung á, eda vissu til. Vona eg ad þér, heidrudu landar! takid fúslega Ljódmælum þessum og þad því fremur, sem eg hefi ordid þess áskynja ad egi allfáir hafa fyrir laungu æskt þess ad þau væri á prent komin.

Utgéfarinn.